GUNNAR DAL

# Orðstír og auður

SKÁLDSAGA

*Reykjavík*
SKARÐ · BÓKAFORLAG
1968

Í þessari skáldsögu er ekki studzt við neinar fyrirmyndir. Nesið og Fellið eru ekki til hvorki í Reykjavík né nágrenni hennar, og atburðirnir, sem sagt er frá í sögunni, hafa aldrei gerzt. – Þar með er ekki sagt, að þeir þurfi nauðsynlega að vera ósannir.



*Ákveðið hefur verið að Skarð hf. gefi út flokk bóka er ber nafnið „Nýjar skáldsögur 1968–1978".*

*Fyrirhugað er að í þessum flokki komi út ein skáldsaga á ári næsta áratug. Ætlast er til að þessar bækur verði skrifaðar af íslenzkum rithöfundum, sem velja sér yrkisefni úr samtíð sinni.*

*„Orðstír og auður" er fyrsta skáldsagan í þessum nýja bókaflokki.*

BÍLLINN nálgaðist borgina.

Stefán Jónsson horfði annars hugar á gulrauðan bjarma borgarljósanna út við sjóndeildarhringinn . . . Hann hafði engan tilgang með för sinni. Borgin dró hann aðeins til sín . . . Ég ætla aðeins að skoða borgina í tvo daga hafði hann sagt við föður sinn, – þrjá í hæsta lagi. Faðir hans þarfnaðist hans – . . . kannski byggðarlagið . . . Hvers vegna var hann þá ekki kyrr? Faðir hans hafði ekki sagt neitt. – En hvaða erindi átti hann til Reykjavíkur? . . . Ekkert! Hans stað r var fyrir vestan . . . Þar var hans þarfnast . . . Að hverju var hann þá að leita hingað? . . .

Nútímanum . . . hugsaði hann allt í einu. Ég er að leita að nútímanum . . . Áfram . . . Nútímann er aðeins að finna í borginni . . . Nútímann? . . . Hvað var það annars? . . . Ný veröld . . . þar sem rafeindaheilinn kom í stað sálarinnar . . . Hamingja? . . . Úrelt orð . . . Nútímamaður? . . . Hvaða gleði hefur hann af verkum sínum? . . . Enga! . . . Vín . . . Leikir . . . Gleymska . . . Hver vill kaupa nýjan lampa fyrir gamlan? . . . Ég! . . . Og griðkonan fór með lampann sinn til galdramannsins . . . töfralampann, sem andinn þjónaði . . . seldi hann eins og hvert annað ónýtt skran . . . og hún þóttist góð að hafa fengið fémæti fyrir hann . . . Hvað var hann annars farinn að hugsa um gamalt arabískt ævintýri? . . . Var það vegna þess að einmitt þetta var okkar eigin saga? . . . Vorum við ekki líka að kaupa og selja . . .

Kaupa kvikmyndir í stað veruleika ... skrautsýningar í stað fegurðar ... hávaða í stað söngs? ... Prédikun! ... Prédikanir eru úreltar eins og hamingjan ... Og samt verða menn að trúa á eitthvað? ... Á hvað trúir nútímamaðurinn? ... Hver er hugsjón hans? ... Ástin? ... Guð? ... Kannski var konan eini veruleikinn?

Stefán Jónsson var áður en hann vissi af kominn að krossgötum inni í borginni. Hann nam staðar á götunni hafði augun á rauða ljósinu, sem var að skipta yfir í grænt.

Menn verða að taka framtíðina alvarlega ... hafa hugrekki ... Hugrekki? ... Hvers konar hugrekki? ...

Hann rétti sig upp í sætinu, ók af stað aftur ... „Hugrakkur maður hikar ekki við að stofna lífsþægindum í hættu ... stundum frelsi sínu og lífi til að ná settu marki", hafði faðir hans sagt einu sinni. Marki? Hafði hann í raun og veru nokkurt markmið, sem nokkru var fórnandi fyrir? Hugrekki ... Vitleysa ... Eintóm vitleysa ...

Hjá flestum mönnum er hugrekki ekki annað en dulbúinn hégómi ... löngun til að láta menn dást að sér ... Sumir eru hugrakkir af hreinni heimsku ... eða þá að þeir leita dauðans án þess að vita það ... Sýndarhugrekki hinna rótlausu og metnaðargjörnu. Faðir hans fyrir vestan ... Skólastjórinn sem neitaði að fara þegar Bretarnir komu og hernámu skólann ... Trú gamla mannsins á gott málefni ... Jú, það var ef til vill hið eina sanna hugrekki ... byggðist á trú ... á landið.

Hann ók um miðbæinn ... um gamlar götur, allt of þröngar. Gangstéttirnar voru troðfullar af fólki, en hann fann til einmanakenndar. Þetta fólk á gangstéttunum var honum allt framandi ... Nafnlaust fólk án andlits ...

Hann beygði bílnum allt í einu inn í Lækjargötuna og ók hægt suður eftir fram hjá gömlum timburbyggingum á

vinstri hönd – aðsetursstað fornra mennta, – og nýjum stórhýsum til hægri . . . athafnasvæði hinna nýríku . . .

Það var ís á tjörninni og unglingar á skautum. Hann var kominn fram hjá Hljómskálagarðinum þegar hann kom auga á neonljósin á nýrri hótelbyggingu: Hótel Loftleiðir.

Honum fannst skyndilega að þessi staður ætti erindi við sig. Væri svar við einmanakenndinni . . . Hvers vegna ekki að fara hingað? . . . Hér gat hann hitt fólk . . . fengið sér glas af víni . . . Og hér gat hann fengið sér herbergi líka.

Hann ók bílnum inn á bílastæðið við hótelið og lagði honum. Snjórinn marraði notalega undir fótum hans, þegar hann gekk í átt að anddyri hússins. Laugardagskvöld í byrjun maí og enn frost og snjór. Hann leit til lofts á kaldar fjarlægar stjörnur og örmjóa sigð nýmánans, sem gægðist fram milli skýja. Tvær ungar stúlkur tipluðu framhjá honum – á háum hælum þrátt fyrir snjóinn. Önnur þeirra sneri sér við til hálfs og leit á hann björtum augum. Hann heyrði fliss þeirra, þegar þær gengu framhjá snurfusuðum miðaldra herramanni, sem hallaðist upp að nýmóðins listaverki og hélt uppi háværum samræðum við mánann. Stefán horfði á stúlkurnar hverfa inn á hótelið. Hann staldraði við og virti bygginguna fyrir sér og manninn, sem talaði við tunglið. Hann vissi ekki hvort honum fannst furðulegra maðurinn eða listaverkið sem hann stóð upp við. „Gegnum hljóðmúrinn", höfðu þeir kallað þessa höggmynd. Hún var honum óskiljanleg, en var hún samt ekki einmitt hið rétta tákn nútímans? Öld hraðans . . . öldin sem sprengdi grundvöllinn undan tilveru mannsins í lokuðum heimi, öldin sem reyndi að brjótast gegnum hljóðmúrinn, gegnum ljósmúrinn . . . inn í óþekktar víddir – á eigin ábyrgð.

En þegar Stefán hvarf inn um dyrnar breyttist geð hans. Það var eitthvað við þennan stað, sem verkaði á hann eins

og skógarnótt verkar á dýr . . . – Það var eins og einhver ný rödd talaði til hans . . . Athafnir í stað heilabrota, sagði þessi nýja rödd . . . Athafnir . . . Til hvers leiða heilabrot? . . . Maðurinn er sælastur, þegar hann hugsar ekki neitt . . . þegar hann getur gleymt sjálfum sér. Heimur án hugsana? . . . Er það kannski hamingjan? Nei, ekki hamingja . . . Enginn nútímamaður notar það orð lengur.

Í Víkingasalnum var hvert borð skipað. Stefán sá að inn af honum var annar salur minni, – Blómasalurinn. Skvaldur gestanna blandaðist saman við leik hljómsveitarinnar – hávaðinn eins og hjá bjargfugli. Allir virtust tala samtímis. Það hvarflaði að Stefáni að snúa við og fara aftur út.

Hann óttaðist að hann gæti aldrei samlagazt þessum glaðværa hópi velbúinna manna og kvenna. Honum fannst barþjónninn horfa á sig fjandsamlega. Litu þeir á hann eins og hann væri ámóta undarlegt fyrirbrigði og ferkantað egg? Sást það á honum að hann var utanbæjarmaður?

En hann fór ekki, mjakaði sér þvert á móti nær barborðinu. Hann óttaðist að vera einn. Vildi ekki hverfa aftur út til einmanaleikans. Hér virtust allir í góðu skapi og háværir – eða ef til vill aðeins háværir. Hann reyndi að bera sig frjálsmannlega og bað um gin. Verst af öllu er að vera einn, hugsaði hann . . . Við verðum að leita annarra – manna og kvenna . . . sumir verða að leita alla ævina að einhverju sem hvergi finnst.

„Viskí, – tvöfaldan!"

Stefán leit ósjálfrátt við á manninn, sem stóð fyrir aftan hann og bað um viskíið. Þetta var fremur lítill maður, dökkur yfirlitum. Andlit hans var toginleitt, og hann var með gráar yrjur í vöngum. Hann glotti undarlega eins og

maður, sem lumar á leyndri þekkingu – um náungann. Samt var á honum einhver hungursvipur, eins og hann væri einmitt einn í hópi þeirra sem leita að einhverju sem þeir aldrei finna. Bíða alla ævina eftir einhverju sem aldrei kemur.

Stefán þóttist kannast við þetta andlit úr dagblöðunum: Ólafur Hreinn Andrésson, magister í kínversku og kínverskum bókmenntum.

Barþjónninn færði þeim drykkinn með hinni viðurkenndu háttvísi reykvískra barþjóna.

Stefán horfði á hann rannsakandi, tortrygginn. Hann hafði það enn á tilfinningunni að barþjónninn sýndi honum leynda fyrirlitningu. En svipur barþjónsins var kurteis, óaðfinnanlegur – eins og svipur sýningarbrúðu, sem menn hengja á karlmannaföt í búðargluggum.

Stefán leit af honum og út yfir salinn. Magisterinn stóð enn kyrr og dreypti á viskíinu. Hann horfði á Stefán spotzkur á svip.

„Skál", sagði hann kumpánlega því að við barborð á Íslandi eru allir menn jafningjar og bræður.

„Við þurfum ekki að því að hyggja", bætti magisterinn við glottandi, „að þessi nýi heimur er jafngamall aldingarðinum Eden, – fullur af Evum og eiturslöngum". Rödd hans var eilítið tilgerðarleg eins og hjá manni, sem vill sanna öðrum, að hann hafi hlotið góða menntun.

Magisterinn kynnti sig og Stefán sagði til nafns síns.

„Utanbæjarmaður?"

Stefán tók eftir því að tennur magistersins voru samanbitnar, jafnvel þegar hann talaði.

„Að vestan", svaraði Stefán stuttaralega.

„Ungur og ættlaus maður að vestan", hló magisterinn, sem var sjálfur Norðlendingur. „Ágætt, gæti ekki verið betra. Eigum við að setjast?"

Stefán horfði á hann spyrjandi.

„Við erum að skemmta okkur saman nokkrir félagar. Þú ert velkominn að borðinu til okkar".

Stefán þáði boðið þakksamlega. Félagsskapur, það var einmitt það sem hann þarfnaðist. Þeir fylgdust að inn í Blómasalinn, þar sem magisterinn kynnti Stefán fyrir litlum hóp manna og kvenna, sem slegið höfðu saman þremur borðum.

Stefán fékk sér sæti og samtalið gaus upp allt í kringum hann. Það virtist enginn skipta sér af honum. – Auðvitað, hugsaði hann gramur. Þeir líta á mig eins og hverja aðra skrítlu.

„Ég sé að magisterinn hefur verið að bæta á sig", sagði rauðskeggjaður maður, sem sat á móti Stefáni við borðið. Þetta var stór og sver maður, sem talaði á ópersónulegan hátt eins og hann væri að segja ókunnugum til vegar. Lífsreynt, miðaldra skáld, höfundur fjögurra bóka – og gagnrýnandi. „Varaðu þig á honum", hélt sá rauðskeggjaði áfram og beindi orðum sínum allt í einu til Stefáns. „Vínið verkar á magisterinn okkar eins og mykja á tún. Það verður ekki langt þangað til fjólurnar fara að skjóta upp kollinum".

Magisterinn leit til hans reiðilega.

„Þú ættir að hafa þig hægan", sagði hann. – „Maður eins og þú, sem ert búinn að sanna algert hæfileikaleysi í fjórum bókmenntagreinum ætti að hafa vit á að vera ekki að tala um fjólur".

Rauðskeggur glotti. Hann var vanur slíkri gagnrýni. – Var hann ekki líka sjálfur gagnrýnandi?

Ungt, riðvaxið atómskáld, sem sat við hlið magistersins hló stórkarlalega. Það hafði orðið að þola illkvittnislegan ritdóm um nýja ljóðabók, sem kom út fyrir síðustu jól, og sá ritdómur var skrifaður af þessum rauðskeggjaða uppskafn-

ingi. Hann ætti skilið að fá fyrir ferðinni. „Algjört hæfileikaleysi" hrópaði atómskáldið með sigurhreim í röddinni. „Það er það, sem er að manninum og þess vegna neyðist hann til að vera háðfugl og til að gerast gagnrýnandi, – geldingurinn".

„Það hef ég líka alltaf vitað", sagði annað skáld. Það hafði nýlega sent frá sér skáldsögu, sem kom ýmsu góðu fólki úr jafnvægi með berorðum lýsingum á þekktum mönnum. „Ég hef alltaf vitað að þetta, sem Íslendingar kalla fyndni, er ekkert annað en ein tegund lífsflótta".

Stefán virti þennan mann fyrir sér forvitnislega. Hann var fremur ungur, en hafði tamið sér þreytusvip manna, sem telja sig hafa séð og reynt allt.

„Einmitt", sagði atómskáldið. „Háðið, öðru nafni íslenzk fyndni, er ekkert annað en lífsflótti geldingsins".

Atómskáldið leit í kringum sig eins og það byggist við að einhverjir klöppuðu.

„Graham", tautaði magisterinn.

„Gagnrýnendur eru alltaf fróðusnakkar", sagði sá lífsþreytti.

„Sníkjugróður", fullyrti aótmskáldið.

„Já. Hvar væru þeir, ef ekki væru rithöfundar?" spurði sá lífsþreytti.

„Þeir yrðu að leita sér að heiðarlegri atvinnu", sagði atómskáldið.

Sá rauðskeggjaði leit skáhallt á atómskáldið.

„Það virðist öldungis ófært að ná sambandi við það – hvað sem það nú er – sem svona fólk notar fyrir heila".

„Hér situr íslenzkur aðall að drykkju". Það var einn hinna þekktari heildsala borgarinnar sem talaði. Hann var allur stór og þyngslalegur, minnti helzt á gamlan bakvörð úr knattspyrnuliði, sem löngu er hætt keppni. „Þjónn, – vín

á borðið. Tvöfaldan asna handa öllum. Ha, ha, ha. Það hæfir ykkur bezt þarna í framvarðarsveitinni. Ha, ha, ha". Allur líkami hans hristist til þegar hann hló.

„Framvarðarsveit", hélt heildsalinn áfram. „Hvað er það? Menn, sem eiga ekki neitt og eru ekki neitt. Hafa ekkert að segja og ekkert að bjóða. Í stuttu máli sagt. Listamenn".

„Lofið karlfausknum að tala á meðan hann borgar fyrir það", sagði sá rauðskeggjaði.

„Þetta er eins og ég segi", sagði heildsalinn. „Hvað gera þessir listamenn annað en að blása sápukúlum alla daga út í eilífan bláinn? Það er nú þannig, sem ég hugsa".

„Það er þannig sem þeir einir tala, sem hugsa ekki", sagði magisterinn.

„Kristnir menn ættu að vera kommúnistar, ef þeir meina það sem þeir segja", sagði renglulegur abstraktmálari upp úr þurru.

„Mannvinir eins og kommúnistar", spurði miðaldra blaðamaður, sem hafði einu sinni verið leiðandi stjarna hjá samtökum til verndar vestrænni samvinnu.

„Þú mátt kalla þá hvað sem þú vilt, en þeir berjast þó gegn þjóðfélagslegu ranglæti", sagði abstraktmálarinn.

„Með öðru enn meira ranglæti", sagði sá frá samtökum til varnar vestrænni samvinnu.

„Hvers vegna stjórnum við unga fólkið ekki heiminum?" sagði hár og dökkhærður ungur maður, sonur eins af ráðherrunum. Hann var með langt, þunnt nef og ör á hökunni. – Alfgeir hafði einhver kallað hann.

Stefán hafði tekið eftir því að þessi maður brosti allan tímann. Hann hlaut, hugsaði Stefán að vera farið að verkja í kjálkana af þessu endalausa kurteislega brosi.

„Yrði það betra?" spurði unga stúlkan, sem magisterinn hafði kallað Mónu.

„Það er eintóm vitleysa sem þeir gömlu gera", sagði ráðherrasonurinn og brosti. En nú sá Stefán að þetta var ekki bros heldur gríma.

„Þeir gera það vegna okkar, – sem eigum að erfa landið," sagði Móna gáskafull

Stefán horfði á hana, og það var eins og honum birtist allt í einu ný opinberun.

„Vegna okkar. Þvæla!" sagði Alfgeir. „Þeir klippa aðeins vængi okkar, svo að við verðum ekki fleygir, svo að við fljúgum ekki burtu. Góðmennska. Já, já. Eintóm góðmennska. Klippa þá, – svo að þeir geti haldið áfram að hjálpa okkur". Hann var hættur að brosa og drakk asnann í botn.

Ung kona, sem þegar hafði vakið athygli á sér sem höggmyndari, leit hvasst til hans, en þó var eins og einhver undirstraumur af samúð í augnaráðinu.

„Við þurfum ekki að taka okkur sjálf of alvarlega", sagði hún. „Ég hef komizt að þeirri niðurstöðu að það man enginn neitt stundinni lengur. Menn hafa einfaldlega ekki áhuga fyrir öðrum, nema þá helzt syndum þeirra. Það er öllum sama um þig, en þú ert of hégómlegur til að skilja þetta. Hneykslaðu fólkið ef þér sýnist, – en það hefur gleymt því næsta dag. Já. Láttu það hylla þig, veita þér verðlaun, kalla þig meistara. En áður en þú veizt af kannast enginn við nafn þitt. – Ég á aðeins við að á okkar tímum getum við lifað í friði – gleymd og örugg".

„Ég er viss um að í svona heimi hefðu bæði Einstein og Shakespeare orðið heildsalar", sagði heildsalinn. „Það er ekkert upp úr list að hafa", bætti hann við til skýringar.

„Listamönnum er nóg að vita að þeir eru góðir", sagði atómskáldið.

Magisterinn hló hátt.

„Góðir listamenn", sagði hann, „eru ekki ævinlega góðir

menn. Þeir eru meira að segja stundum mjög þreytandi vinir".

Rauðskeggur ræksti sig og strauk skeggið hugsandi.

„Ég er farinn að halda", sagði hann, „að það sé oft ekkert samband milli mannsins og þeirra verka, sem hann skapar".

Stefán áræddi nú að leggja orð í belg.

„Þetta er óhugsandi", sagði hann. „Það er óhugsandi, að lítilmenni skapi stór listaverk".

Listakonan leit á hann íhugandi.

„Ég er ekki svo viss um það", sagði hún. „Það er eins og bezta sköpunarverkin komi oft frá mönnum sem ómögulegt er að ímynda sér að gætu skapað neitt".

„Í augum lítilla manna eru allir lítilmenni", sagði rauðskeggur og leit kuldalega til Stefáns.

„Og vegna þess að Íslendingar eru yfirleitt siðlaus þjóð", botnaði sá lífsþreytti, sem hafði skrifað skáldsöguna, „dæma þeir alla listamenn siðleysingja".

„Hið almenna siðferði okkar", hneggjaði magisterinn, „er allt annað en einkasiðferði. Um það eru allir sammála".

„Þú átt við að við séum öll hræsnarar?" spurði Stefán.

„Ég dæmi engan", greip kaupmaðurinn fram í. „Tek hlutina eins og þeir eru. Sé þá gleraugnalaust".

„Það hljóta að vera til undantekningar?" sagði Móna.

„Tæplega margar", sagði magisterinn glottandi. „Hver tekur ekki þátt í hinum almennu fordómum – á brotum hinna".

„Og gerir síðan það sama sjálfur – með gleði. Er það ekki það, sem þú átt við?" sagði abstraktmálarinn.

„Einmitt. Annars mundi hann ekki fordæma þær. Það dettur engum í hug að fordæma neitt hjá öðrum, sem hann hefur enga löngun til að gera sjálfur", sagði magisterinn og

leit í kring um sig svolítið vandræðalega eins og hann hefði í ógáti farið út af línunni.

„Ég skil ekki svona hjal", sagði heildsalinn. „Það lætur í mínum eyrum eins og suð flugna!"

„Þeir eru að tala um konur", sagði atómskáldið.

„Ást og peningar. Það er það, sem allt snýst um", sagði ráðherrasonurinn.

„Það talar enginn nútímamaður um ást", sagði magisterinn.

„En hún verður þó alltaf til?" spurði Móna sakleysislega.

Kaupmaðurinn varð fyrri til svars.

„Maður og kona leita hvors annars eins og viðskiptavinir. – Hvort um sig hefur það, sem hitt vantar", útskýrði hann.

„En hvers vegna geta þau ekki elskazt?" vildi Móna fá að vita.

„Ást", sagði heildsalinn. „Elska ég viðskiptavin minn? Nei. Elskar hann mig? Nei. En við verðum alltaf háðir hvor öðrum".

Kannski var talsverður sannleikur í því, sem þessi kaupmaður sagði, hugsaði Stefán: Einmanaleikinn er það, sem menn óttast mest ... Það er betra að vera með fjandmönnum sínum en að vera einn. Þess vegna kaupa menn sér vini með fegurð eða peningum, – eða góðum verkum. Binda við sig alla, sem þeir geta, til að vera ekki einir ... Þess vegna reisum við þorp ... borgir, þjóðfélög ... Þess vegna var hann kominn hingað til Reykjavíkur ... Og þó er hin endanlega lækning mannsins á einmanaleikanum aðeins ein. Konan. Hann gat ekki að því gert að augu hans hvörfluðu til Mónu og hönd hans titraði örlítið, þegar hann dreypti á glasinu. Hún var öðruvísi en allar hinar, fannst honum.

Hún fann augnaráð hans hvíla á sér og henni fannst fara

milli þeirra eitthvað óskiljanlegt, sem dró þau hvort að öðru. Hún leit allt í einu beint í augu hans. Þetta var aðeins örstutt tillit, en samt fannst Stefáni það segja allt, sem hann vonaði, en þorði þó ekki að trúa á.

„Nei. Ég trúi ekki á ástina", sagði magisterinn. „Konur gifta sig yfirleitt til fjár".

„Magisterinn er kvenhatari", sagði atómskáldið.

„Og hann fyrirlítur peninga", sagði rauðskeggur.

„Nei, öðru nær", sagði magisterinn. „Ég er ekki kvenhatari. Ég elska konur og peninga – sitt í hvoru lagi. Í hjónabandi ruglast þetta allt saman".

ALFGEIR Erlendsson bað Mónu um leyfi til að fá að kveikja fyrir hana í sígarettunni. Hún hallaði sér að honum og lét hann kveikja í. Stefán fann allt í einu til sterkrar andúðar á þessum manni. Ef til vill er þetta elskhugi hennar, hugsaði hann. Ef til vill . . . Móna rétti sig við í sætinu og hnikkti til höfðinu. Stefán gat ekki að sér gert að stara á hana, hvernig hún sogaði að sér reykinn, hvernig hún hélt vindlingnum milli rauðra, þykkra varanna. Hún leit ekki á Stefán, en Alfgeir var farinn að gefa honum auga. Hann sneri sér aftur að Mónu og lagði annan handlegginn um herðar hennar.

„Ég hef eiginlega ekki tekið eftir því fyrr, hvað þú ert yndisleg í kvöld, Móna. Eigum við að dansa?" Móna brosti til hans.

Hljómsveitin byrjaði á nýju lagi og þau stóðu bæði á fætur. Stefán reyndi að líta ekki á þau. Augu hans hvörfluðu fram á dansgólfið og hann fór að horfa á dans unglinga, sem snerust nokkra hringi á gólfinu, eins og hundar, sem ætla að fara að leggja sig. – Þetta var síðasta danstízkan. Svo kom hann aftur auga á Mónu, þar sem hún var að hverfa inn í hópinn. Stefán fann til undarlegs sársauka fyrir brjóstinu. Hann reyndi að segja við sjálfan sig, að þetta væri heimskulegt, að þetta fólk kæmi sér ekkert við. Hann gerði sig bara að fífli. Hann varð að láta eins og hún væri ekki annað en loft. Láta eins og hún væri ekki til. Samt kom hann strax auga á hana aftur. Gat ekki að sér gert að gefa

henni gætur. Hann sá hvernig hvítur kjóll hennar sviptist til og það gljáði á svart beltið, sem hún hafði um grannt mittið. Sú tilfinning þrengdi sér inn í hugskot hans að það væri eitthvað í fari hennar, sem hann hafði þekkt lengi . . . Eitthvað, sem heyrði honum til. Það var alveg eins og hún væri honum nákomin á einhvern óskiljanlegan hátt. Það er heimskulegt, hugsaði hann aftur. Hvað mundi hann vera í augum hennar? . . . Hún hlaut að líta á hann eins og hvert annað aðskotadýr . . . mann úr öðrum heimi . . . var hann ekki utanbæjarmaður . . . bar það utan á sér . . . hafði ekki magisterinn strax lesið hann niður í kjölinn . . . Og svo þessi vinur hennar. Stefán fann hvernig andúð hans á þessum manni magnaðist meir og meir . . . Hún og þessi vinur hennar . . . eða voru þau kannski meira en vinir? . . . sennilega elskhugi hennar. Og samt . . . Hvað var undarlegt við að ung stúlka dansaði . . . Kannski voru þau bara kunningjar. Þessi tilfinning, að hún heyrði honum til á einhvern óskiljanlegan hátt, vék ekki frá honum . . . Hún var að vísu að dansa við annan mann . . . Hann hrökk við, þegar hann tók allt í einu eftir að hún leit til hans . . . eða var það missýning? – Nú nálguðust þau hann þar sem hann sat og hún brosti til hans um leið og hún sveif framhjá . . . leit beint í augu hans yfir öxl mannsins. Og Stefán mætti augnaráði hennar. Hann fann að þessi augu höfðu yfir honum eitthvert vald, sem hann gat ekki ráðið við, jafnvel þó að hann vildi . . . Og hún . . . Skyldi hún finna þetta sama. Þessa sívaxandi ástríðu?

Hljómsveitin hætti að spila og þau komu aftur að borðinu og settust.

„Eins og máltækið segir", það var magisterinn, sem hafði orðið. „Þá er hægt að leiða asnann að fljótinu en ekki að láta hann drekka".

„Skál, bræður", sagði heildsalinn og drakk út úr glasi sínu. Hann var að verða drukkinn og leit í kringum sig með ögrandi svip. „Við erum kannski lítil þjóð", sagði hann. „En reynið þið að neita því að Íslendingar séu gáfaðasta og ríkasta þjóð í heimi. Hér hafa allir nóg af öllu".

„Það er til nóg af öllu fyrir þá, sem eru svo heppnir að hafa eitthvert starf", sagði atómskáldið.

„Eða svo heppnir að eiga peninga svo þeir þurfi ekki að vinna", sagði rauðskeggur.

En Stefán var hættur að hlusta. Hann sá aðeins Mónu. Hitt fólkið við borðið var í augum hans orðið óraunverulegt og sviplaust eins og bráðið kerti. Móna fann augnaráð hans hvíla á sér. Hún leit feimnislega niður fyrir sig og löng, dökk augnahár hennar lögðust að kinnunum.

Alfgeir virti þau fyrir sér til skiptis, svo sneri hann sér snöggt að Stefáni.

„Þú virðist taka mjög vel eftir Mónu". Stefán virti hann fyrir sér um stund áður en hann svaraði.

„Ég tek vel eftir fólki".

„En ég aftur á móti hitti of margt fólk, sem mig langar ekki til að hitta", sagði Alfgeir.

Þögn.

Magisterinn og rauðskeggur litu báðir á Stefán. Móna sagði ekki neitt.

„Það var leiðinlegt", sagði Stefán loks og reyndi að sýnast rólegur. Alfgeir leit á hann fjandsamlega.

„Nafn mitt er Alfgeir Erlendsson og mér leiðist fólk".

„Við hvað áttu?" spurði Stefán.

„Ég á við þig".

„Einmitt það". Ráðherrasonurinn hallaði sér nær Stefáni.

„Já, mér leiðist fólk, og þú ert engin undantekning – langt í frá".

Móna leit til hans og augu hennar urðu myrk. Hún færði sig frá honum þegjandi, eins langt og hún komst. Það hafði verið misskilningur að koma til hans að borðinu. Hún hefði átt að forðast hann. Ekki þekkja hann lengur. Hvers vegna gat hann ekki lofað henni að vera í friði? – héðan af gætu þau ekki átt neina samleið . . . Vinir? Hún efaðist um hvort hann hefði hæfileika til að vera vinur nokkurs manns. Bara að hann gæti látið hana í friði.

„Taktu ekki mark á honum", sagði listakonan friðsamlega. „Hann heldur að hann sé að berjast við heiminn en er bara að slást við skuggann sinn".

„Látið þá í friði", sagði Rauðskeggur.

„Látið þá gera þetta upp fyrir utan", hrópaði einhver.

„Hann hefur ekki gert neitt", sagði stúlkan, sem sat við hlið Mónu. Hún hafði ekki tekið til máls fyrr. Það var kliður við borðið og allir töluðu í einu.

Það hvarflaði að Stefáni að fara til að forðast vandræði, en svo varð honum litið á Mónu, og hún sendi honum augnatillit, sem hann gat ekki misskilið. Stefán ákvað, að bezt væri að láta eins og ekkert væri. Hann stóð á fætur og sneri sér að Mónu.

„Viltu dansa við mig?" spurði hann hikandi og óttaðist að fá neitun. Móna stóð léttilega á fætur.

„Gjarnan".

Alfgeir reis til hálfs upp úr sæti sínu og gerði sig líklegan til að snúa sér að Stefáni, en svo hugsaði hann sig betur um og skipti um skoðun. Hann settist aftur þungbúinn á svip. Móna lét eins og hann væri ekki til lengur. Hún féll í faðm Stefáns og þau byrjuðu að dansa. Hvorugt þeirra sagði orð. Hann sannfærðist smám saman um, að Móna var á valdi sömu tilfinninga og hann. Nú, þegar hún hvíldi í faðmi hans, fann hann þessa undarlegu strauma fara milli þeirra, hvar sem

þau snertust. Hann fann að hún skalf. Og nú voru aftur komnar stjörnur í augu hennar. Hann þrýsti henni fastar að sér.

„Móna, þessi maður. Er hann . . . " Stefán vissi ekki hvað hann átti að segja næst.

„Nei". Svar hennar var ákveðið.

„En . . . það var þín vegna, sem" . . . Móna greip fram í fyrir honum.

„Ég get dansað við hvern, sem mér sýnist. Hann heldur að hann eigi mig og geti fengið mig hvenær, sem hann vill!"

„Er hann . . . er hann vinur þinn?"

„Hann var það einu sinni".

„En ekki lengur?"

„Nei. Auk þess er hann giftur annarri". Þau dönsuðu þegjandi. Það hafði myndazt trúnaður milli þeirra. Hún var allt í einu farin að trúa honum fyrir hlutum, sem hún hafði ekki talað um við neinn áður. Þau voru bæði ofurlítið drukkin. Móna var fegin að vera laus við þessa borðfélaga sína. Það var erfitt að umgangast fólk, sem var allt eins og það væri á leiksviði. Stefán var öðru vísi. Í návist hans var hún frjáls. Hún fann til óbeitar á allri þessari tilgerðarlegu, ósönnu veröld manna, sem töldust fyrirmenn og betri borgarar. Með Stefáni var hún eins og samsærismaður, sem lifir í vímu meðal félaga sinna og fyrirlítur heiminn.

„Segðu mér eitthvað um þig", bað hún.

„Það er ekki mikið að segja. Ég heiti Stefán Jónsson og er að vestan. Þannig hljóðar æviágripið.

„Það var ekki langt. – Áttu foreldra á lífi?"

„Föður", sagði hann. „Móðir mín er dáin".

„Fyrirgefðu", sagði Móna.

„Það er gott að tala við þig", sagði hann.

„Og búið þið saman tveir, – þú og faðir þinn?"

„Faðir minn er skólastjóri við skólann á Arnarfelli. Við

höfum íbúð í skólanum og eigum auk þess lítið hús í grenndinni.

„Hefur þú alltaf verið fyrir vestan?"

„Nei. Ég var í skóla á Akureyri. – Varð stúdent í fyrra og hef kennt í vetur við skólann heima. Er aðeins hér í stuttu fríi". Stefán brosti afsakandi og Móna brosti á móti.

„Ég skal hætta þessari yfirheyrslu". Hún þrýsti sér þéttar að honum og þau dönsuðu saman þegjandi. Það var gott, hugsaði Móna . . . þá kemur hann vonandi hingað . . . fer í háskólann. Henni fannst hann orðinn sér nákominn. Hún leit framan í hann og spurði:

„Ætlarðu að vera lengi hér í Reykjavík?"

„Nei, ekki lengi. – Tvo daga, þrjá í hæsta lagi".

„Áttu einhverja vini hérna í borginni?"

„Nei. Ég þekki hér engan".

„En nú þekkir þú mig, er það ekki? Ég heiti Móna". Hún brosti til hans hlýlega.

„Móna. Það er fallegt nafn", sagði hann. Andlit hennar þrýstist inn í öxl hans, og hann fann ilminn úr þykku hári hennar.

„Móna".

„Já, Stefán".

„Þú ert það fallegasta, sem ég hef nokkurn tíma séð".

Hljómsveitin hætti að spila og hún leit upp á hann alvarleg á svip. Varir hans hvíldu sem snöggvast á hennar og þau hættu að dansa.

„Ég vil ekki fara aftur að borðinu", sagði Móna.

„Ég vildi helzt komast hjá því líka", viðurkenndi hann. Þau litu í kringum sig, en það var hvergi autt borð.

„Við skulum koma héðan", sagði Stefán. Þau voru umkringd af ungum mönnum og léttklæddum stúlkum í sléttum, þröngum kjólum.

„Nei, Stefán. Ekki strax".

„En það er hvergi laust borð".

„Nema . . . " sagði Móna og þagnaði.

„Nema hvað?" spurði Stefán loks.

„Nema þú komir og heilsir upp á foreldra mína. Þeir eru hérna að skemmta sér með Þorvaldi og Aldísi. Þorvaldur er föðurbróðir minn", bætti hún við.

„Foreldra þína?"

„Já. Alexander og Hrefnu, ef þú hefur ekkert á móti því?"

„Auðvitað ekki. Ef þú vilt það".

„Já. Ég vildi gjarnan að þið hittuzt".

„Hvert?" spurði Stefán og horfði í kringum sig.

„Komdu með mér", sagði Móna og tók í hönd hans.

Þau fóru fram í Víkingasalinn, sem var troðfullur af fólki. Móna leiddi hann að borði, sem stóð nálægt hljómsveitinni. Þau litu öll upp, þegar Móna kom, og heilsuðu henni glaðlega. Þau voru orðin hreif af víninu. Móna kynnti Stefán fyrir foreldrum sínum, Alexander og Hrefnu, og síðan fyrir Þorvaldi og Aldísi Evu.

„Við hittumst hérna", sagði Móna og horfði á Stefán. „Við . . . " Hún reyndi að halda áfram, en þagnaði.

„Þú þarft ekki að útskýra neitt, Móna", sagði Aldís. Hún var gift Þorvaldi, yngri bróðurnum.

„Fáið ykkur sæti, elskurnar mínar", sagði Hrefna hlýlega. Þau settust við borðið. Þorvaldur kallaði á þjóninn.

„Kampavín!" Hann sneri sér að Mónu. „Menn eru ekki lengi að kynnast nú á dögum", sagði Þorvaldur og rak upp hláturroku. „Þið hafið ekki sézt fyrr en í kvöld?"

„Nei".

„Nei!" Hann rak upp nýja hlátursroku. Móna brosti við honum. Hún tók þennan frænda sinn aldrei alvarlega.

„Hinir ungu verða alltaf, – hinir ungu", sagði Alexander. „Þeir eru fullir af draumum, sem enginn veit, hvort eru að deyja eða fæðast. Ég held að ég skilji ungt fólk". Hann leit til konu sinnar. Hrefna handlék tómt glasið með vel snyrtri hendi og brosti til manns síns til að leyna leiðindum sínum. – Drottinn minn, karlmenn! Hvað vissu þeir um ungar sálir?

„Ungt fólk er ekki eins og það var", sagði Þorvaldur.

„Það er fríðara", sagði Aldís Eva. Þorvaldur hló vandræðalega.

„Verða ekki allir leiðir á þessum andlitum, sem eru svo fullkomin, að þau eru alveg sviplaus?" spurði hann. Hann hafði sjálfur aldrei verið talinn fríður.

Fólk við næsta borð varb yrjað að syngja.

„Hvers vegna dönsum við ekki?" spurði Móna.

„Ég hef ekkert á móti því að gera skyldu mína", sagði Þorvaldur. Karlmennirnir stóðu upp og þau hurfu öll út í iðandi fjöldann á dansgólfinu.

Þegar þau komu aftur var kampavínsflaskan komin á borðið og þjónninn kom og skenkti í glösin.

„Skál fyrir ungdómnum", sagði Alexander og leit ekki á neitt sérstakt. Sjálfur óttaðist hann innantóma framtíð, – án tilgangs.

Samtalið varð brátt fjörugra við borðið. Móna var nú orðin ólgandi af kátínu og léttur hlátur hennar á réttum tíma var alltaf lausnin á vandræðalegum samræðum. Hún talaði mest við móður sína og Aldísi Evu. Einkum Aldísi. Aldís spurði Mónu um hverja hún hefði hitt inni í Blómasalnum, – sérstaklega um Ólaf Hrein. Mónu grunaði að það byggi eitthvað undir þessum spurningum, en Aldís faldi leyndarmál sitt bak við dulráðan svip.

Stefán var ekki lengur öruggur með sig, eins og þegar hann og Móna voru ein. Hann fór að horfa á drukkinn mann,

sem slangraði að næsta borði. Þau voru aftur byrjuð að syngja.

Sá drukkni heilsaði á fólkið og seildist í glas á borðinu. Hann hellti í sig innihaldinu í einum teig.

„Hypjaðu þig", sagði sá, sem misst hafði drykk sinn, og byrjaði að rísa úr sæti sínu. Á sömu srundu kom sá drukkni þungu höggi á kjálka mannsins. Andlit hans varð öskugrátt. Höfuð hans og handleggir féllu fyrst fram á borðið. Svo rann hann niður úr sætinu og datt á hliðina niður á gólfið. Dyraverðir komu hlaupandi og tóku þann drukkna. En hann horfði aðeins þögull á þá. Skildi ekki hvað hann hafði gert, gat enga skýringu gefið.

„Svona eru karlmenn", sagði Aldís. „Þeim er nokkurn veginn sama hvað gerist, – bara að eitthvað gerist".

„Kvenfólk er ekki síður hættulegt", áræddi Stefán að segja. Honum fannst þetta þó barnalegt og flýtti sér að kveikja sér í sígarettu.

„Gefðu mér eina líka", bað Móna. Aldís brosti til þeirra vinsamlega. En að baki þessari vinsamlegu framkomu var eitthvað, sem henni tókst ekki til fulls að dylja.

Þeir stumruðu yfir manninum á gólfinu, þar til hann brölti loks á fætur, en átti erfitt með að ná andanum.

„Kjálkabrotinn", úrskurðaði þjónninn.

„Svona er þetta allt orðið", sagði Þorvaldur og bar ótt á. „Og það er þessari linkind að kenna. Hér dugar ekkert nema skýr og ákveðin lög til að halda lýðnum í skefjum".

„Refsingar eru gagnslausar", sagði Alexander kæruleysislega og dreypti á kampavínsglasinu. „Við lifum ekki í heimi hins hvíta og svarta. Hér er allt blandað öllu, og allar refsingar þess vegna heimska".

„Vitleysa", tautaði Þorvaldur.

„Nei. Þetta er satt", sagði Móna. Hún brosti mildilega. Trúði ekki á tilveru hins illa í þessum heimi.

Það hafði Ameríkani farið til hljómsveitarinnar og mútað henni til að spila fáranlegt sönglag frá Texas. Þau fóru öll aftur að dansa.

Þegar þau komu að borðinu, sneri Móna sér að Stefáni og sagði:

„Ég hef verið að hugsa um listamennina. Þessa, sem við vorum að hlusta á. Mér finnst listamenn alltaf vera að reyna að gera sem minnst úr öllum öðrum".

Stefán horfði á Mónu íhugandi. Hvað mundi hún segja, ef hún vissi að hann sjálfur ætlaði að verða listamaður – var með sína fyrstu skáldsögu í smíðum. Átti hann að segja henni það? Nei. Hann ákvað að gera það ekki. Ekki strax.

„Listamenn", sagði hann spaklega, „eru umtalsillir vegna þess, að þeir eru ekki nógu góðir listamenn. Ekki nógu stórir".

„En hvers vegna eru þeir svona?" spurði Móna.

„Það er af því að þeir aðeins hálflifa lífinu".

„Hálflifa lífinu? þú talar undarlega".

Stefán hló.

„Það gera kannski margir án þess að vita það sjálfir", sagði hann.

„En gerir það þeim þá nokkuð til, ef þeir vita það ekki?"

„Þeir vita það, – vita vel hvers þeir fara á mis. – Vita vel hverju þeir glata".

„Hvernig veiztu þetta?"

„Lítill fugl hvíslaði því einu sinni að mér".

„Hálflifa lífinu", endurtók Móna enn. „Gerir það svo mikið til að við lifum ekki lífinu til fulls, – er það ekki sama og brenna kertið í báða enda?"

„Nei. Það er verra en allt annað", fullyrti Stefán.

„Ég er ekki viss um að ég skilji þig".

„Jú, Móna. Þú veizt þetta vel. Sjáðu. – Líf okkar það er

kraftur, sem við verðum að nota. Tilgangur lífsins er að lifa því. Ef við gerum það ekki, þá breytist það líf, sem við lifum ekki í neikvætt afl, sem byrjar að brjóta niður og eyðileggja . . . Okkur sjálf og aðra. Hjá sumum breytist þetta ólifaða líf í fordóma. Hjá öðrum breytist það í hatur".

Móna horfði á hann brosandi, eins og konur gera, þegar þær hlusta á eitthvað, sem þær skilja ekki.

„Ég hef engan heyrt segja þetta áður", sagði Móna.

„Síðasti dans", tilkynnti hljómsveitarstjórinn.

Móna og Stefán dönsuðu saman þegjandi. Horfðu bara hvort á annað. Móna var á valdi tilfinninga, sem hún hafði aldrei fundið til áður, einhvers, sem ómögulegt var að tjá með orðum. En þetta orðvana ástand var engu að síður raunverulegt. Héðan í frá mundi það meira að segja verða óaðskiljanlegur hluti af lífi hennar. Armar Stefáns lukust um hana og það fór léttur skjálfti um líkama hennar, þegar hann leit á hana.

„Má ég fylgja þér heim?" spurði hann lágt.

„Já. Stefán, komdu heim með okkur á eftir".

Þau þögnuðu. Hún stóð svo nálægt honum að andlit hennar var næstum við hans. Hann beygði sig alveg niður að henni og varir þeirra snertust í léttum kossi. Þau voru aftur orðin djörf og örugg með sig. Trúnaðurinn á milli þeirra batt þau saman ósýnilegum þráðum, fannst þeim. Tvö saman gætu þau boðið öllum heiminum byrginn.

Dansinn var hættur og þegar þau komu að borðinu hafði Þorvaldur kallað í þjóninn.

„Ég geri upp borðið", tilkynnti hann. „Hvað verður þetta mikið?" Hann dró upp úttroðið peningaveski úr vasa sínum og fletti seðlana út eins og spil.

„Þrjú þúsund og fimm hundruð krónur, þakka yður fyrir", sagði þjónninn hæverskur.

„Hmmm", Þorvaldur hóstaði og varð rauður í andliti meðan hann tíndi seðlana á borðið.

„Viljið þið ekki koma heim með okkur á eftir?" spurði Hrefna og lagði aðra höndina um herðar dóttur sinnar.

Móna leit spyrjandi til Stefáns og brosti elskulega. Hann þakkaði fyrir boðið og fór fram til að ná í yfirhafnir þeirra. Við fatageymsluna rakst hann aftur á magisterinn.

„Sæll ókunnugur. Þú virðist hafa skemmt þér prýðilega. – Fljótur að samlagast spillingunni?" Stefán var honum þakklátur fyrir að hafa orðið þess valdandi, að hann hitti Mónu.

„Ég skemmti mér prýðilega", sagði hann – „og þú?"

„Hef ekki yfir neinu að kvarta". Magisterinn þagnaði, en bætti svo við. „Þú stakkst af með Mónu".

„Já".

„Og settist við borðið hjá Alexander Ormssyni?"

„Já".

„Og Þorvaldi?"

„Já, þekkir þú þau?"

Magisterinn hló gleðisnauðum hlátri, en lét spurningunni ósvarað. Stefán hafði heldur engan áhuga fyrir þessu samtali. Hann var með allan hugann hjá Mónu. Þegar hann hafði fengið yfirhafnirnar, flýtti hann sér í burtu til að svipast um eftir henni. Hann kom strax auga á hana, þar sem hún kom gangandi gegnum salinn í átt til hans. Stefán fann allt í einu aftur til sárindanna fyrir brjóstinu. Hann sá að Móna var stöðvuð af þessum háa, dökkhærða manni, sem hafði setið hjá henni við borðið. Stefán sá, að hann sagði eitthvað við hana, og að Móna hristi höfuðið, en svaraði engu. Hann sá, að Alfgeir reyndi meira að segja að stöðva hana með því að grípa um handlegg hennar, þegar hún lagði af stað aftur. En Móna sleit sig lausa og flýtti sér fram hjá honum. Hún var dálítið andstutt, þegar hún kom til Stefáns. Hann hjálp-

aði henni þegjandi í kápuna. Aldís var allt í einu komin til þeirra. Stefán tók nú eftir því, að magisterinn stóð enn hjá honum og hélt á frakka og hatti.

„Við förum öll heim til Alexanders og Hrefnu", sagði Aldís. „Það er allt of snemmt að hætta strax". Hún þagnaði og kinkaði kolli í átt til magistersins. „Takið þið bara þennan vin ykkar með ykkur".

Magisterinn hneigði sig. Aldís hvarf frá þeim aftur, en magisterinn fylgdist með Stefáni og Mónu út. Þar hittu þau Alexander og Hrefnu. Bræðurnir voru báðir sinn á hvorum bílnum og ákváðu að aka sjálfir, þrátt fyrir ölvímuna. Magisterinn kom sér í skyndi upp í bifreið Alexanders. Stefán ákvað að skilja sinn bíl eftir. Þau biðu um stund eftir Þorvaldi og Aldísi, og Stefán virti fyrir sér borgarljósin og sjónvarpsstengurnar, sem voru eins og skógur á húsþökunum. Það var gott að anda að sér hreinu lofti.

ÞORVALDUR og Aldís sátu í fremra sætinu, en Stefán settist við hlið Mónu í aftursæti bifreiðarinnar. Ósjálfrátt leitaði hann að hönd hennar og þrýsti hana innilega. Hann hafði aldrei fundið til þessara tilfinninga, óskaði sér einskis betra. Bara sitja við hlið hennar og aka með henni á heimsenda.

Það var að mestu heiðskýrt og vetrarbrautin hvolfdist yfir þeim eins og frosinn regnbogi.

Þannig ætti lífið alltaf að vera, hugsaði Stefán. Fagurt, – fagurt eins og heiðríkjan og stjörnurnar, sem horfa niður á jörðina eins og þúsund ástfangin augu. Og líf mannsins, hvernig ætti það að vera? Stefán virti fyrir sér turn Hallgrímskirkju, sem teygðist upp í hreinan og svalan himininn. „Svona!" hugsaði hann. „Einmitt svona". Hvers vegna gátu ekki allir menn lifað í friði og sátt. Hvers vegna gátu þeir ekki verið góðir, – leitað hins fagra og góða, – guðs! En þannig hugsa menn víst aðeins meðan þeir eru ungir, – mjög ungir".

Þau óku inn Miklubraut heim til Alexanders, sem hafði reist sér hús í tízkulegum stíl í nýju hverfi fyrir utan gamla bæinn. Það stóð á Nesinu, þar sem ófullgerðar, frosnar moldargötur lágu milli skrauthýsa hinna nýríku manna. Hraunbreiðan úfin og grett var að mestu auð. Hún teygðist til austurs fyrir ofan Nesið eins og ögrun við yfirráð mannsins yfir jörðinni.

Í augum þeirra, sem bjuggu á Nesinu var þetta marklaus ögrun, hætta, sem heyrði fortíðinni til. Náttúran hafði orðið að beygja sig fyrir herra sínum. Tæknin hafði sigrað, – endanlega. Og maðurinn lifði í öryggi – tryggur og verndaður – fyrir öllu.

Alexander og Hrefna buðu gestum sínum að ganga í bæinn.

Fætur Stefáns sigu niður í þykk og mjúk gólfteppin, þegar hann gekk inn ganginn. Þeim var vísað til sætis og innan stundar voru þau öll sezt að drykkju.

Þetta var rúmgóð íbúð, með tveimur samliggjandi stórum stofum, ofhlöðnum nýtízkulegum húsgögnum eins og tíðkaðist meðal efnaðra Reykvíkinga eftirstríðsáranna. Einn veggurinn var alþakinn bókum í fallegu bandi. Það virtist skipta öllu máli. Stefán efaðist um, að þessar mörgu og stóru bækur væru nokkurn tíma hreyfðar, nema til að þurrka af þeim rykið. – Aðrir veggir voru þaktir málverkum, en aðeins eftir málara, sem töldust til hefðartákna meðal Reykvískra góðborgara, – Kjarval, Ásgrímur, Jón Stefánsson.

„Þetta samkvæmi gæti orðið upphaf margra hluta", hugsaði Stefán og tók við viskíglasi, sem Alexander rétti honum.

„Leiðindafélagsskapur", hugsaði magisterinn. En einhvers staðar verða menn að vera. – Konurnar höfðu farið inn í innri stofuna, og hann var einn með bræðrunum og Stefáni.

„Hvað er þessi magister að gera hér?" hugsaði Þorvaldur. Hann hafði í seinni tíð orðið á móti flestu, en verst var honum við Gyðinga, kynvillinga og menntamenn.

„Skál og velkomnir", sagði Alexander kurteislega, hlutlaus. Þeir dreyptu á glösunum. Þorvaldur setti upp í sig vindil. Skyrpti öðrum endanum út í loftið og kveikti í hinum. Hann hvessti augun á magisterinn.

„Jæja! Skál . . . Og hvað er svo að frétta af menningunni? – Þér eruð upprennandi maður í blaðaheiminum, og magister?"

Ólafur Hreinn Andrésson, magister í kínversku og kínverskum bókmenntum, byrjaði að pata með höndunum og lét munnvikin síga.

„Ha? Já, menningunni segið þér. Hvað er svo sem framlag þessarar kynslóðar okkar til menningar, – fyrir utan kókakóla og blöðrutyggigúmí?"

Alexander benti á hann með stuttum, digrum vísifingri eins og skammbyssu.

„Og þetta segið þér, lærður maðurinn. Til hvers erum við þá að henda öllu þessu fé í skólana?"

„Já, svaraðu því", sagði Þorvaldur. „Það er ekki svo að sjá, að menn fái mikið fyrir peninga nú á dögum, – eða hvað?"

„Svaraðu því sjálfur", sagði magisterinn þurrlega.

Þorvaldur hallaði sér áfram í sætinu, höfuðið yfir hnjánum.

„Já. Ég skal svara þv í. Stúdentar . . . Skólagangan verkar á þetta unga fólk eins og gelding".

Munnurinn á magisternum í kínverskum fræðum opnaðist eins og á gullfiski, svo lokaðist hann aftur.

„Montnir geldingar, það er einmitt það, sem þeir eru", hélt Þorvaldur áfram. – „Með svolitla þekkingu á steindauðum fræðum. Vitagagnslausum . . . Koma lífinu ekkert við".

„Menn eru fullir af hleypidómum um það, sem þeir þekkja ekki", urraði magisterinn, og það kom reiðisvipur á andlit hans. En Þorvaldur hlustaði ekki á hann.

„Mín leið er styttri og betri", sagði hann og horfði í kringum sig. „Ég tek það sem mig langar í. Lifi lífinu eins og mér sýnist. Ég set mér engar reglur. Skiljið þér? Mig varðar ekkert um neina postula eða biblíuhesta".

„Já. Já. Ég skil", sagði magisterinn háðslega. „Maður verður að koma undir sig fótunum. Eignast dálitla innstæðu í bankanum. Öryggi. Umfram allt öryggi. Það er eins og maður hafi einhvern tíma heyrt þennan söng áður".

Þorvaldur leit skáhallt á magisterinn.

„Fínir menn þurfa auðvitað aldrei að gera neitt fyrir peninga? Hræsnarar! Það er alveg sama hvað menn gera, þeir verða ævinlega háðir peningum.

„Þetta er hárrétt hjá þér, bróðir", sagði Alexander. „Eins og máltækið segir. Það er sama hvort þú ert ríkur eða fátækur, ef þú átt nóga peninga".

Þeir veltu þessu fyrir sér um stund og drukku úr glösunum. Alexander var einn hinna mörgu, greindu manna, sem eru eins konar hugsjónamenn í æsku, síðan kaldlyndir efasemdamenn og verða loks umburðarlyndir fílósófar, sem hafa gefizt upp á bæði að játa og neita. Hann hafði aldrei haft tíma til að vera ungur, og það gerðist svo mikið, að hann hafði ekki heldur tíma til að eldast. Hann tók af sér gleraugun, fægði þau með hvítum vasaklút og leit friðsamlega til bróður síns.

„Það er eitt, sem þessir ungu menn hafa þó fram yfir okkur, hvað sem öllu öðru líður".

„Ég hefði gaman af að heyra, hvað það er", sagði Þorvaldur og lagði tvo fingur milli augna sér.

Alexander brosti til hans.

„Þeir eiga eftir að grafa okkur", sagði hann og tæmdi glas sitt.

Gestgjafinn leit til Stefáns af þessari sömu hlutlausu kurteisi og spurði:

„Og hvað hefur svo þessi ungi vinur okkar fyrir stafni?"

„Ég er að skrifa skáldsögu", sagði Stefán hikandi.

Þeir litu allir á hann, fjandsamlega, fannst honum. Hann hafði ekki ætlað að segja þetta og leit á Alexander eins og

hann vænti þess að finna hjá honum stuðning, – en fann engan. Magisterinn hló tómlega.

„Skrifa skáldsögu, það var óvenjulega frumlegt".

Stefáni geðjaðist ekki að því, hvernig hann talaði. Og svo þetta allt sjáandi háð í augnakrókunum, kuldaglottið í niðurdregnum munnvikunum.

„Og þú verður auðvitað framúrstefnumaður eins og allir ungir menn eiga að vera?" hélt magisterinn áfram.

„Nei".

„Ekki það".

Magisterinn teygði aðra höndina fram á borðið og drap fingurgómunum léttilega niður á borðplötuna.

„Ungt skáld verður þó að finna til í stormum sinna tíða, – eins og einhver sagði, og skilja hvaðan vindurinn blæs".

Ungi maðurinn ræksti sig hressilega.

„Með öðrum orðum, – skáld á að gegna hinu mikilsverða hlutverki vindhanans, sýna stefnuna, ekki móta hana".

Bræðurnir ráku upp hlátursbofs, og Alexander kinkaði kolli til samþykkis.

„Við hvað áttu með þessu?" Magisterinn varð ókyrr í sætinu.

„Ég á við það", sagði Stefán, „að þessir listamenn, sem kalla sig framúrstefnumenn, sýna aðeins áttina í stað þess að skapa. Sjálfir vekja þeir enga storma, blakta bara eins og tuskur í erlendum vindi".

„Er nokkuð við það að athuga?" spurði magisterinn. Þeir hölluðu sér fram yfir borðið hvor á móti öðrum og horfðust í augu reiðilega.

„Ekki annað en það, að nafnið er rangt, auk þess verða skáld að reyna að skapa upp á sínar eigin spýtur, þeim er ekki eðlilegt að vera aðeins sporgöngumenn, – aðeins eftiröpun og bergmál af öðrum".

„Það væri fróðlegt að vita, hvers vegna listamenn og skáld flokkast þá niður eftir stefnum?" spurði magisterinn, og var aftur orðinn meinfýsinn á svip.

„Það eru ekki skáldin, sem skipuleggja menninguna og flokka hana, heldur þeir, sem vilja nota þau, stjórnmálamennirnir og trúarbrögðin".

„Ég er hræddur um, að þetta sé ekki svona einfalt, – og vonandi ert þú það ekki heldur", andvarpaði magisterinn þreytulega.

„Jú. Ég er svona einfaldur. Ég hef alltaf óttast þessa menn, sem flokka alla hluti í stefnur, gefa þeim nöfn og einkunnir, raða þeim niður eins og raðað er í hillur á safni. Gæti ekki verið að meiri skilningur myndi sameina þá aftur?"

„Ég held að það sé dálítið til í þessu, sem strákurinn sagði áðan um að stjórnmálamenn stjórni þessum listamönnum, menntamönnum og auðvitað sérstaklega blaðamönnum". Þorvaldur smjattaði á orðunum með velþóknun og leit á magisterinn. „Já, sjáið þér til. Hér áður fyrr eyddu kóngar fé sínu í hirðfífl, nú hafa þeir blaðamenn".

Þetta féll greinilega í grýtta jörð. Magisterinn var enn með þennan þreytusvip manns, sem er að reyna að útskýra flókin vísindi fyrir heimsku barni. Hann virti Þorvald ekki svars, en sneri sér að Stefáni.

„Þetta er allt eintómur misskilningur. Auðvitað verður ný stefna ekki borin fram til sigurs, nema af fjölda listamanna í mörgum löndum". Hann varð aftur ánægður með sjálfan sig.

Stefán átti í sýnilegum erfiðleikum með svarið. Hann fann að þeir horfðu allir á hann.

„Mér geðjast ekki að hópsálum", sagði hann loks.

Magisterinn brosti hógvært og deplaði vísum augum.

„Það var leiðinlegt. Ég er hræddur um að þú verðir að breyta um strik og stýra eftir einhverri annarri stjörnu, ef þú ætlar ekki að verða eitt af nátttröllunum".

Stefán varð þögull um stund og íhugaði þetta. Svo lækkaði hann rödd sína og sagði:

„Það verður að ráðast. Það verður alltaf of gamaldags fyrir skáld að fylgja nýrri stefnu. Framúrstefnur eru of gamaldags fyrir minn smekk og of gamaldags til að skapa skáldskap yfirleitt".

Magisterinn reyndi að leggja eins mikið háð í orð sín og hann gat, þegar hann svaraði.

„Er nokkuð til nýrra eða frjórra en hin nýjasta stefna í listum og bókmenntum á hverjum tíma?"

„Stefán leit snöggt upp, augnaráðið undarlega skarpt.

„Já. Öll sönn sköpun í listum byrjar með óljósri tilfinningu og endar í ákveðinni stefnu. Eftir að hún er orðin fullmótuð stefna er hún ekki sköpun lengur".

Magisterinn geyspaði. Það fór eins og mig grunaði, hugsaði hann. Leiðindafélagsskapur . . . Smáborgarar . . . Hann leit við inn í innri stofuna. Konurnar voru farnar að gerast háværari og virtust skemmta sér prýðilega. Það hefði verið ólíkt betra að tala við þær.

Aldís, – skyldi hún hafa breytzt mikið í hjónabandinu? . . . Hin nýja Aldís, – kona þessa grófgerða mangara. Hún sýndist enn vera fullkomin, – eða var hún orðin eins og vel gert gerviblóm . . . Það er eiginlega ekki hægt að sjá hvort hún var enn raunveruleg . . . Ekki fyrr en komið er við hana . . . Ha, ha, ha. Magisterinn drakk út úr glasi sínu og hellti það fullt aftur. „Ég tek það, sem mér sýnist", – var það ekki það, sem hann hafði sagt, þessi stóri, rauðgúlaði maður hennar. Ha, ha, ha. Magisterinn leit útundan sér á Þorvald.

„Að hverju er þessi maður að tísta?" spurði Þorvaldur þungbúinn.

„Að þessu með hirðfíflin og stjórnmálamennina", svaraði magisterinn. „Það er samt stundum ótrúlega erfitt að þekkja þetta í sundur".

Þorvaldur rak upp hlátursroku.

„Magisterinn ætti ekki á alltof áberandi hátt að vera að narta í höndina, sem fæðir hann".

Magisterinn spratt á fætur.

„Þetta er ósvífið, móðgandi. Það hefur enginn stjórnmálamaður nokkurn tímann borgað mér neitt".

„Ekki það, nei". Þorvaldur rak upp nýja hlátursroku. „Ég biðst auðmjúklega afsökunar".

Magisterinn hrukkaði ennið og renndi fingrunum gegnum hár sér. Síðan settist hann aftur.

„Ég átti aðeins við", sagði hann, „að hér er allt sama lágkúran og flatneskjan".

„Hann er að verða fullur", hugsaði Þorvaldur. Upphátt sagði hann:

„Þér þykist auðvitað vera svo hátt hafinn yfir alla menn að þér getið ekki greint þá sundur eftir stétt eða stöðu?"

Magisterinn drap varlega í sígarettunni.

„Þvert á móti. Ég sé muninn alltof vel".

Þorvaldur misskildi svarið og leit á magisterinn með eftirvæntingu veiðimannsins.

„Og vildir að hann væri enginn?" Hann var allt í einu farinn að þúa magisterinn.

„Já, ég hefði ekkert á móti því".

„Og þú ert ekki kommúnisti?"

„Nei".

„Aðeins vinstrisinnaður menntamaður?"

„Já, ef einhvern varðar um það".

„Datt mér ekki í hug ... " kallaði Þorvaldur sigri hrósandi og leit á Alexander.

Magisterinn brosti dauflega.

„Ég held að meira en hálfur heimurinn hefði aðeins gott af byltingu. Hún er óhjákvæmileg meira að segja. Meiri hluti mannkynsins sveltur".

Alexander tottaði vindilinn og horfði á hann góðlátlega gegnum reykskýið.

„Það er satt. Það eru margir fátækir, og ef það ætti að bæta úr þörfum þeirra allra, held ég, að það yrði víst lítið eftir".

„Handa hinum ríku", botnaði magisterinn.

Rödd Alexanders var enn vingjarnleg, – vinsemd kaupmannsins, sem þarf að selja varning sinn.

„Ég trúi ekki lengur á miklar byltingar. Það er margt, sem ég vildi að væri öðru vísi í þessu landi, en bylting gerir ekki meira fyrir fólkið en jarðskjálfti fyrir borgina".

Magisterinn horfði á neglur sínar af gaumgæfni.

„Menn verða að brjóta niður til að byggja upp".

Þorvaldur stóð snögglega á fætur, talaði eins og maður, sem hefur fundið óhrekjandi lausn á gömlu vandamáli.

„Þetta er aðeins dulbúinn sadismi í hempu endurbótahreyfingar. Sannleikurinn er sá, að ykkur líður aldrei vel, nema þegar þið eruð að grafa undan öðrum og mala þá niður. Ykkur finnst þið vera sigurvegarar, þegar þið sjáið þá falla".

Hlátur magistersins kom eins og óvænt sprenging.

„Það hlýtur að vera gaman að hafa röntgenaugu", sagði hann, þegar hann róaðist aftur. „Annars falla þeir á sínum eigin verkum. Þeir brjóta sjálfa sig niður – innanfrá".

„Við ættum heldur að fara okkur hægt. Umbætur, ekki bylting. Við verðum að læra að skríða áður en við getum gengið", sagði Alexander friðsamlega.

„Þetta er víst fast orðtak flokksins?"

Alexander leit á spyrjandann með vanþóknun.

„Það er að vísu rétt. Ég hef notað það áður.

Þorvaldur tók sér sæti aftur og fékk sér nýjan drykk.

„Allir, sem einhverju máli skipta, fylgja okkur", sagði Þorvaldur. Hann hleypti brúnum háðslega, „svo að þessir tilburðir ykkar skipta engu máli".

„Vertu ekki alltof viss um það", sagði magisterinn. „Austrið á líka vini engu síður en óvini, – og kynni að sigra að lokum".

„Þið eruð sagðir miklir trúmenn", sagði Alexander. Það var uppgjöf í röddinni, og hann lagfærði á sér þessi stóru, dökku gleraugu, eins og hann vildi dylja það, sem leyndist á bak við þau.

„Trú", sagði Þorvaldur og gretti sig. „Hvaða máli skiptir hún. Menn eru hræddir við dauðann, það er allt og sumt".

„Mitt vandamál er að lifa", sagði magisterinn.

„Ég ætla mér ekki að deyja fyrr en mér sýnist", tilkynnti Þorvaldur.

„Verða samt ekki allir að hafa einhverja trú?" spurði Stefán, en roðnaði ofurlítið. Aftur fannst honum hann tala eins og einfeldingur.

Magisterinn gaf honum hvasst hornauga.

„Vitleysa", sagði hann og sveiflaði hendinni fyrirmannlega. „Öll trúarbrögð eru aðeins óskadraumar, sem valda ofsjónum. Og svo fara menn að trúa ofsjónum sínum og heimurinn fyllist af hindurvitnum".

„Laukrétt, jafnvel þótt magisterinn segi það", hrópaði Þorvaldur. Hann leit á Ólaf Hrein og í augnaráði hans vottaði fyrir einhverju, sem nálgaðist aðdáun. „Mér geðjast vel að þessum heimi", hélt Þorvaldur áfram, – „og ég vil fá að lifa í friði fyrir öllum siðapostulum og prestum. Hvers vegna

þurfa þeir ævinlega að krossfesta alla lífsgleði með þessum glámsaugum sínum?"

Alexander horfði hugsandi upp í reykskýið úr vindlinum.

„Þekking okkar", sagði hann, „er ákaflega flókin, þótt hún sé takmörkuð".

Svar magistersins var ákveðið.

„Málið er mjög einfalt. Yfirstéttina vantaði ódýran lögreglustjóra til að halda lýðnum í skefjum. – Og svo fundu þeir upp guð".

Alexander ýtti stólnum aftur á bak og lagði fæturna upp á borðið.

„Nú, en ef trúin gerir mennina góða?"

Magisterinn varð á svipinn eins og það væri óbragð í munninum á honum.

„Góða", sagði hann hvassyrtur. „Þeir látast vera góðir, þessir letingjar, af því að það kostar þá minnsta áreynslu".

Alexander leit fram hjá honum eða í gegnum hann eins og hann væri loft og á Stefán. Hann brosti alúðlega. Honum geðjaðist vel að þessum pilti.

„Að hvaða niðurstöðu hefur svo þessi ungi maður komizt?"

Stefán leit á hann með gleiðu brosi ungmennis. Hann kunni ekkert svar við þessari spurningu. Það var því bezt að ræða sem minnst um þessi mál. Ekki gefa höggstað á sér.

„Engri". Stefán fann undir niðri til óljósrar gremju. Voru þeir ekki blindir eins og leðurblökur, þessar flugusálir, hugsaði hann. Á sinn hátt ofstækisfullir eins og heittrúarmenn. Aðeins neikvæðir. Og á þetta að verða hin nýja öld. Var þetta hinn dýrmæti, mikli arfur, sem þeim varð öllum svo tíðrætt um, arfur, sem ungt fólk eins og hann áttu að taka við úr höndum þessarar gömlu kynslóðar? En hvað var þessi arfur ... þessi nýja veröld? Heimur án guðs? ... Það varð allt í einu þögn meðan klukkan sló eitt.

ALDÍS Eva hafði farið fram og Hrefna og Móna létu fara vel um sig í sófanum. Móna aðeins dreypti á glasinu og hélt síðan áfram samræðunum.

„Er óhætt að trúa þér fyrir leyndarmáli?" spurði hún og leit á móður sína björtum augum.

Hrefna yppti fínbyggðum öxlum sínum um leið og hún drap í sígarettunni með löngum fingrum.

„Nei, auðvitað ekki!" Svipur hennar bar ekki vott um neinn áhuga. „En segðu mér það samt". Hrefna horfði á arininn í stofunni. Eldurinn hafði brunnið út og aðeins askan sýndi hvar hann hafði verið.

„Ég held ég sé ástfangin", hélt Móna áfram. „Ég á við . . . Ég held að hann sé skotinn í mér".

„Hver, þessi ungi maður?" spurði Hrefna. Hún hafði nú fengið áhuga á málinu, og augu hennar smástækkuðu.

„Já", svaraði Móna og rödd hennar varð blíðleg og dreymandi.

„En góða Móna mín. Þú þekkir hann ekki neitt".

Móna sat hreyfingarlaus eins og myndastytta, og hún leit ekki á Hrefnu, þegar hún svaraði.

„Jú, ég þekki hann mjög vel".

„En varstu ekki að kynnast honum fyrst nú í kvöld?"

„Jú", viðurkenndi Móna hóflega.

„Elsku Móna mín. – Hvað veiztu um fortíð þessa manns, – hann sjálfan?"

Móna byrjaði að raula lagstúf annars hugar. Svo sagði hún ákveðin.

„Hann er góður maður".

„Hversu góður?"

Móna dró fæturna inn undir sig í sófanum.

„Svo góður, að mér væri alveg sama, þótt hann hefði drýgt hundrað glæpi".

Hrefna leit undan, og það voru efasemdir í svip hennar.

„Það er enginn maður svo góður. Ertu viss um að það breyttist ekki, ef þið skylduð kynnast betur?"

Móna hristi höfuðið hægt.

„Nei", svaraði hún einbeitt.

Hrefna hafði fengið sér nýja sígarettu og horfði í glóðina hugsandi á svip.

„Hjónaband getur orðið furðulegt fyrirtæki".

Móna kinkaði kolli alvarleg í bragði.

„Ekki mitt. Það skal verða gott".

Hrefna fór að hugsa um sitt eigið. Gott hjónaband? Já. En byggðist það á ást? Faðir Hrefnu hafði dáið, án þess að láta eftir sig annað en skuldir. Hann hafði fengizt við verzlun, og menn héldu, að hann væri vel stæður. En hann hafði aðeins reynt að lifa eins og auðkýfingur. Fórnað öllu til að sýnast. Og skömmu seinna hafði móðir hennar einnig látizt, og hún stóð ein uppi. Það höfðu verið erfiðir dagar . . . En svo hafði hún kynnzt Alexander. Og nú hafði hún allt . . . eða næstum því. Alexander var góður maður. Og börnin komust vel áfram. Eldri dæturnar tvær höfðu gifzt ungar og flutzt vestur til Bandaríkjanna. Það var nú það. Nei, Alexander var allt, sem hún átti, – og Móna. Hrefna hafði alltaf óttast að verða skilin eftir einhvers staðar . . . verða ein.

Tryggð hennar við manninn var í aðra röndina þakklæti við höndina, sem fæddi hana, í hina ótti við einveru, en ástin . . . ?

„Það er stundum erfitt að samræma ást og nauðsyn", sagði Hrefna loks, eins og hún væri að tala við sjálfa sig.

„Og þá verður ástin að víkja?" spurði Móna og horfði á móður sína með undarlegum svip.

„Það getur farið svo".

„Þá er ástin ekki mikils virði, eða finnst þér það?" spurði Móna.

Hrefna lét eins og hún hefði ekki heyrt spurninguna, en hélt áfram að tala við sjálfa sig.

„Hver kona hefur sitt sérstaka lag á hlutunum – sér í lagi sitt sérstaka lag á eiginmanninum".

Móna leit niður fyrir sig.

„Ég vil aðeins mann, sem er góður, annars vil ég vera ógift".

Hrefna brosti dauflega.

„Það er aldrei að vita, Móna mín, hvað maður getur gert við konu sína".

„En pabbi hefur alltaf verið góður við þig?" spurði Móna forvitnislega. Hjónaband foreldra hennar hafði alltaf verið henni ráðgáta.

„Ja-á, hann hefur alltaf verið mér góður. Við höfum alltaf verið vinir, og virt hvort annað . . . skilið hvort annað . . . Hann er traustur . . . Hjartað úr gulli, eins og þú veizt sjálf".

Það kom glettnisglampi í augu Mónu, og hún hugsaði með sjálfri sér. Ef það væri úr gulli, þá væri hann áreiðanlega fyrir löngu búinn að selja það, – ef trúa mátti því, sem sagt var um fésýslu föður hennar". – Móna skammaðist sín fyrir þessa óboðnu hugsun. Henni hafði alltaf þótt innilega vænt um föður sinn.

„Hvar er Aldís? Af hverju kemur hún ekki aftur?" spurði Móna til að skipta um umræðuefni.

„O . . . Mér heyrist að hún hafi setzt niður frammi í stofu hjá karlmönnunum". – Hrefna brosti ekki. Móðir hennar brosti mjög sjaldan, fannst Mónu.

„Saknar hún Þorvaldar?" spurði Móna og kankvíslegt bros færðist yfir varir hennar.

„Tæplega".

„Hvað vill hún þá?"

Hrefna krosslagði fæturna betur og kipraði saman augun.

„O . . . Hún hefur gaman af að veiða í gruggugu vatni".

Móna lagði annan handlegginn um herðar Hrefnu og hló hressilega.

„Ég hélt að þetta væri hreint hús, að minnsta kosti að það væri ekkert gruggugt vatn í þessu húsi".

„Jæja. Ef vatnið er hreint, þá gerir hún það gruggugt", sagði Hrefna, og það var eitthvað ógnandi í hásri röddinni.

„Þetta máttu ekki segja. Ég hefði annars gaman af að vita hvað hún segir um þig".

„Ég hef ekkert á móti henni". – Rödd Hrefnu dó út. Svo bætti hún við eftir ofurlitla umhugsun. „Ég vorkenni henni stundum".

„Er það satt", Móna hikaði við áður en hún hélt áfram. „Er það satt, að hún hafi þekkt magisterinn hér áður fyrr?"

Hrefna starði upp í loftið.

„Þau voru saman í skóla", sagði hún. „Sumir segja að hún hafi verið viðhald hans".

„Það getur ekki verið", sagði Móna fljótmælt. „Grunar Þorvald nokkuð?"

„Nei".

„Heyrðu, mamma", sagði Móna fjörlega. „Af hverju sitjum

við hér. Eigum við ekki að færa okkur fram í fremri stofuna og spjalla ofurlítið við fólkið?"

Stefán hálfreis úr sæti sínu til að heilsa Mónu. Hún horfði á hann augum, sem leiftruðu af gáska – og fyrirheitum. Hann elskaði hana innilega, en fann engin orð til að segja við hana.

Það hefur áreiðanlega verið eitthvað á milli þeirra Ólafs Hreins og Aldísar, hugsaði Móna, þegar þær höfðu setzt hjá karlmönnunum frammi í stofunni. Það leynir sér ekki hvernig þau horfa hvort á annað . . . Næstum eins og við Stefán. Hún hafði setzt við hlið hans. Þau höfðu horft hvort á annað, en ekki sagt neitt. Það gerði ekkert til. Henni var nóg að vera í návist hans.

„Þetta er orðið land konunnar", var Þorvaldur að segja. „Hún er búin að taka öll völdin í sínar hendur. Fyrst sæti okkar í vagninum . . . svo sæti okkar við skrifborðið, öll störf okkar . . . "

Hann leit hornauga á konu sína og hún mætti augnatilliti hans, – kuldalega. Fyrirlitning Þorvaldar á konum byggist á ótta, þótt hann geri sér ekki fulla grein fyrir því, hugsaði Aldís. Kynferðislega er það konan, sem er sterkari aðilinn. Máttur hennar vex, en máttur karlmannsins fer minnkandi. Staðreynd, sem Þorvaldur gæti aldrei horfzt í augu við. Þess vegna verður hann að halda mér niðri, sýna mér lítilsvirðingu, tjóðra mig niður við eldhúsið og sængina. Sanna að ég sé heimsk, huglaus, svikul. – Allt viðbrögð hrörnandi karldýrs til að fela þá staðreynd, að það er konan, sem er sterkari!

Þorvaldur var orðinn alldrukkinn.

„Konur geta elskað allt, sem gengur á tveimur fótum, ef þeim er sýnd aðdáun", sagði hann loðmæltur. „En . . . Þær eyðileggja okkur. Allar eiginkonur eyðileggja menn sína.

Þær góðu gera þá að aumingjum, – með því að vera alltaf að reyna að gera þá að betri mönnum. Það eina, sem þeim tekst, ef þeim tekst nokkuð, er að gera þá að hræsnurum, sem þora aldrei að segja meiningu sína. – Og þær illu? . . . Þær illu leggjast á okkur og sjúga úr okkur blóðið eins og vampírur".

„Og samt getið þið ekki án þeirra verið", sagði Móna hlæjandi.

„Og fyllist afbrýðisemi, ef einhver annar svo mikið sem lítur á konurnar ykkar", bætti Aldís við.

„Og jafnvel Þorvaldur er ekki kominn út úr steini!" upplýsti Hrefna.

Þeir meina ekkert með þessu skrafi, karlarnir, hugsaði Móna. Hún vissi, eins og allir aðrir, að maðurinn er í eðli sínu góður, og hún trúði því að meira eða minna leyti . . . Kom kannski ekki allt, sem var gott, frá öðru fólki? Foreldrum hennar, vinum og vinkonum . . . Stefáni?

Auðvitað gat fólk líka orðið vont. Það gat meira að segja runnið á það æði, – en það hafði þá vafalaust einnig sínar ástæður til þess.

Alexander leit til konu sinnar og hún brosti við honum. Hann elskaði konu sína. Og það, sem verra var, hún vissi það. Það var því erfitt að láta ekki allt eftir henni.

„Ástin er ævinlega hlægileg – nema manns eigin", sagði Alexander og hló dálítið vandræðalega.

Það hafði glaðnað mikið yfir magisternum, og nú lagði hann einnig orð í belg.

„Afbrýðisemin", sagði hann, „er fyrirlitlegasta ástríða mannsins . . . Að vera að reyna að halda í konu, sem elskar annan mann". Hann gaf Þorvaldi hornauga, en Þorvaldur hafði ekki verið að hlusta á hann. Augu magistersins hvörfluðu þá aftur til Aldísar, og þau horfðu hvort á annað.

Það var vonarglampi í augum hans, en Aldís leit undan og hann sá ekki betur en hún roðnaði. Hann hélt áfram að virða hana fyrir sér. Hvað hann mundi vel þessi stóru, svörtu, hlýlegu augu, þessi þéttu, löngu augnahár. Þennan langa, granna háls. Hún hafði skipt hárinu í miðju, greitt það aftur með vöngunum og bundið upp í hnút í hnakkanum. Alveg eins og þá. En andlit hennar hafði breytzt, eða er þessi nýi svipur aðeins gríma, sem hún hefur notað svo lengi, að hún er næstum orðin að andliti? Það var ekki til neins fyrir hann að loka augunum fyrir því lengur, að sú, sem hann elskaði, var Aldís . . . Að sú ást, sem hann sóaði á þessa leikkonu, Anitu, var raunverulega vakin af hugsun hans um Aldísi . . . Það var ekki til neins að neita því, að í hvert skipti, sem hann svaf hjá leikkonunni, þá var það í raun og veru Aldís, sem hann elskaði. – Og hann gat ekki varizt þeirri hugsun, að Aldís vissi þetta. Kannski grunaði Þorvald eitthvað líka? Höfðu þau kannski ekki lesið þetta í augum hvors annars – var það ekki þess vegna, sem hún hafði litið undan – til að reyna að forða sér í tæka tíð. Hann var sannfærður um að Aldís elskaði hann ennþá . . . elskaði hann eins og þegar þau voru unglingar í menntaskólanum. Það hafði ekkert breytzt. Hún var aðeins miklu girnilegri nú en þá. Einkennilegt að allar eftirsóknarverðar konur tilheyrðu alltaf öðrum mönnum.

Bræðurnir voru nú byrjaðir að tala um laxveiði síðasta sumars, og Aldís virti mann sinn fyrir sér með vanþóknun. Hvers virði var þetta hjónaband þeirra orðið? Líklega hafði hún elskað hann í fyrstu. En fljótlega höfðu árekstrarnir byrjað. Þau voru bæði skapstór og hvorugt vildi láta sinn hlut. Fyrsta deiluefnið hafði fljótlega verið fyrirgefið. – En svo kom annað og hið þriðja. Að vísu höfðu þau eignazt tvö indæl börn, Orm tíu ára og Björk litlu, átta ára. Og Þor-

valdur var duglegur, það mátti hann eiga. En það höfðu svo margar vonir brugðizt. Innibyrgð gremja brauzt út í óvæntum illyrðum, deilan varð að rifrildi, sem aldrei varð að fullu fyrirgefið. Orð sögð í reiði geymdust og urðu að eitri í hugum þeirra . . . eitri, sem drap ást þeirra. Það urðu langar þagnir milli þeirra, þegar þau ásökuðu hvort annað í huga sér um að hafa brugðizt öllum vonum. – Svikið hið stóra fyrirheit.

Aldís leit aftur á Ólaf Hrein. Þau sögðu ekki neitt, horfðust aðeins í augu, og nú leit hvorugt þeirra undan. Þau skildu hvort annað. Skömmu síðar stóð Aldís léttilega upp af stólnum og sveiflaði sér fram hjá magisternum. Hún hvarf fram á ganginn.

Viskíið var nú farið að svífa allmikið á gestina. Stefán var í fjörlegum samræðum við Mónu og Hrefnu, en bræðurnir voru farnir að ræða um fjármál og önnur þjóðmál af áhuga.

„Það er ekki hægt að stjórna þessu landi", kallaði Þorvaldur loks. Hann gerðist nú æ háværari. Gestirnir voru komnir á það stig, að hver um sig talaði eingöngu um sitt eigið áhugamál, án þess að hlusta á það, sem hinir sögðu. Það tók því enginn eftir magisternum, þegar hann stóð upp og fór fram á eftir Aldísi.

„Fólkið er orðið að stefnulausri hjörð", prédikaði Þorvaldur áfram. „Hjörð af lukkuriddurum, sem láta fýsnirnar teyma sig eins og sauðkindur um barstofur og bingósali".

„Æ láttu ekki svona, bróðir, við búum allir í glerhúsi", sagði Alexander.

Þorvaldur hlustaði ekki á hann, en hélt áfram eintali við sjálfan sig.

„Já. Ég geri það sem mér sýnist, tek það sem mér sýnist . . . – Peninga".

„Amen", sagði Alexander friðsamlega.

„Heyrðu", sagði Þorvaldur snögglega. „Hvar er annars magisterinn?"

„Saknarðu hans svona mikið?" spurði bróðir hans annars hugar.

„Nei. Hann er ekki neitt ... Maður tekur ekki einu sinni eftir því að hann sé til – nema þegar hann vantar". Það var eins og það rynni skyndilega af Þorvaldi. Hvar var annars konan hans ... Aldís ... horfin líka? Þorvaldur horfði í kringum sig og varð á svipinn eins og maður, sem uppgötvar skyndilega að hann hefur villzt. Bæði horfin, hugsaði hann. Það skyldi þó aldrei vera að ... Nei, það gat ekki verið ... Og þó. Átti hann kannski að sitja hér rólegur meðan ... Hann gat ekki lengur bægt þessari hugsun frá sér ... Gat ekki lengur þolað þessa óvissu.

Hann stóð á fætur eins og í leiðslu og gekk fram stofuna. Það leit enginn á hann. Það virtust allir eiga nóg með að hugsa um sjálfa sig. Þorvaldur greikkaði sporið og hélt fram á ganginn.

UM leið og þau voru komin úr augsýn féllust þau í faðma. Hvorugt þeirra hafði sagt neitt. Þegar hún þrýsti honum að sér, fann hún að hann titraði.

„Komdu, Ólafur, komdu", hvíslaði hún við eyra hans svo lágt að varla heyrðist.

Þau leiddust saman eftir ganginum. Hann opnaði dyr til vinstri, kveikti ljósið og litaðist um.

„Svefnherbergi!"

Ólafur dró hana inn fyrir með sér og lokaði á eftir þeim. Hann beið um stund þögull og hlustaði. Ekkert fótatak, aðeins daufur ómur af glaumi veizlugestanna. Hann læsti dyrunum, tók lykilinn úr skránni og vó hann í hendi sér. Það var beittur glampi í tilliti hans, þegar hann leit á hana – augun eins og hnífar. Hún óttaðist allt í einu þetta tillit, sá eftir að hafa farið með honum. Hún hristi höfuðið varlega – hársnyrtingin kostaði peninga.

„Nei, Ólafur. Nei. Nei. Ég vil ekki". Hann starði á hana.

„Viltu hvað ekki?"

„Ég get það ekki".

Hann reyndi að horfa í augu hennar, en hún leit undan.

„Hvers vegna komst þúþ á?"

Hún lagði höndina sefandi á öxl hans.

„Af því að . . . Ég veit það ekki. Hugsaðu þér hvað fólk mundi . . . Hvað gæti gerzt".

Hann svaraði ekki strax, varð hugsandi á svip. Svo tók hann aftur utan um hana og kyssti hana.

„Ef þú byrjar að hugsa um allt, sem gæti gerzt", sagði hann svo, „þá þyrðir þú aldrei að ganga yfir göruna".

„Slepptu mér, Ólafur. Ég get ekki talað við þig. Ekki hér".

„Viltu að ég fari. Viltu heldur fara til hans?"

Honum fannst hann vera að missa allt út úr höndum sér, og mýktin var aftur komin í rödd hans. Hann mátti ekki missa hana. Hvert var annað hægt að flýja frá þessum harða heimi – frá öllum þessum ósigrum – frá allri þessari vitleysu, nema inn í næstu krá og í faðm konu?

Einkennilegt annars að allar eftirsóknarverðar konur tilheyrðu alltaf einhverjum öðrum, hugsaði hann aftur.

„Aldís. Ég elska . . . " hún lagði höndina fyrir munn hans.

„Ég hata hann". Það stríkkaði á vörum hennar og hún varð smám saman æstari.

„Hann heldur að hann eigi mig – heldur að hann geti sýnt mér eins mikla fyrirlitningu og honum sýnist. En ég skal . . . Hann hefur aldrei elskað neitt nema sjálfan sig, og kannski, þegar bezt lætur, skuggann sinn. Ég hata hann, hata hann, hata hann". Það voru tár í augum hennar og hún stappaði niður fætinum. „Ég skal fara frá honum", bætti hún við.

Vonin kviknaði á ný í augum magistersins og hann strauk varlega tárin af kinnum hennar.

„Viltu að ég fari?" spurði hann aftur.

„Nei. Farðu ekki. Farðu ekki", hvíslaði hún lágt. Eftir stundar þögn hvíslaði hún aftur. „Ólafur, þú verður að hjálpa mér, hjálpa mér til að komast burt frá honum".

„Ég skal hjálpa þér".

„Ég er ekki annað en fangi hjá honum – hann vill ráða yfir mér eins og ég væri einhver skepna".

„Þú verður aldrei hamingjusöm hjá honum".

„Nei", andvarpaði hún.

„Þú varst hamingjusamari með mér forðum?"

„Já, – en þú fórst frá mér?"

„Ég varð að fara til útlanda til náms, – og þegar ég kom aftur þá varst þú gift Þorvaldi".

„Ég heyrði aldrei neitt frá þér, – þú skrifaðir aldrei".

Hann lokaði munni hennar með kossi. Hún endurgalt kossinn og virtist hafa gleymt ákærunni – eða látið hana niður falla.

„Ég vil vera frjáls", sagði hún. „Við getum ekki lifað eins og fuglar í búri".

„Nei, við getum það ekki".

„Ég verð að komast í burtu", sagði hún.

Magisterinn var að byrja að verða taugaóstyrkur. Ætlaði þessi elska aldrei að geta þagnað.

„Ætlar þú þá að hjálpa mér?"

„Já".

„Örugglega?"

„Já, Aldís".

„Ég má þá alveg treysta því?"

„Já, Aldís. Já, elskan mín. Ég reyni að finna einhver ráð".

„Þá er ég frjáls – laus við Þorvald – það verðum við tvö, alveg eins og í gamla daga . . . manstu . . . ?"

„Alveg eins og í gamla daga", endurtók magisterinn. Loksins hafði hann hana alveg á valdi sínu. Hann fór höndum um brjóst hennar og varð á svipinn eins og hann væri að rifja upp gamlar minningar. Ólafur teygði sig allt í einu í slökkvarann og það varð dimmt í herberginu.

„Þú hefur falleg brjóst, Aldís".

„Viltu eiga þau?"

„Ummm". Hann teymdi hana með sér inn gólfið, þreifaði fyrir sér í myrkrinu og fann rúmið.

Hann fór úr jakkanum og leysti af sér bindið. Konur, hugsaði hann, eru af holdi og blóði. Og engir dýrlingar ... sem betur fer.

Hendur hans byrjuðu að leysa festina á hálsi hennar um leið og hann beygði sig niður og kyssti hana. Hún ilmaði af „Karven", hélt hann. Hún tók af honum festina og lagði hana frá sér. Varir hennar strukust við eyra hans og rödd hennar varð að hásu hvísli.

„Þetta verður okkar leyndarmál, mitt og þitt".

Hún faðmaði hann að sér. Fingurgómar hennar grófust inn í háls hans. Hann fann munn hennar, heitan, elskandi og tungubrodd hennar strjúka varir hans ... Þannig mundi hún ekki elska eiginmanninn", hugsaði hann ... Sama kona er tvær ólíkar manneskjur gagnvart tveimur karlmönnum ... Það er komið undir ást hennar ... Án þess að hætta að kyssa hana, byrjaði hann að hneppa frá henni kjólnum að aftan, og hún veitti enga mótstöðu, þegar hann renndi höndum sínum undir kjólinn og leysti af henni mjaðmabeltið og brjóstahaldarann. Hann kyssti brjóst hennar um leið og hann smeygði kjólnum niður. Þau hurfu þúsundir ára aftur í tímann. Það var ekkert lengur til, nema maður og kona og hinar frumstæðu hvatir upprunans. Hana iðraði einskis. Það var ekki til neins að skírskota til samvizkunnar. Samvizkan var í holdi hennar og hold hennar skipaði samvizkunni að þegja. Hún hjálpaði honum til að afklæðast og fór höndum um líkama hans. Hann lét höndina renna niður að lendum hennar, kyssti allan líkama hennar. Hún gaf frá sér lág, eggjandi hljóð, full ástríðu. Þegar hann kom inn í hana, lukust armar hennar og fætur um hann.

Hún fann skyndilega til sársauka, þegar hann þrengdi sér dýpra og dýpra inn í hana, og löng stuna kom yfir varir hennar. Hún beit tönnum sínum í öxl hans, og svo var allur

sársauki hennar horfinn. Hún gaf sig honum á vald í tryllingi, eins og hún vonaðist til þess að geta með því sagt skilið við allt, sem áður hafði gerzt. – Allt, sem síðar mundi gerast.

ÞORVALDUR fór út úr stofunni og fram ganginn. Hann kveikti ekki ljós. Það var svartamyrkur í kringum hann. Hann nam staðar og hlustaði. Ekkert. Aðeins ómur af skvaldri fólksins inni í stofunni. Hann byrjaði að þreifa fyrir sér í myrkrinu og leita að kveikjaranum. Það var þá, sem hann heyrði hljóðin. Fyrst tvö stutt og sársaukafull, – eða eggjandi? Svo eitt langt og skerandi. Síðan stuna og þögn. Það sló köldum svita út á Þorvaldi. Hann þekkti þessa rödd. Það var svo dimmt að hann gat ekkert séð, en hann gekk á hljóðið og þreifaði varlega fyrir sér. Hann fann hurðarhúninn og reyndi að opna dyrnar hljóðlega. Hurðin var læst. Það varð dauðakyrrð um stund. Þorvaldur hikaði. Honum fannst hann allt í einu vera eins og maður, sem stendur á barmi hyldýpis og starir niður í djúpið eins og hann væri dreginn til þess af ósýnilegum höndum, þótt það eina, sem hann þyrfti að gera, væri að snúa við og fara . . . Það væri bezt að fara, hugsaði hann. – Fara og sjá hana aldrei framar. En hann hreyfði sig ekki. Stóð kyrr eins og hann væri negldur við gólfið og hlustaði. Hann heyrði karlmannsrödd hvísla.

„Elskan mín . . . nú ert þú mín, alveg . . . Þú verður að fara frá honum, tilheyra mér einum".

Og þessi hása rödd, sem hann þekkti svo vel svaraði:

„Ólafur. Ég elska þig. Þú verður að koma til mín aftur. Ég get ekki heldur verið án þín. Ég hata hann. Því er öllu lokið milli mín og hans".

Sársauki Þorvaldar breyttist snögglega í reiði, stjórnlausa, hömlulausa reiði. Hann fann hvernig dýrið náði tökum á honum, hvernig hann hætti að vera maður. Hann hnipraði sig saman upp við dyrnar. Gekk síðan tvö skref aftur á bak og fleygði sér svo af öllu afli á hurðina.

Hvorugt þeirra hafði heyrt hann koma, fyrr en hurðin allt í einu hentist upp og Þorvaldur féll sjálfur inn á gólfið.

Um stund heyrðist ekkert nema óp konunnar í myrkrinu.

„Dræsa!" Þorvaldur brölti á fætur og fann kveikjarann. Það varð albjart í svefnherberginu. „Þú ert siðlaus eins og hundtík, eins og læða í húsasundi". Þorvaldur stóð við dyrnar og steytti hnefann í átt til þeirra. Svipur hans varð tryllingslegur og augun starandi. „Ég heyrði til ykkar . . . Heyrði hvert einasta orð, – skiljið þið það?"

Þau höfðu bæði henzt fram úr rúminu og reyndu í ofboði að komast í eitthvað af fötum. Aldís horfði á mann sinn þögul og biðjandi. Augu hennar voru óeðlilega gljáandi.

„Dræsa", endurtók hann og færði sig nær þeim.

Konunni hafði tekizt að komast í kjólinn. Ólafi ekki nema í aðra buxnaskálmina, og leið illa. Andskotans óheppni, hugsaði hann, en hann sagði ekki neitt, glotti aðeins vandræðalega. Það varð að taka því, sem að höndum bar. Ef Þorvaldur vildi slást, þá . . .

Þorvaldur horfði á fjandmann sinn blóðhlaupnum augum, – svo aftur á konuna. Varir hennar skulfu og hárið féll í óreiðu fram yfir andlitið. En hún rétti úr sér. Strauk höndunum niður eftir kjólnum og reyndi að lagfæra hárið.

„Þorvaldur", rödd hennar var mjög veik og andardrátturinn óreglulegur. „Þorvaldur, gerðu það fyrir mig að fara héðan út. Þetta var allt búið okkar á milli".

Eiginmaðurinn varð á svipinn eins og maður, sem neitar að sjá og heyra, neitar að skilja.

„Svo, já. Fara!" Hann hataði hana, langaði til að slá hana. „Þú ert eiturnaðra", sagði hann. „Það er það, sem þú ert".

„Farðu", sagði hún. „Ég hef ekkert við þig að tala meira".

Hann gekk enn nær henni.

„En það er ýmislegt, sem ég þarf að segja þér. „Hann reiddi upp hnefann og gerði sig líklegan til að láta höggið falla.

„Sláðu mig bara, – ef það fær þig til að líða betur".

Eiginmaðurinn hikaði. Svo sagði hann og velti orðunum á tungu sér eins og þau væru sérstakt kjarnmeti.

„Þú ert ekki þess virði. Fyrir mér getur þú farið norður og niður, farið hvenær sem þú vilt. Þú hefur hvort eð er aldrei verið annað en skrautlegur farandbikar – galtómur í þokkabót".

„Þorvaldur", bað hún, „stilltu þig. Gættu að hvað þú segir".

„Viðkvæm? Þú þykist víst vera viðkvæm og hrein eins og hvít lilja?" Hann hló gleðivana, gjallandi hlátri. „Þá skaltu fá að heyra sannleikann. Þú ert viðkvæm eins og villisvín. – Hagar þér eins og köttur í húsasundi. Hreinræktuð götudræsa".

Hún fann til viðbjóðs og sársauka. Svo blossaði reiðin skyndilega upp í henni og gaf henni aukið hugrekki.

„Þú hræðir mig ekki". Það stríkkaði á vörum hennar. „Þú ert ekki stór", hvæsti hún, „hefur aldrei verið það. Þú ert dvergur, – flattur út". Hún byrjaði að pata með höndunum og stappa niður fætinum. „Þú ert sjálfur svín", hrópaði hún. „Hreinræktað, krossað verðlaunasvín". Hún var of reið til að tala meira. Hún hljóp að náttborðinu og þreif upp vasa. Hann þaut framhjá Þorvaldi í vegginn og brotnaði í spón. Hún var komin til hans aftur eins og elding og lét höggin dynja á honum. „Hafðu þetta, lubbamennið þitt, og þetta, og þetta!"

Hann fann ekki fyrir höggum hennar. Ekkert skipti máli lengur. Hann greip um handlegg hennar, dró hana ruddalega til sín og horfði á hana hvössu, hatursfullu augnaráði. Hún beit eldsnöggt í hönd hans og það kom blóðbragð í munn hennar.

Hann ýtti henni hranalega frá sér, svo hún skall upp að veggnum og féll á gólfið. Hún reyndi fyrst að halda saman kjólnum, sem hafði rifnað við fallið. Svo sleppti hún honum og gróf andlit sitt í titrandi höndunum og byrjaði að gráta ofsalega.

Fólkið í stofunni hafði heyrt hávaðann og karlmennirnir ruddust nú inn í herbergið. Mæðgurnar stóðu hlið við hlið í dyrunum.

„Ertu genginn af vitinu, maður?" Alexander lagði höndina sefandi um herðar bróður síns. Svo benti hann loðnum fingri á mágkonu sína og spurði:

„Hvað er eiginlega á seiði? Hvað er að gerast hérna?"

„Ætli þú farir ekki nærri um það sjálfur", svaraði Þorvaldur biturlega.

Þau litu öll á Ólaf Hrein, sem nú hafði tekizt að komast í buxurnar, skyrtuna og annan skóinn. Andlit hans fölnaði og varð eins og andlit dauðs manns, grátt og óttaslegið. Í hans augum var svona fólk aðeins til að hæðast að, til að rakka niður og gera það að engu, – svo það gæti ekki á nokkurn hátt skyggt á hans eigið óviðjafnanlega sjálf. Hér var það ekki hann, sem elti bráðina. Hér var það hann sjálfur, sem var eltur uppi, króaður af, umkringdur af óvinum, sem heimtuðu hefnd. Ólafur færði sig ósjálfrátt fjær upp að veggnum.

„Ég ætlaði ekki . . . Ég get svarið . . . " byrjaði hann.

„Þú sverð lýgi eins og allir aumingjar". Rödd Þorvaldar reis og varð að öskri. „Ég skal drepa þig". Svo lækkaði hann

aftur röddina og næstum hvíslaði gegnum samanbitnar tennur. „Ég skal murka úr þér líftóruna".

Ólafur reyndi að manna sig upp, frá þessu var ekki hægt að flýja. Hann byrjaði að nudda á sér nefið hikandi.

„Jæja, nú þá það", hreytti hann út úr sér illskulega. „Reyndu það! – Það eru ekki allir menn eins hættulegir og þeir vilja sýnast".

Þorvaldur gerði enga tilraun til að hafa taumhald á reiði sinni. Hann réðist á andstæðing sinn og reyndi að koma höggi á andlitið.

„Stöðvið þá, skiljið þá!" hrópaði Hrefna, og lét sig falla niður á hnén við hlið Aldísar. Hún reyndi að hughreysta hana. Af hverju hafði Aldís verið að þessu. Ekki af því að hún elskaði þennan mann, Ólaf . . . ? Kannski hafði hana aðeins langað til að bregðast Þorvaldi . . . af því að hún hefur alltaf haldið að hann mundi bregðast sér?

„Gangið á milli þeirra. Skiljið þá!" hrópaði hún aftur. Eða . . . hugsaði Hrefna áfram. Erum við konur . . . ekki stundum ástleitnastar, þegar við elskum ekki? . . . vegna þess að við viljum það, sem við getum ekki . . . Og karlmenn eru kannski eins . . . ?

„Af hverju gerið þið ekki neitt?"

Karlmennirnir höfðu ekki hreyft sig til að skerast í leikinn og stöðva áflogin.

Alexander hafði ekki reynt að hindra bróður sinn í að ráðast að óvininum. Þetta sníkjudýr og blaðasnápur, hugsaði hann, átti ekkert gott skilið, hans vegna mátti þetta lubbamenni fá ærlega ráðningu. Alexander hallaði undir flatt og brá annarri hendinni aftur fyrir hnakkann. Hann tottaði vindil sinn í ákafa og blés frá sér bláum reykjarskýjum upp í loftið . . . Langbezt að lofa þeim að slást. Hann sá Ólaf beygja sig snögglega undir högg Þorvaldar, og nú fékk vel

útilátið kjálkahögg Þorvald til að riða á fótunum. Hann féll aftur á bak á borðið, sem brotnaði undan þunga hans.

Þorvaldur var fljótur á fætur aftur. Hann var nú orðinn frávita af reiði, og réðist að andstæðingnum eins og óður maður.

Ólafur var óviðbúinn þessari ofsafengnu árás, hnefinn skall á andliti hans og það fór að blæða úr vitum hans. Hvorugur skynjaði neinn sársauka lengur. Þeir börðust eins og villidýr, grimmir og þögulir. Stefán tók skref í áttina til þeirra og gerði sig líklegan til að ganga á milli, en Alexander stöðvaði hann.

„Bezt að lofa þeim að slást".

Þeir sáu að aðstaða Ólafs var orðin vonlaus. Hann hafði fengið hvert höggið á fætur öðru í andlitið, og var orðinn valtur á fótum. Skyrta hans var rifin og það blæddi úr nefi hans og munni. Vitið hvarf úr augum hans og þau urðu eins og gler. Nýtt högg á höfuðið fleygði honum aftur á bak. Hann tók báðum höndum fyrir andlit sér og féll niður. En heift Þorvaldar var ekki svalað.

„Ég skal murka úr þér líftóruna", hvæsti hann aftur milli samanbitinna tanna. Hann beygði sig yfir hinn fallna andstæðing sinn, eins og hann ætlaði að reisa hann við á ný til að geta slegið hann aftur. En hann skipti snögglega um skoðun og fór að sparka í liggjandi manninn.

Konurnar byrjuðu aftur að hljóða, og Stefán og Alexander hlupu til og héldu honum tveir á milli sín. Hann brauzt um og reyndi að losa sig.

„Farðu", kallaði gestgjafinn til mannsins á gólfinu. „Farðu út, mannhundur".

Þorvaldur stalst til að líta á konu sína. Hún var nú staðin á fætur og stóð við hlið Hrefnu. Andlit hennar var náfölt, en hún var einkennilega einbeitt á svipinn og andaði dálítið

ótt. Hún mætti augnaráði manns síns kuldalega. Ég verð að komast héðan burtu, hugsaði hún. Það verður ekki hann, sem biður um skilnað. Það skal verða ég.

„Út með þig, blaðasnápur og sníkjudýr", kallaði Alexander aftur. Þorvaldur var farinn að spekjast, svo að þeir slepptu honum. Hann var viss um að hún hataði hann . . . Konan. Og hann leit aftur til hennar heitum, reiðum augum.

Ólafur Hreinn settist upp á gólfinu með erfiðismunum. Hann strauk blóðið af vörum sér. Hann hafði verki í síðunni og andlitið var sjálfsagt allt úr skorðum. En það skipti engu máli lengur. Hann deplaði augunum, eins og maður, sem vaknar af óværum svefni. Þetta var ótrúlegt. Það gat ekki verið, að þetta hefði komið fyrir. Ekki fyrir hann. Hann leit útundan sér á Þorvald. Hann er aðeins lítillega hruflaður, hugsaði hann, að öðru leyti ómeiddur . . . en hann skyldi ekki sleppa heldur. Honum skyldi líka fá að blæða. Það kom nýr glampi í augu hans, eitthvað, sem ekki hafði verið þar áður. Þorvaldur virti hann fyrir sér um stund með orðlausri fyrirlitningu.

„Það ætti að hengja hann", sagði hann svo og leit upp í loftið. Orðin eins og eitur á tungu hans.

„Rólegur, rólegur, bróðir", sagði Alexander. „Það eru til mörg mannleg vandamál, sem ekki er hægt að leysa með kaðalspotta".

„Auga fyrir auga og tönn fyrir tönn, það er það eina, sem gildir", sagði Þorvaldur.

„Þá yrðum við víst öll fljótlega augnalaus og tannlaus", tuldraði Alexander í hálfum hljóðum, eins og við sjálfan sig. Hann var orðinn töluvert drukkinn.

Ólafur sneri sér snögglega við og spratt upp eins og fjöður. Árás hans kom svo skyndilega að Þorvaldur hafði engan

tíma til að átta sig. Ólafur kom honum í opna skjöldu og högg hans skullu leiftursnögg í andlit Þorvaldar. Já, hann skyldi einnig fá að finna fyrir því. Þorvaldur missti jafnvægið og veltist um á gólfinu. Nú rann einnig blóð niður andlit hans. Hann settist upp með erfiðismunum, en fann ekki til neins sársauka, áverkinn skipti hann engu máli. Aðeins ein hugsun komst að hjá honum. Hefnd. Hann var aftur staðinn á fætur, en fór varlega að fjandmanni sínum. Það var vissara að reyna að neyta stærðarmunar, ná tökum á honum, koma honum undir og þjarma svo að honum. Ólafur reyndi að skjótast undan, en Þorvaldur kom honum smám saman í hornið. Hann fann, að hann hafði nú yfirhöndina, og gerði enga tilraun til að hafa taumhald á reiði sinni. Ólafur dró andann djúpt. Hann fann til svima yfir höfðinu. Fann höggin dynja á sér öllum. Svo fann hann ekki til neins meir og það varð myrkur og þögn.

Hrefna var þegar á leið með Aldísi með sér út úr herberginu. Það var eins og Aldís gengi í djúpri leiðslu, eins og hún sæi þessa síðustu viðburði smáskýrast fyrir augum sínum. Nei. Hún elskaði hann ekki. Mundi aldrei elska hann. Hún varð að komast burt héðan sem fyrst. Hún kvaddi ekki og þegar hún fór litu hinir kurteislega í aðra átt. Þorvaldur einn horfði á dyrnar, sem lokuðust á eftir henni. Hann sneri sér að Ólafi, sem var að komast aftur til meðvitundar og hristi hann.

„Óheillasnápur. Farðu!"

Ólafur var þegar kominn af stað til dyranna, en svo tók hann eftir því að hann var ennþá aðeins í öðrum skónum. Hann skauzt fram hjá Þorvaldi, þangað sem skórinn lá við rúmið og tókst að smeygja sér í hann.

„Farðu . . . Farðu héðan . . . Út!"

Magisterinn hljóp til dyranna. Hann kærði sig ekki um

nýja lotu. Á ganginum tókst honum að ná hatti sínum og frakka, um leið og hann flýtti sér til dyranna.

Þorvaldur fór á eftir honum út í dyrnar. Það var byrjað að snjóa. Hann grillti í Aldísi neðar í götunni og Þorvaldur sá, að magisterinn flýtti sér sömu leið, – niður götuna til hennar.

Hann mundi ná henni von bráðar. Afbrýðisemin blossaði aftur upp í honum og hann þurfti að beita sig hörðu að fara ekki á eftir konu sinni. Stolt hans bannaði honum það. Magisterinn hafði nú náð henni og Þorvaldur sá þau ganga hlið við hlið eftir götunni, fjarlægjast og hverfa loks alveg út í hríðarmugguna.

„Mér er sama", sagði hann við sjálfan sig. „Mín vegna mega þau fara hvert sem þau vilja".

Hann reyndi að telja sér trú um að Aldís kæmi sér ekkert við framar, væri orðin eins og ókunnug manneskja. Framvegis mundi hann verða að komast af án hennar. En hann hélt áfram að stara út í hríðina. Dillandi hlátur konu barst til hans úr annarri átt. Hann rauf ekki hina djúpu kyrrð næturinnar. – Gerði hana aðeins dýpri.

ALDÍS stefndi í átt að húsi sínu. Þau Þorvaldur höfðu eins og Alexander byggt sér hús á Nesinu. Það lá nokkru neðar í götunni fram við sjóinn. Aldís fór að hugsa um húsið. Hún mundi flytja úr því fljótlega. En það var gott hús. Þrátt fyrir það, eða kannski einmitt vegna þess að Þorvaldur varð aldrei eins ríkur og Alexander, þá hafði hann lagt metnað sinn í að byggja sér hús, sem var enn stærra og íburðarmeira en hús bróðurins. Auk þess hafði hann látið setja þar upp útisundlaug. Hún var eins og nýra í laginu, – byggð eftir amrískri fyrirmynd. Hún var sjaldan notuð, en hún jók virðingu Þorvaldar í þessari nýlendu hinna nýríku. Aldísi þótti líka vænt um þessa sundlaug og þótt hún væri núna hálffull af snjó, þá var hún til mikillar prýði á góðviðrisdögum á sumrin, og það var gaman að sjá börnin skvampa í henni. Hún baðaði sig þar stundum sjálf, – en Þorvaldur aldrei. Í hans augum var hún hefðartákn. Hann vill vera eins og þeir stóru í Ameríku, hugsaði hún. En snerist líka ekki allt mannlífið hér á Nesinu um umbúðir án kjarna?

Aldís var næstum komin heim að húsinu. Hún hafði öðru hvoru verið að líta um öxl. Hún vonaði að magisterinn kæmi á eftir sér, – og hún óttaðist, að það yrði Þorvaldur. Og nú sá hún, að maður kom út úr húsi Alexanders og hraðaði sér niður götuna í átt til hennar. Aldísi létti. Hún sá að þetta var Ólafur Hreinn. Hann hafði lofað að hjálpa henni, taka hana burt með sér. Hún mundi byrja nýtt líf. Hún hægði á sér og

beið eftir honum. Henni var heitt, þrátt fyrir kuldann. Það var að byrja að hvessa. Loks var hann kominn til hennar.

Þau gengu um stund saman hlið við hlið. Hvorugt þeirra sagði neitt. Þegar þau voru komin að húsi Aldísar nam hún skyndilega staðar og rétti út báðar hendurnar.

„Ólafur, ég er svo fegin að þú ert kominn". Hún kyssti hann, en hann endurgalt ekki koss hennar, heldur ýtti henni varlega frá sér. Það er eins og hann vilji komast sem lengst í burtu frá mér, hugsaði Aldís. Hún skildi hann ekki, var hann strax búinn að gleyma, eða var hann hræddur við Þorvald?

„Ólafur, þú ert svo undarlegur. Hvað gengur að þér. – Ertu mikið meiddur?" bætti hún við full meðaumkunar.

„Nei", magisterinn var stuttur í spuna. „Það gengur ekkert að mér. Ég hef bara fengið nóg af þessu öllu".

„En þú lofaðir að hjálpa mér?" það var sársauki í rödd hennar.

Magisterinn varð hugsi. Það var eins og hann væri að rifja upp atburði kvöldsins.

„Ég vildi að ég gæti hjálpað þér, Aldís, en ég veit ekki hvernig ég á að fara að því".

„Þú veizt ekki hvernig . . . ", endurtók hún og það var vantrú í svip hennar, líkt og hún tryði ekki sínum eigin eyrum.

„En þú lofaðir að taka mig með þér, – burtu. Ertu búinn að gleyma því?"

„Nei", svaraði magisterinn dræmt.

Nei, hugsaði Aldís, auðvitað er hann ekki búinn að gleyma því. Hann er bara svolítið önugur eftir áflogin við Þorvald.

„Ólafur", sagði hún ákveðin. „Ég kem með þér heim – heim til þín. – Ég get ekki verið þarna lengur", hún benti á húsið. „Ég er ekki annað en fangi".

„Nei, Aldís. Ekki heim".

„Hvað sagðirðu? Þú vilt ekki að ég komi með þér?"

„Nei, Aldís, ekki í kvöld".

Og þetta var maðurinn, sem fyrir stundu síðan sagðist elska hana. Hafði hann ekki lofað að taka hana að sér, – sama sem kvænast henni? Hún hlaut að misskilja hann.

„En ég hélt að þú meintir eitthvað meira . . . Já, þú skilur".

Magisterinn var orðinn úrillur.

„Þú skalt ekki fara að ímynda þér neitt, stúlka mín, – þú ert gift Þorvaldi – og þið veltið ykkur í peningum. Yfirstéttarfólk".

Það kom köld snjógusa framan í Aldísi. Svona eru allir karlmenn í eðli sínu. Grimmir. Þeir eru ekki fyrr búnir að njóta konu, en þeir vilja fara frá henni, skilja hana eftir, láta sem hún sé ókunnug manneskja. Já, karlmenn eru grimmir, vilja bara þetta. Og var hann ekki beinlínis að reka hana til Þorvaldar aftur. Nei það gat ekki verið. Hann gat ekki meint það. Ekki eftir það sem gerzt hafði.

„Og rétt áðan sagðist þú elska mig".

„Já, en það er ekki það sem um er að ræða. Ég get ekki bundið mig".

„En Ólafur, þú lofaðir".

Magisterinn reyndi aftur að vera vingjarnlegur.

„Ég veit hvað þetta er erfitt . . . en vertu róleg".

„Lofaðu mér að koma heim með þér", bað hún.

„Aldís við verðum að láta skynsemina ráða, við erum engir krakkar lengur. Þú getur ekki búizt við að ég geti tekið þig að mér. Mér skilst að þú eigir tvö börn. – Mitt líf er þannig Aldís", hélt magisterinn áfram, „að ég get aldrei gengið í hjónaband. Ég einfaldlega get það ekki. Hef heldur enga trú

á hjónaböndum yfirleitt. Hvað mig snertir þá mundi það eyðileggja starf mitt – allan þann heim sem ég lifi í. Nei Aldís. Ég gæti það aldrei".

„Starf þitt er þér meira virði en ég?"

„Starf mitt? Já. Það hlýtur að koma fyrst. Hvernig heldur þú að líf mitt yrði í hjónabandi?"

„Og hvernig heldur þú að líf mitt verði, – eftir það sem hefur gerzt í kvöld . . . Þú hugsaðir ekki um það, þegar þú baðst mig að . . . " Aldís lauk ekki við setninguna.

„Ætti ég að iðrast?" spurði magisterinn og brosti allt í einu.

„Ekki ef þú elskar mig".

„Í sannleika sagt, þá hef ég aldrei trúað á ástina".

Aldís skynjaði aftur hríðina, sem barði hana í andlitið.

„Ég veit ekki hvað þú ert", sagði hún lágt eins og við sjálfa sig. Hann hafði aðeins haft hana að leikfangi, – hafði hún nokkurn tímann verið honum annað. Hann hafði aldrei viljað taka neina áhættu. Talaði fagurlega, þegar honum hentaði, en þegar kom að því að gera eitthvað, þá varð hann að engu.

„Hvers vegna hefur þú blekkt mig?" spurði hún rólega.

Magisterinn sneri sér frá henni, án þess að svara. Það var næstum alveg runnið af honum. Hann var illa klæddur og honum var kalt. Nú vildi hann komast heim sem fyrst.

„Hvers vegna?" spurði hún aftur.

„Ég hef ekki krafizt neins af þér", sagði magisterinn. Hann varð að losna við hana sem fyrst, ná í bíl og komast heim áður en hann frysi í hel í þessum kulda.

„Nei", sagði Aldís fyrirlitlega", að heimta er annað en að betla".

„Ég er þreyttur", sagði magisterinn, „þetta hefur verið erfiður dagur".

„Hvers vegna viltu ekki kvænast?" spurði Aldís. Henni fannst allt í einu að hún yrði að fá betri skýringu á þessum manni sem hún hélt einu sinni, að hún hefði þekkt.

„Nei", hrópaði magisterinn út í hríðina.

„Nei, hvað?"

„Ég geri það aldrei. Hjónaband! Í hjónabandi verða jafnvel hinir girnilegustu ávextir strax rotnir, – stundum eitraðir. – Það er orðið mjög framorðið. Góða nótt, Aldís. Góða nótt".

„Hann er aðeins barn", hugsaði hún. Hún mundi þrátt fyrir allt gera hann að manni. Hann var þegar kominn frá henni, en hún hljóp aftur til hans og greip um handlegg hans. Hún hélt honum föstum og snjórinn þyrlaðist upp í kringum þau.

„Ólafur, skildu mig ekki eftir, taktu mig með þér", bað hún og var farin að gráta.

Hann sleit sig af henni og flýtti sér burtu. Hann var orðinn stífur af kulda, ef hann næði ekki í bíl strax var hann glataður. Hann mundi kala . . .

„Svikari", hrópaði hún á eftir honum.

Aldís féll á grúfu í skafl, sem myndazt hafði við vegbrúnina. Hún barði niður krepptum hnefum og þrýsti andlitinu niður í snjóinn. Ég vissi það alltaf, – ég vissi það alltaf, að hann er lítilmenni. Svikari, sem ekki er treystandi til neins. Hún hataði hann. Hann hefur aldrei elskað mig, hugsaði hún bitur. Innst inni held ég að hann hafi viljað mér illt.

ALEXANDER fór inn á baðherbergið og reyndi að þvo af sér óþægindin, sem atburðir næturinnar höfðu valdið honum. Hann var hreinlátur maður og fannst hann alltaf verða að þvo sig hreinan af umhverfi sínu. Hann var hlédrægur að eðlisfari, reyndi alltaf að byggja múra milli sín og þess, sem kom að utan. Hann var líka reglusamur í öllum háttum og umgengni. Hann átti erfitt með að þola hirðuleysi eða hluti, sem ekki voru á sínum stað. Hann var alltaf haldinn þeim ótta, að umhverfið réðist inn í vígi hans. Að hafa allt á sínum stað, hugsaði hann, er að vera herra yfir lífi sínu og geta varið það ásókn utanaðkomandi afla.

Allt fyrir utan vígið var í raun og veru hættulegt og óhreint. Hann varð alltaf að vera að þvo sér eftir minnstu snertingu við óhreina hluti – og fólk. Allt verður líka að gerast á réttum tíma, ef það gerir það, þá verður það ný sönnun þess, að maðurinn ráði við tilveru sína. Menn verða að vera fastir fyrir, láta ekki hagga sér. Öryggi. – Alexander fór að hugsa um læknana. Hann hafði farið til þeirra fyrir nokkrum dögum. Þeir höfðu sett hann í nákvæma rannsókn og það höfðu verið teknar myndir. En hann hafði aðeins gert þetta til öryggis. Hann fann að það var ekkert að honum. Hann var stálhraustur, – en það var samt ekki nema sjálfsagt að láta skoða sig öðru hvoru, fylgjast vel með heilsunni. Hann var viss um, að hann hafði náð sér til fulls, – eða svo til. Fyrir tveimur árum hafði hann fengið alvarlegt áfall, það fyrsta á

ævi sinni. Hann hafði fengið snert af hjartaslagi. Það hafði ekki gert boð á undan sér. Honum hafði skyndilega sortnað fyrir augum og hann misst meðvitund. Honum hafði verið ekið á sjúkrahús og hann hafði þurft að fá súrefni. – En hann hafði sigrað og síðan voru liðin tvö ár. Hann hafði að vísu verið lengi að ná sér, en hann hafði lifað það af. Hrefna hafði vakað lengi yfir honum, – ekki vikið frá honum í heilan mánuð. Hann efaðist um hvort hann hefði nokkurn tíma getað sigrað án hennar. Hann þarfnaðist hennar, hafði alltaf þarfnazt hennar, en aldrei meir en nú. Hann hafði aftur fengið fulla starfskrafta, var fyrir löngu farinn að stjórna fyrirtækjum sínum með sínum gamla dugnaði. Þau höfðu aldrei staðið með meiri blóma. Það var bara þetta . . . Jæja, sleppum því . . . Það verður ekki á allt kosið. Alexander hratt þessari hugsun ævinlega frá sér um leið og hún reyndi að þröngva sér inn í huga hans. Hann fór aftur að hugsa um fyrirtæki sín.

Alexander leit í spegilinn og virti fyrir sér mynd sína: Góðlegt andlit manns um sextugt, hugsaði hann. Manns sem er í sátt við lífið, velnærður og fullhraustur. Öruggur með sjálfan sig. Nei. Þetta síðasttalda átti ekki við um hann. Aðeins kjánar eru öruggir með sjálfan sig. Og hvað sem um hann varð sagt, þá mundi enginn kalla hann kjána. Hann hafði komið ár sinni vel fyrir borð. Leikið lífstaflið rétt. Vitað nákvæmlega hvers menn þörfnuðust og látið þá fá það – fyrir hæfilega þóknun.

Sumir höfðu kallað hann ævintýramann. – En hvað eru ævintýramenn annað en fólk, sem hugsar og er gætt dálitlu ímyndunarafli? – Menn sem skilja sinn tíma og þora að taka ákvarðanir. Það var heimskulegt að vera að brjóta heilann um merkingu hlutanna. Atburðirnir hafa enga sýnilega merkingu. Það er allt á hverfanda hveli. Engar skýringar full-

nægjandi. Heimur í sköpun. Það var þetta sem vísindin sögðu, skildist honum.

Spurningin sem skiptir máli er hins vegar aðeins hvað selst og hvað selst ekki. Annar mælikvarði er ekki til. Listin að lifa er að framleiða rétta vöru á réttum tíma fyrir réttan markað, – og til þess þurfti lagni og skilning. Alexander fór að hugsa um æsku sína fyrir norðan. Hann hafði verið alinn upp á harðbalakoti. Já koti, sem vegna smæðar sinnar var kallað Ræpa. Alexander brosti enn við mynd sinni í speglinum. Ræpa! Þeir tímar voru löngu liðnir, og hann hafði aldrei viljað fara norður aftur. Það gengdi öðru máli með Þorvald bróður hans. Eftir því sem hann varð lengur í borginni varð kotið fyrir norðan honum kærara. Hann fór þangað með Aldísi og börnin á hverju sumri. – Hafði látið byggja þar nýtt hús og látið breyta nafninu í Hákot. – Það var líkt Þorvaldi, engu líkara en hann byggist við að fara að búa aftur í kotinu. Al exander hló. E ins og hann byggist við að yfirgefa auðævi sín í borginni og skrauthýsið á Nesinu til þess að fara aftur í fásinnið fyrir norðan. Þorvaldur hafði meira að segja keypt gamla höfuðbólið, Grund, og bætt því við kotið, svo að þetta var orðin stór jörð. Og Þorvaldur lét búa á jörðinni og seldi afurðirnar í verzlunum þeirra bræðra. Þetta var það, sem þeir kölluðu átthagatryggð, að vera fastur við torfuna. Hann, Alexander, var laus við þessa gömlu afdalarómantík. Hann hafði sagt skilið við það allt og skotið rótum í nýjum heimi. Betri heimi. Hann sá ekki æskuár sín fyrir norðan í neinum hillingum. Hann mundi það allt nákvæmlega eins og það var. Sultinn, þrældóminn, kuldann. Hann hafði enga löngun til að hverfa til þess aftur. Þetta höfðu verið eymdartímar. En hann hafði alltaf vitað að til voru betri hlutir og hann var ákveðinn í að leita þeirra. Hann fór því innan við tvítugt í atvinnuleit til Reykjavíkur. Það höfðu

verið erfið ár, fyrstu árin hans í Reykjavík. En svo kom herinn. Hann mundi enn þann dýrðardag, 9. maí. Það var dagurinn sem lagt hafði grundvöllinn að allri velgengni hans í lífinu. Hann mundi enn, hvernig hann og aðrir höfðu horft á fylkingar hermanna koma hverja á fætur annari upp frá höfninni og streyma inn í bæinn með brugðna byssustingi og hertaka hús eins og Þjóðleikhúsið og skólana og hreiðra um sig þar. Menn höfðu horft á þetta með undrun og hlutleysi líkt og þeim kæmi þetta ekki við. En svo hófst dansinn um gullkálfinn. Næg atvinna – landvarnarvinna, barátta fyrir réttum málstað ... og nógir peningar.

Alexander tókst í fyrstu að koma sér upp lítilli matstofu, sem skilaði fljótt ótrúlega góðum arði. Og Alexander kvæntist Hrefnu. Þau gátu fest kaup á verzlun, sem seldi matvörur. Skömmu seinna opnaði hann einnig heildsölufyrirtæki. Það var þá sem hann var gerður að trúnaðarmanni Flokksins og komst í kynni við Foringjann. Já, það var maður sem hægt var að treysta. Hann hafði alltaf staðið fast með Alexander, þegar með þurfti. – Og útvegað honum samband við herinn. Enn á ný höfðu það reynzt ábatasöm viðskipti. Hann hafði fengið einkarétt á öllum úrgangi frá herstöðinni í Keflavík ... Það var þá, sem hann hafði komið sér upp svínabúinu og hótelinu. Og öll þessi margvíslegu viðskipti höfðu gert hann stórauðugan. Og fjölskyldan fyrir norðan hafði flutzt til hans. Fyrst yngri bróðirinn, Þorvaldur, sem hann hafði hjálpað fyrstu árin til að koma fótunum undir sig. En Þorvaldur gat brátt séð um sig sjálfur. Hann hafði byrjað á því að reka matvöruverzlun eins og eldri bróðirinn, en nú rak hann einnig umsvifamikil fyrirtæki og var kominn í tölu vel efnaðra borgara. Og svo höfðu foreldrar hans komið. En þau voru nú bæði komin undir græna torfu. Höfðu aldrei kunnað vel við sig í höfuðborginni. Alexander fór að hugsa

um dætur sínar þrjár, Bryndísi og Sigrúnu, sem höfðu gifzt til Bandaríkjanna og yngstu dótturina – Mónu. Já það varð ekki annað sagt en hann hefði verið lánsmaður í lífinu.

Hugur hans fylltist þakklæti og hann fór aftur að hugsa um Foringjann. Annars kom það fyrir, þegar Alexander hugsaði um hann að hann fylltist gagnrýni og efasemdum. En þær stundir voru fáar og það leið langt á milli þeirra. – Og þótt hann væri honum þakklátur þá breyttist mynd Foringjans allt í einu fyrir hugskotssjónum hans í einhvers konar risasvamp, sem saug inn í sig líf annarra manna. Á yfirborðinu var hann mildur og stundum klaufalega vingjarnlegur eins og stór hundur. Sumir misskildu þessa framkomu og litu jafnvel á hann sem framgjarnan einfeldning. En Alexander vissi að hann var allur annar. Gáfur Foringjans höfðu reynzt öllum hættulegar, það er að segja öllum, sem höfðu beitt sér gegn honum. Alexander virti hann – eins og sannir Íslendingar virða alla, sem geta unnið þeim mein. Virðing hans var ótti. Það vita fáir, hugsaði Alexander, hvað leynist undir þessu góðmannlega og rólega yfirborði, – að hann er knúinn áfram af ástríðu sem hefur hann allan á valdi sínu. Að hann getur verið algerlega kaldur og algerlega samvizkulaus ef því er að skipta, – ef eitthvað ógnar hinni einu ástríðu hans: Valdi. Og hann er snillingur í að skapa vinum sínum aðstæður, sem gera þá algerlega háða honum. Þeir sem lúta honum ekki eru felldir miskunnarlaust. Hann er fæddur leiðtogi. Hrifningin náði aftur tökum á Alexander.

En svo fór hann aftur að hugsa um sjálfan sig. Hann hafði aldrei verið áberandi í þjóðlífinu. Samanborið við Foringjann var hann ekkert. Og samt . . .Var þetta ekki einmitt viturlegt að láta lítið á sér bera? Hafa fjármagn og vald að tjaldabaki, en ýta öðrum fram í sviðsljósið, öðrum sem hægt var með lagni að hafa áhrif á. Alexander hugsaði um litla leynilega

hópinn, sem hann var meðlimur í. Hóp sem kom saman á miðvikudagskvöldum til að ræða fjármál. Var hann valdaminni vegna þess að hann var óþekktur? Þvert á móti. Og Alexander vissi að þessir hópar voru margir. Innst inni var Alexander sannfærður um að þessir smáhópar óþekktra valdamanna gætu stjórnað hvaða stjórnmálamanni sem væri, – og fellt hann þegar þeim þætti tími til kominn.

Foringinn hafði að vísu enn hönd á öllum taumum og á meðan svo var hlaut Alexander að fylgja honum. Heiðraðu skálkinn svo hann skaði þig ekki. – Já, það mundi enn borga sig að fylgja honum og votta honum hollustu og tryggð. – Alexander brosti enn við mynd sinni í speglinum og kinkaði kolli.

Hann fann Hrefnu inn í innri stofunni. Hún hafði blandað sér aftur í glasið, og lét fara vel um sig á legubekknum.

Alexander horfði á hvernig hún krosslagði fagurskapaða fótleggi sína með þessu sigurvissa og örugga brosi á andlitinu. Hann hafði komið út af baðinu á náttfötunum, rauður í andliti og frísklegur. Alexander elskaði konu sína. Hann hafði aldrei haft neinn teljandi áhuga fyrir öðru fólki, ekki einu sinn syndum þess. En Hrefnu elskaði hann – og dætur þeirra . . . allt hans fólk. Hann var meira að segja trúr minningu hinna látnu. Eiginlega var kyrrstaða dauðans honum hugstæðari en öryggisleysi þessa breytilega lífs. Það er engu að treysta, nema því sem maður á. Öryggi. Um fram allt öryggi. Nú orðið vildi hann engar breytingar framar. Breytingar voru ógnun við þetta öryggi. Allt var það gott eins og það var. Þess vegna reyndi hann að sannfæra sjálfan sig um, að breytingar væru í raun og veru ekki til. Það er ekkert nýtt undir sólinni var orðtak hans. Sköpun var honum galdur, sem hann hafði heyrt talað um, en trúði ekki á. Líf hans var sjóður sem endurnýjast ekki, – og því bezt að eyða sem

minnstu af. Ég og mitt. Aðrir máttu eiga sig og sitt í friði fyrir honum. – Það var réttlæti.

„Það er orðið áliðið", sagði Alexander.

„Gerir ekkert, vinur minn. Komdu hingað og seztu hérna hjá mér og talaðu við mig".

Alexander virti konu sína fyrir sér. Hann elskaði Hrefnu, mundi alltaf elska hana. Hjónaband þeirra hafði alltaf verið gott. Alexander settist við hlið hennar á legubekkinn. Hún hallaði höfði hans að sér og strauk fingrum sínum um hrukkurnar á enninu.

„Þú ert að hugsa um Mónu?" spurði Alexander lágt. „Mónu og þennan unga mann, Stefán".

„Hvernig vissir þú það?" spurði Hrefna með undrunarhreim í röddinni.

„Gleymdu því ekki að við erum búin að vera gift í næstum þrjátíu ár. – Auk þess átt þú ekki auðvelt með að fela leyndarmál, – ekki fyrir mér að minnsta kosti".

„Já það er rétt Alexander. Ég var að hugsa um Mónu".

„Heldurðu", spurði Alexander, „að Móna sé ástfangin, – alvarlega?"

„Já, ég held það".

„Hefur hún sagt þér það?"

„Ekki beinlínis".

„Hvernig veiztu það þá?"

„Ég hef verið ástfangin sjálf, Alexander".

„Já, þegar við vorum ung".

„Ennþá", hvíslaði Hrefna blíðlega. „Ég þekki einkennin".

„En hún þekkir þau ekki".

„Nei, ekki mikið", viðurkenndi Hrefna, „en Móna er ekkert barn lengur. Hún er orðin nógu gömul til að vita hvað hún vill".

„Ég vona það. – En ef hún skyldi nú giftast einhverjum auðnuleysingja – það væri meira en ég gæti þolað".

„Hvers vegna skyldi hún gera það?"

„Nei. En Móna er áhrifagjörn þú veizt hvernig þetta fór með þennan vin hennar Alfgeir. Hann er jafn mikill aumingi fyrir það, þótt hann sé sonur ráðherra".

„Ummm. Hann. Stefán er öðru vísi. Auk þess hefur Móna þroskazt mikið síðan".

Þögn.

„Þú óttast, Alexander, að hann eigi ekki peninga?"

„Þú veizt sjálf að peningar skipta miklu máli. Og ungir menn sem eiga peninga þurfa ekki að vera neitt verri, en ungir menn sem eiga þá ekki".

„Við byrjuðum ekki með mikið, elskan mín".

„Nei, ekki við", sagði Alexander og leit undan. Svo bætti hann við eftir stundar þögn. „En heldur þú að Stefán vilji þá kvænast henni? Við getum ekki einu sinni vitað það. Hann er auðvitað eins og hvert annað óráðið ungmenni".

„En ég veit það", sagði Hrefna. „Ég vissi það *strax*".

„Hvað?"

„Að þau vilja eigast".

„Ég veit ekki hvort þau eiga saman", sagði Alexander hikandi. „Þau sýnast vera svo ólík".

„Ég held", sagði Hrefna ákveðin, „að hann verði góður eiginmaður. Hann er svolítið alvarlegur, en ég veit að hann er góður maður".

„En er hann rétti maðurinn fyrir Mónu?"

Hrefna vissi að Alexander unni Mónu mest af börnum sínum, en hann mundi gera eins og hún vildi. Hún gat þegar séð á honum að mótstaða hans var aðeins á yfirborðinu.

„Ég held við ættum ekki að hafa neinar áhyggjur", sagði

hún. „Móna veit hvað hún vill, – og unga fólkið vill fá að ráða sér sjálft".

„Auðvitað verða þau að gera það".

„Hvað er það sem þér geðjast ekki að, Alexander?"

„Ekkert, mér geðjast vel að honum".

„Þá er ekkert meira að segja".

Alexander brosti til hennar hlýlega.

„Já, Alexander", sagði hún. „Við viljum aðeins að Móna verði hamingjusöm. Þú verður að gera eitthvað fyrir þau, vinur minn".

Alexander kyssti konu sína.

„Ég mun aldrei stofna þessari e inu ást minni í hættu til þess eins að hafa síðasta orðið".

Hrefna brosti.

„Ég vildi", sagði hún, „að Þorvaldur væri jafn skynsamur".

Hvorugt þeirra hafði enn minnzt á það, sem komið hafði fyrir, en það lá þungt á þeim báðum.

„Ég veit ekki hvernig þetta fer. – Er þessi magister gamall vinur Aldísar, heldurðu?"

„Já, ég held það".

„En hvern hefði grunað að þetta mundi koma fyrir – og það hér".

„Við skulum vona það bezta. Þetta kann að lagast aftur. Það er ekkert sem við getum gert".

„Nei", sagði Alexander. „Ekki eins og er".

Hrefna strauk hár hans og fór allt í einu að hugsa um föður sinn. Hún var aðeins átta ára þegar faðir hennar hafði kvænzt annarri konu, eftir að móðir hennar lézt. Það var þá sem hann byrjaði að drekka, – og stjúpa hennar drakk með honum. Þau höfðu fengið stóran arf og eignazt hús á góðum stað í bænum. En hann fór fljótlega að afrækja vinnuna. Hrefna mundi þegar þau urðu að selja íbúðirnar á hæðinni

og fluttust í kjallarann. Hrefna reyndi alltaf að gleyma þessum hluta ævi sinnar. Loks urðu þau líka að selja kjallaraíbúðina og fengu íbúð á vegum bæjarins í fátækrahverfi. – Hrefna var þá sextán ára og hún fór að heiman og fékk vinnu á skrifstofu. Hrefna elskaði samt alltaf föður sinn og hitti hann alltaf öðru hvoru, þar til hann lézt tveimur árum eftir að hún fór að heiman.

Um svipað leyti hafði hún kynnzt Alexander. Hann var tíu árum eldri og minnti hana á föður hennar. Alexander hafði verið henni góður og aldrei látið hana vanta neitt. Hún hafði nú meiri peninga handa á milli en nokkru sinni fyrr og naut þeirra. Hún vissi að hann elskaði hana og það gerði honum erfitt að neita henni um að fá það sem hana langaði í. Og þarfir hennar voru margvíslegar. Það var notalegt að geta alltaf gengið í dýrum fötum, notað beztu fegrunarlyfin, farið á eftirsóttustu snyrtistofurnar, fylgzt með tízkunni. Hrefna var ánægð með lífið. Hún var bjartsýn og vingjarnleg að eðlisfari. Trúði þrátt fyrir æskuár hennar á lífið og gjafir þess. Hún hafði til að bera sanna hlýju og löngun til að hjálpa öðrum, en vildi samt gera þá háða sér og hafa af þeim gagn. Hrefna elskaði mat og drykk í hófi. Ef ótti eða þunglyndi ógnaði henni, – þá borðaði hún góðan mat og tók glas af víni, og það brást ekki að innan stundar var hún búin að taka gleði sína aftur. Munnur hennar var mest áberandi hluti andlitsins. Hann var stór og varirnar oft opnar eins og hún væri sífellt að búast við að verða mötuð á einhverju. Hana dreymdi oftast mat.

„Það er orðið framorðið", sagði Alexander aftur.

Þau stóðu bæði á fætur. Hrefna gekk út að glugganum og Alexander kom á eftir henni. Það var komin hríð og farið að hvessa úti og þegar þau horfðu út í þessa dimmu og köldu veröld setti að þeim notalegan beig. Alexander lagði hand-

legginn um herðar Hrefnu eins og til að vernda hana. Aðeins hjá konunni, hugsaði Alexander, getur maðurinn losnað við þennan rótgróna ótta sinn við lífið. Það var notaleg tilfinning að finna að hún var hrædd við eitthvað líka – að hann gat verndað hana. Seinna þegar þau voru háttuð, sagði Hrefna.

„Alexander, ég var hjá Lækninum í gær".

„Lækninum?"

„Já, hann sýndi mér nokkrar myndir".

Alexander varð órór.

„Og var nokkuð athugavert við þær?"

„Nei, Alexander, ekkert alvarlegt, en hann sagði að þú þyrftir að koma aftur".

Alexander horfði á hana íhugandi.

„Það þarf ekkert að vera óeðlilegt við það", hann geyspaði til að leyna ótta sínum. Hann fór að teikna með hendinni ósýnilegt mynstur ofan á sængina. „Hrefna, – þú hefur alltaf verið mér góð kona".

Hún strauk höndinni mjúklega yfir brjóst hans en sagði ekki neitt.

„Hrefna . . . þetta hlýtur að vera erfitt . . . að geta ekki . . . að við getum aldrei . . . verið saman. Kannski lagast þetta aldrei".

Hrefna leit á mann sinn. Hvernig gat hún horft á þessi biðjandi augu. Hún grúfði andlitið upp að honum.

„Þetta máttu ekki segja Alexander. Ég hef ekki yfir neinu að kvarta. Mér er nóg að hafa þig hérna hjá mér".

„Ég get ekki verið án þ ín".

„Þú þarft þess heldur ekki, vinur minn".

„Viltu lofa mér því?"

„Ég lofa því".

Nei, hún gat ekki horft í þessi biðjandi augu. Hún vorkenndi honum. – Hvaða vörn á maðurinn gegn sjúkdómum sínum?

Eftir að Alexander fékk hjartaslagið hafði læknirinn sagt við hana, að það gæti ekki orðið um neitt kynlíf að ræða milli þeirra – ekki fyrst um sinn og ef til vill aldrei. En hún mundi aldrei yfirgefa hann. Hann mundi alltaf geta treyst henni, sama hvað að höndum bæri. Hann hafði gefið henni mörg góð ár og þau bönd mundu ekki slitna. Hún neitaði því ekki að hún þjáðist stundum í einrúmi. – En það skyldi hann aldrei fá að vita. Auk þess fékk hún marga góða hluti frá Alexander – og það var ekki sanngjarnt að þeir fengjust fyrirhafnarlaust.

„Ég get ekki verið án þín", endurtók hann auðmjúkur.

Hrefna fann að varir hennar skulfu og það komu tár fram í augu hennar.

„Elsku vinur minn. Þú veizt að ég verð hérna alltaf eins lengi og þú vilt hafa mig hjá þér".

Hann kyssti konu sína innilega. Hann var henni þakklátur. Hann skyldi líka launa henni þetta. Hún mudi aldrei þurfa að fara neins á mis, – hún skyldi fá allt sem peningar gátu veitt henni, – og var það ekki talsvert, þegar öllu var á botninn hvolft?

Alexander seildist í slökkvarann og það varð myrkur í svefnherberginu. Eftir nokkra stund var Hrefna sofnuð að hann hélt. Hún var góð kona. Sennilega svaf hún værum, draumlausum svefni eins og barn. En Alexander lá enn vakandi og horfði út í myrkrið.

ÞORVALDUR fór seinastur frá Hrefnu og Alexander. Hann fékkst ekki til að ræða við neinn, – sat einn og þungbúinn á svip yfir nýjum drykk, sem Hrefna hafði blandað honum. Þau fundu að hann vildi ekki tala, og létu hann því í friði. Loks lauk hann drykknum og fór.

Þorvaldur hafði ekki enn tekið ákvörðun um það, hvert hann færi. Hann gat ekki enn þá gert það upp við sig, hvort hann ætti að fara til Aldísar, eða ekki. – Til Aldísar! . . . Vitleysa . . . auðvitað hafði hún ekki farið heim til þeirra. Það var ekki einu sinni víst, að hún kæmi þangað nokkurn tímann framar.

Það var komin hríð og dimmviðri, en þessi hríð átti vel við Þorvald. Þetta er eins og í gamla daga fyrir norðan, hugsaði hann, þegar snjódrífan rauk um mann, og fékk blóðið til að renna eins og vín um æðarnar. Veðrið róaði hann og fékk hann til að hugsa skýrar. – Hann ákvað skyndilega að fara ekki heim aftur. Hann flýtti sér upp eftir mannlausri götunni, – burtu frá húsi sínu. Hann varð að finna leigubíl, upp á aðalbrautinni. En hvað nú . . . Hvað nú, hugsaði hann. – Það var ekki annað að gera, en að segja skilið við þetta allt. Fara burt . . . Burtu úr landinu. Vera laus við Aldísi og vorkunnsemi Alexanders og Hrefnu . . . Vorkunnsemi! Hana var verst að þola. Hann kærði sig ekkert um meðaumkun . . . Hjá flestum var hún uppgerð. Hjá hinum eitthvað enn verra. Fara . . . Var það ekki það sem Aldís vildi? Um stund sá

hann sjálfan sig á fjarlægri strönd, þar sem sólbrún andlit mæla á framandi tungu. Hann heyrði töfra einkennilegra nafna, sem seiddu hann til sín. En svo fór hann að hugsa um Aldísi. Nú hefur það gerzt . . . sagði hann við sjálfan sig. En vissi ég ekki alltaf að það hlaut að gerast? . . . Trygglynd? Jú, einhverskonar trygglyndi . . . Í innsta eðli sínu ekkert annað en þörf fyrir að eiga einhvers staðar öruggt athvarf. Það byggðist á því að hún átti gott heimili, og hún óttaðist að missa það . . .

En það var alltof erfitt fyrir hana að segja nei . . . Hún þurfti að vera trú mörgum . . . Þurfti á mörgum að halda til að finnast hún örugg. Hún vildi segja já við öllu og öllum . . . Óhæf til að standa á eigin fótum . . . Og svo komu árekstrarnir milli tryggðar og loforða . . . Svik.

Hafði hún elskað hann? . . . Hún elskar þá, sem elska hana . . . Og hann hafði sýnt henni kulda, það var satt. Verið stundum hranalegur við hana . . . Sært hana með ónærgætni. Já, Það var sannleikurinn . . . Konan elskar þá, sem elska hana . . . Sama hver er . . . Það altekur hana svo hún fellur fyrir hverjum sem sýnir henni ástleitni . . . eða það sem virðist ástleitni. Dómgreind? . . . Ekki til!

Hann hafði svo sem þekkt konur áður en hann kynntist Aldísi . . . Að vísu . . . En hún var sú fyrsta sem vakti hina raunverulegu ástríðu hans . . . að eiga. Að eiga konu. Allar hinar komu og fóru. Hann hafði meira að segja sagt við sig eftir að þau fóru að vera saman, að það væri fyrst nú, sem hann væri farinn að leita fegurðar í konunni. Já . . . Leita að sál hennar . . . Þegar hann horfði á stinn brjóst hennar, þegar hún lyfti höndunum til að laga hár sitt . . . Þegar hann horfði á hana afklæða sig . . . eða klæða sig í, þá fann hann til óslökkvandi löngunar til að eiga hana . . . jafnvel tilbiðja.

Hann vissi allt í einu, að þrátt fyrir allt myndi hann snúa

heim til hennar. Gat ekki annað. Hann fyrirleit sjálfan sig. Fannst hann aldrei hafa verið jafnlítill og nú. – Var það ekki það sem hún hafði sagt. „Dvergur flattur út". orðin bergmáluðu í huga hans og sárindin hreiðruðu um sig . . . . Sárindi og afbrýðisemi. Hann varð að sjá hana. Hann byrjaði að ásaka sjálfan sig. Hann hefði ekki átt að láta hið særða stolt sitt hlaupa með sig í gönur, – ekki segja þessi bituryrði og gera hluti sem hann fengi líklega aldrei tækifæri til að bæta fyrir . . . Þótt kona sé ótrú, þá er það ekki alltaf næg ástæða til að skilja við hana . . . Nei, það var ekki nauðsynlegt að skilja við hana, ekki enn. Var ekki lífið röð af vandamálum. Menn urðu að mæta þessum v andamálum . . . horfast í augu við þau. Berjast. Það skiptir ekki máli, þegar öllu var á botninn hvolft, skipti ekki máli hvernig hún var . . . hve erfið hún var honum. Hún var hans vandamál, hans hlutverk í lífinu. Hafði hann ekki alltaf barizt harðri baráttu – og fengið allt, sem hann hafði barizt fyrir . . . Nema . . . Hvers vegna er ég að blekkja sjálfan mig . . . Þetta er að vísu sannleikurinn en ekki nema hluti hans . . . Og Aldís hvað mundi hún vera að hugsa núna. Hann vissi það ekki . . . Þrátt fyrir allt veit enginn neitt um hugsanir annarra, þótt hann haldi það sjálfur. Hann varð að fara heim, – vita hvort Aldís hefði farið þangað – eða með magisternum.

Hann var kominn talsverðan spöl frá húsinu, þegar hann sneri við og hélt sömu leið til baka.

Ég þoli þetta ekki lengur, hugsaði Aldís.

Hún var komin heim fyrir nokkru og þótt klukkan væri eitthvað á fimmta tímanum fór hún samt ekki að hátta. Hún reikaði friðlaus um ríkmannlegar stofurnar og blandaði sér loks drykk. Hún hafði farið í heitt bað og haft fataskipti.

Ég þoli þetta ekki lengur, endurtók hún í huganum. Það versta var, að hún hafði gert sig að fífli með því að treysta á loforð Ólafs Hreins. Hvers virði höfðu þessi loforð reynzt? Aðeins munnfylli af lofti. Það eina sem hann hafði áhuga fyrir hafði verið að skilja við hana sem allra fyrst. Til hvers hafði hann komið á eftir henni, – aðeins til að reka hana frá sér?

Hún vorkenndi sjálfri sér. Hún var búin að missa Ólaf Hrein líka, – ef hún skildi við Þorvald, mundi hún ekki fá Ólaf. – Hann mundi þá alveg snúa baki við henni, eins og hann hafði sannað henni áðan úti í hríðinni . . . En kom þetta henni í raun og veru svo á óvart . . . Hafði hún ekki alltaf vitað þetta? . . . Hvernig? Hún gat ekki svarað því . . . Þetta var aðeins tilfinning líkt og dýr skynjar veður. Jú, hún hafði alltaf vitað það, að Ólafur Hreinn mundi yfirgefa hana . . . Í hans augum var hún aðeins eftirsóknarverð meðan hægt var að taka hana frá öðrum . . . Frá Þorvaldi. Eftir að hún var skilin við Þorvald . . . var það ekki það, sem Ólafur Hreinn óttaðist að hún mundi gera? . . . eftir að hún væri farin frá Þorvaldi mundi hann snúa við henni baki . . . ekki vilja sjá hana meir.

„Stolnir ávextir eru sætastir“ . . . var það ekki eftirlætismálsháttur hans? . . . Þeir verða bara eftirsóknarverðir ef hægt er að taka þá frá öðrum, hugsaði Aldís biturlega. Henni var ekki hlýtt til Ólafs lengur. Undarlegt hugsaði hún, hvað menn geta verið fljótir að skipta um skoðun. Já í dag getur þýtt nei á morgun. Og svo segja karlmenn að konur séu hverflyndar. Já, hún þekkti Ólaf . . . Hann hafði alltaf sótt allt til annarra . . . Ekki svo að skilja að hann vilji fá hlutina sem gjöf. Nei . . . hann þykist ekki vera neinn ölmusumaður eða betlari . . . Það verður að beita brögðum til að ná þeim . . . eða taka þá með valdi.

Þegar hún fór nú að hugsa um þetta yfir ginblöndunni ... rólega ... þá minntist hún þess ekki, að Ólafur hefði ekki reynt að ná einhverju frá öllum sem hann kynntist. Annars missti hann áhugann ... Fólk, sem ekkert var hægt að hafa af var í augum hans leiðindafólk. – Undarlegt hvað hún hafði alltaf verið veik fyrir honum þrátt fyrir allt þetta ... eða var það kannski einmitt vegna þess?

Þorvaldur, hugsaði hún. Hann var allt öðru vísi. Verri. Hann var frummaður, hellisbúi ... hefði helzt viljað draga hana á hárinu í þetta borgarvirki sitt. Borgarvirki, það var rétta orðið ... Hann hafði alltaf reynt að hlaða utan um sig varnarmúra og reynt að draga inn í þetta virki sitt sem mest og láta sem minnst frá sér ... Og ást hans ... drottinn minn. Eign og yfirráð ... Að eiga hana eins og hvern annan grip. „Bikar" hafði hann kallað hana. „Skrautlegur farandbikar!" Þrælmennið. Að vísu hafði hún haft talsverð kynni af karlmönnum. Hún hafði verið fátæk, þegar hún giftist Þorvaldi. Og Þorvaldur var svo sem nógu duglegur að sjá fyrir heimilinu, – lét hana ekkert vanta ... nema lífshamingju ... Nei það var allt vonlaust. Hún hlaut að fara frá honum. Það var óhjákvæmilegt, hvað sem um hana yrði, – hana og börnin. Þau sváfu sem betur fór uppi á efri hæðinni. Hún varð dapurleg á svip og fylltist sjálfsvorkunnsemi á ný.

Einmanaleikinn, að vera skilin ein eftir var það sem hún hafði alltaf óttazt mest. Og eftir það, sem hafði gerzt þessa nótt? ... Hvað mundi Þorvaldur annars hugsa? Hún sagði við sjálfa sig að sér væri alveg sama hvað hann hugsaði um hana. Og samt vissi hún að henni var ekki sama.

Hún fór út að glugganum. Veðrið var drungalegt eins og skap hennar. Hríðin lamdi rúðurnar utan og það var erfitt að sjá nokkuð greinilega. Enhvað var þetta? Hún sá ekki betur en að það kæmi maður að húsinu. Jú. Nú sá hún hann, það

var Þorvaldur. Hann gekk hægt upp tröppurnar, og skömmu seinna heyrði hún hann hringja bjöllunni. Hún minntist þess nú, að hann hafði engan lykil. Hún stóð upp til að opna fyrir honum en hikaði. Hún fann að hún óttaðist hann. Þorði ekki að standa frammi fyrir honum, vera ein með honum. Bjallan hringdi aftur og hún fór fram. Hún heyrði rödd Þorvaldar, skipandi. Hann hafði heyrt hana koma.

„Opnaðu, þú verður að opna strax".

Hún sá hann ógreinilega, þar sem hann stóð við dyrnar fannbarinn og kuldalegur.

„Verð ég", sagði Aldís hvasst. „Hver segir það?" bætti hún við.

„Ég segi það". Reiðin gaus upp í Þorvaldi. – Það eru takmörk fyrir öllu, hugsaði hann, – og nú er nóg komið. Hann kastaði sér í æði á rúðuna á útidyrahurðinni og skar sig í höndina á brotunum. Hann teygði sig í lásinn á hurðinni og opnaði að innanverðu.

„Hvað hef ég gert?" sagði Aldís og hörfaði undan inn í stofu.

„Hvað hefur þú gert?" endurtók Þorvaldur og brýndi raustina. Andlitið var tekið og þreytulegt. Augun stjörf. „Það er von þú spyrjir að því".

„Láttu mig í friði", bað Aldís. „Ég vil vera ein". Hún sá að Þorvaldur skalf af niðurbældri reiði. Hann hafði vafið vasaklút um höndina til að stöðva blóðrennslið. Hún fann að magi hennar herptist saman af ótta, en hún var ákveðin í að láta hart mæta hörðu. Hann skyldi ekki kúga hana til neins. Þorvaldur gekk nær henni og leit fast á hana eins og hann vildi lesa svip hennar.

„Þessi magister þinn . . . Hvað er langt síðan þú byrjaðir að fara á bak við mig . . . Svíkja mig . . . Kannski hefur þú gert það allan tímann?"

„Það er ósatt . . . Ég hef ekki . . . Ekki fyrr en í kvöld".

„Það er ekkert til, sem ég get ekki trúað", sagði Þorvaldur háðslega.

„Mér er sama".

„Og þú ætlar þá líka að segja mér að þiðhafið aldrei þekkzt áður?"

„Jú, við höfum þekkzt áður".

„Hvenær?"

„Áður en við giftum okkur".

„Og aldrei hitzt síðan?"

„Nei. Er þessari yfirheyrslu þinni lokið?"

Þorvaldur þagnaði, en þögn hans var eins og ásökun. Hún óttaðist hann meir, þegar hann þagði. Hún þagnaði líka, beið.

„Hvað ætlarðu að gera?" spurði Þorvaldur loks.

„Hafðu ekki neinar áhyggjur út af mér".

„Þú getur sjálfsagt séð um þig sjálf?"

„Já. Ég er ekki eins ósjálfbjarga og þú heldur".

„Ekki það?"

„Ég vil vera frjáls".

„Frjáls? . . . En hvað um Ólaf?"

„Ég vil vera alein. Það er sannleikurinn".

„Og hefurðu hugsað um hvað fólkið muni segja um þig? Hefurðu hugsað um það?"

„Lítill karl. Alltaf að hugsa um hvað fólkið muni segja".

„Og þú skeytir engu um skömm eða heiður".

„Þetta verður þér sjálfum til háðungar".

„Kannski iðrar þig þess seinna, að hafa svikið mig", sagði Þorvaldur.

„Aldrei".

Þorvaldur starði á Aldísi. Hann mundi aldrei gleyma þessum nýja svip, bitrum . . . grimmdarlegum. Hún var ekki

falleg lengur. Honum fannst hún allt í einu verða sér framandi, ókunnug kona. Hann þekkti hana ekki lengur.

„Hvað ætlar þú að gera?“ spurði hann aftur.

„Ég ætla að skilja“, sagði hún.

„Hvað annað? Þú hefur eyðilagt allt“.

„Þetta er allt þér að kenna“.

„Mér?“

„Ef þú hefðir verið einhver maður, þá hefði þetta aldrei komið fyrir. En þú ert enginn maður. Þú ert kerling“.

Þorvaldur steinþagnaði. En þögn hans espaði hana. Hún byrjaði að losa af sér hringinn.

„Hérna, taktu við“, hrópaði Aldís og rétti hringinn að honum.

Þögn. Þorvaldur hreyfði sig ekki.

„Ég hef alltaf fyrirlitið þig“, hvæsti Aldís.

„Alltaf?“

„Alltaf!“

Þorvaldur stóð fyrir framan hana eins og þrumuský. Hann þeytti sínum eigin giftingarhring í gólfið. Aldís rak upp hæðnishlátur.

„Ég hef aldrei elskað þig. Ég hata þig. Hata þig“.

Reiðin og afbrýðisemin, sem Þorvaldur hafði reynt að halda í skefjum, sprengdu nú af sér alla fjötra. Æðið hafði aftur náð tökum á honum. Það var of seint að snúa við. Grimmdarsvipurinn hvarf af andliti Aldísar og hún varð altekin ótta. Þorvaldur stóð yfir henni með höndina á lofti og barði hana í andlitið. Hún rak upp hálfkæft óp og flúði frá honum út í horn stofunnar. Hún beygði sig saman, brjóstin niður við fætur. Hún skalf af reiði og sársauka.

Hann kom á eftir henni. Högg hans sendu hana aftur á fætur. Hann fylgdi henni eftir og lét höggin dynja á öllum líkama hennar. Í æði sínu hlífði hann engu. Klæði hennar

voru rifin og hárið í óreiðu. Hún lagðist aftur niður í hnipri upp við vegginn, negld niður af ótta. – Loks fann hún ekki lengur til neins. Það var myrkur í kringum hana, – eins og allri jörðinni hefði verið sökkt í myrkur.

Hún komst smám saman til meðvitundar aftur og sá, að Þorvaldur var farinn út úr stofunni. Hún settist upp og byrjaði að gráta, ofsalega.

Nú var hún eingöngu á valdi óttans . . . óttans við að verða skilin eftir . . . verða ein og yfirgefin. Að vera einn er að vera glataður. Ef hún missti allt . . . yrði án allrar hjálpar frá öðrum? Hún hætti að gráta og fór fram í baðherbergið til að laga sig til. Hún hlustaði. Jú. Börnin sváfu, eða létust sofa . . . Þorvaldur hafði þó alltaf verið duglegur og séð vel fyrir heimilinu, ekki látið hana eða börnin skorta neitt. Hvað yrði um hana, ef . . . ?

Hún nam staðar fyrir framan spegilinn . . . þorði ekki að hugsa um það . . . Aldís horfðist í augu við sjálfa sig . . . Undarlegt að kona getur aldrei metið sjálfa sig nema fyrir framan spegil . . . Hún var ekki ung lengur . . . Eftir fá ár yrði hún ekki heldur falleg lengur. Hún var bólgin og þrútin í andliti . . . Það var óskiljanlegt, en hún var ekki reið við Þorvald, ekki *núna* . . . Hún hafði verið barin af manni, sem áleit sig hafa rétt til þess . . . Var það ekki næstum því eins konar fyrirgefning? . . . Auk þess var þetta allt henni sjálfri að kenna. Hvernig skeði það? . . . Hafði hún sjálf ekki átt upptökin? . . . beinlínis ögrað honum . . . Þar til hann átti ekki um neitt að velja lengur . . . Og það blæddi úr honum – hennar vegna.

Það snart hana undarlega djúpt, að hann skyldi hafa sigrað hana, yfirunnið alla mótstöðu, bugað hana með styrkleika sínum. Á einhvern óskiljanlegan hátt hafði hann á ný vakið ástríðu hennar. Hún vissi það nú, að hún mundi ekki

fara frá honum, og hún bað þess í hljóði, að hann tæki hana í sátt og heitstrengdi að bregðast honum aldrei framar. Hún skyldi verða honum trú. Hún þarfnaðist hans nú meira en nokkru sinni fyrr, nú þegar hún var líklega búin að missa hann.

Þorvaldur hafði farið inn í svefnherbergið. Hann lagði aftur hurðina á eftir sér, en kveikti ekki ljósið. Hann staðnæmdist við gluggann og horfði þögull út í hríðina. Það lagði daufa skímu inn til hans frá ljósastaur. Gatan var auð og köld. Þetta er allt búið, hugsaði hann. Því er öllu lokið. Hann horfði í gaupnir sér, eins og hann væri hissa á að sjá tómleik handa sinna. Hann hafði misst hana og átti ekkert betra skilið. Hann ásakaði sjálfan sig, skammaðist sín fyrir að hafa lagt hendur á konu, gat enga skýringu gefið á því hvernig þetta hafði getað gerzt. En svo sýknaði hann sjálfan sig. Sárindin gagntóku hann og hann endurtók í huga sér: Það var hún, sem sveik mig . . . En svo ásakaði hann sig aftur. Hafði hún ekki verið honum dýrmætari en allt annað? . . . Kannski hefði hann ekki þurft að missa hana? Nú mundi hún fyrirlíta hann. Hann sá hana fyrir sér eins og hún var frammi í stofunni . . . Hálfnakin kona, viti sínu fjær af ótta, reiði og sársauka. Hann blygðaðist sín, en gat þó ekkert gert . . . gat ekki farið fram og beðið hana fyrirgefningar . . . Það var hún, sem . . .

Hann heyrði að dyrnar voru opnaðar, – heyrði fótatak hennar nálgast sig. Þorvaldur sneri sér frá glugganum og horfði á hana vandræðalega.

„Þorvaldur!"

Aldís kastaði sér í fang hans. Hún dró andann ótt og hélt í hann dauðahaldi. Svo byrjaði hún aftur að gráta. Það var varla hægt að heyra orð hennar þegar hún hvíslaði við eyra hans.

„Þorvaldur, viltu fyrirgefa mér?"

Hún dró hann að sér og honum fannst hann vera að sökkva niður í kviksyndi. Hún var allt í einu svo varnarlaus, að honum rann reiðin. Hann þarfnaðist hennar og þrá hans barðist við afbrýðisemina. Hann fann að hún hafði yfir honum vald, sem hann réði ekki við, – fann að hann var ánauðugur þessari konu, að hann elskaði hana og hataði í senn. Hann smeygði fæti sínum milli læra hennar og lagði hana hranalega niður á rúmið.

Seinna, þegar hann leit niður og framan í hana, sá hann aðeins ást í augum hennar.

„Við verðum að fara", hvíslaði Móna að Stefáni, og lagði höndina á öxl hans.

Svipurinn á Þorvaldi var eins og þrumuský, þegar hann fór aftur inn í stofuna og settist án þess að mæla orð.

„Já", Stefán leitaði að orðum. „En það er svo margt, sem ég þarf að tala um við þig – eina". Það birti yfir svip hennar og það gerði hann hugrakkari. Hann heyrði sjálfan sig segja:

„Viltu koma með mér, – Móna?"

„Á hótelið?" spurði hún.

„Já".

Móna horfði á hann hugsandi.

„Nei, Stefán. Ekki þangað".

Hann fór hjá sér.

„En hvert?"

Hún talaði lágt og án þess að líta á hann.

„Þú gætir komið með mér heim – ef þú vilt".

Það var einmitt það, sem hann vildi, en samt gerði þetta svar hann órólegan . . . Kona, sem býður karlmanni heim til sín strax fyrsta kvöldið? . . . Nei, hún var ekki þannig . . . Og hvernig mundi þetta enda . . . þegar þau væru orðin ein . . . þegar dyrnar hefðu lokazt og þau væru orðin ein . . . hvað átti hann þá að gera? . . . Og hvað svo . . . morguninn eftir . . . hvað mundi hún hugsa á eftir? . . . Mundu dyr hennar þá standa honum opnar? . . . Mundu þau nokkurn tíma sjást framar?

„Ágætt", sagði hann loks.

Móna hafði skilið bíl sinn eftir við húshliðina hjá foreldrum sínum, þegar hún fór með þeim fyrr um kvöldið niður á Loftleiðahótelið. Stefán kvaddi Alexander og Hrefnu og kinkaði kolli til Þorvaldar, sem virtist ekki sjá hann og tók ekki undir kveðju þeirra. Þegar þau komu út, fékk Móna Stefáni lyklana að bílnum og bað hann að keyra sig heim. Það var erfitt að koma bílnum í gang vegna kuldans. En eftir nokkra stund voru þau komin af stað, og sátu hlið við hlið í notalegri hlýjunni inni í bílnum.

Þau óku varlega vegna hálkunnar og það höfðu myndazt skaflar á götunni, sem gerði þeim erfitt að komast leiðar sinnar. Það var orðið mjög áliðið.

„Hérna", kallaði Móna og benti á nýlegt hús, þrílyft, framundan. „Þetta heita Sólheimar", bætti hún við og hló. Stefán átti í erfiðleikum með að aka bílnum upp að húsinu fyrir snjó.

Hríðin þyrlaðist um þau, þegar þau stigu út úr bílnum. Hár Mónu fór í óreiðu og kápan opnaðist í storminum. Það fór um hana kuldahrollur og hún reyndi að vefja kápunni þéttar að sér. Stefán tók undir handlegg hennar og þau hlupu saman frá bílastæðinu og upp að húshliðinni.

Íbúð Mónu var uppi á þriðju hæð. Þar bar allt vott um smekkvísi og góð fjárráð. Létt húsgögnin voru af vönduðustu gerð og reykgrátt gólfteppi huldi gólfin út í hvert horn.

Þegar þau voru komin inn í íbúðina, hjálpaði hann henni úr kápunni og fór sjálfur úr frakkanum.

„Viltu eitthvað að drekka?" spurði Móna.

„Nei, þakka þér fyrir, ekki núna".

„Mér er kalt", sagði hún og strauk annarri hendinni yfir hár sér, sem hafði blotnað í hríðinni.

Stefán gekk til hennar og tók utan um hana.

„Þú skelfur", sagði hann. „Líður þér illa?"

„Nei, mér líður betur núna, miklu betur".

Hann vissi ekki hvað hann átti að gera eða segja. Hann sleppti henni og tók upp sígarettu og bauð henni aðra.

„Þetta er falleg íbúð", sagði hann loks.

„Þakka þér fyrir". Móna opnaði radíófóninn. Hún sneri sér að honum og horfði á hann bláum augum.

„Ertu viss um, að þig hafi langað til að koma hingað?"

„Já".

„Ég vildi að þú þyrftir ekki að fara vestur", sagði Móna.

„Ég vildi það líka, Móna, en ég er hræddur um að ég verði að fara aftur – fljótlega".

„Já", andvarpaði hún.

„En ég kem aftur – í haust".

Móna hló.

„Ég veit ekki hvort ég verð frjáls þá. Það getur margt breytzt á heilu sumri". Hún varð að gera að gamni sínu til að koma ekki upp um ótta sinn.

„Ég get skrifað eða hringt", sagði hann hikandi.

„Ég fæ sumarfrí í júní", sagði hún, eins og hún hefði ekki heyrt til hans.

„Áttu við að . . . ?"

„Ef þú vilt", sagði hún lágt og sneri sér undan.

Hann fann fagnaðaröldu streyma um sig . . . Móna og hann, ein, í litla sumarhúsinu við ströndina, bara þau tvö. Nei, hann þorði ekki að trúa á það.

Hann stóð fyrir aftan hana og tók þétt utan um hana – fann stinn brjóst hennar hvíla á örmum sér. Hún lét höfuðið falla að öxl hans og horfði upp til hans.

„Þetta er svo undarlegt", sagði hún og rödd hennar var full af blæbrigðum, sem fylltu herbergið hlýju, þrátt fyrir

veðragnýinn og hríðina, sem litaði rúðurnar hvítum frostrósum.

„Eins og allt, sem gerzt hefur í kvöld", hvíslaði hann.

„Hvernig hefur þetta gerzt? . . . hvar? . . . " Hún þagnaði og lokaði augunum. Hún hallaðist áfram að öxl hans.

„Það gerðist strax og ég sá þig þar sem þú sazt við borðið í Víkingasalnum".

„Ég var hrædd", sagði hún.

„En þú ert ekki hrædd núna?"

„Jú".

„Ekki við mig?"

„Jú". En hún gerði enga tilraun til að losa sig úr faðmlögum hans.

„En hvers vegna?"

„Þetta er svo undarleg tilfinning – undarlegasta tilfinning, sem ég hef nokkurn tímann þekkt. Það er eins og ég hafi veriðb undin við eitthvað öll þessi ár og nú sé ég allt í einu frjáls. Það er svo gott, en það gerir mig líka hrædda". Hún sneri sér við og tók báðum höndum um háls honum. „Stefán. Ég vil vera hjá þér. Farðu ekki aftur. Aldrei". Hún kyssti hann ástríðufullum kossi og faðmaði hann að sér.

„Það var undarlegt, að þau höfðu aldrei hikað, – það var ekkert bil á milli þeirra, sem þau þurftu að brúa. Þau höfðu ekki mætzt eins og tvær ókunnugar manneskjur, sem þurfa tíma til að kynnast. Þvert á móti höfðu þau runnið saman, næstum eins og tveir gamlir elskendur, sem lengi hafa beðið hvor eftir öðrum. Og þegar hún hélt honum þannig í faðmi sínum fann hún, að þetta var hið fullkomna, hamingjan, sem allir leituðu að, að elska og vera elskuð.

„Komdu". Hún tók í hönd hans og dró hann með sér að legubekknum. Hún settist hjá honum og þau héldust í hendur.

„Móna", sagði hann. „Ég elska þig".

„En þú ert að fara vestur".

„Og þú, Móna, átt allt þitt hér?"

„Já", sagði hún lágt. „Ég verð að vera hér". Þau litu hvort á annað vonleysislega. Stefán brosti dapurlega og sagði hikandi:

„Ef það væri nokkur skynsemisglóra til í mér, mundi ég fara núna".

„Fara". Það var ótti í rödd hennar.

„Ég sagði ef".

„Stefán, gætir þú ekki alveg eins unnið hér?"

„Það er hugsanlegt, en það yrði ekki það sama".

„Hvers vegna ekki?" spurði Móna áköf. Hann tók báðar hendur hennar í sínar.

„Móna, ég verð að fara vestur aftur. Allt mitt er þar. Faðir minn ætlast til að ég sé hjá honum", bætti hann við.

„Kannski mundi mér þykja gaman fyrir vestan?"

„Ég er hræddur um að þér mundi fljótlega fara að leiðast".

Hvers vegna voru þau annars farin að tala um þetta, hugsaði Móna. Kona verður að gefa manni ást sína skilyrðislaust. Það er ekki hægt að gera um hana kaupsamning, – eða láta skynsemina ráða. Ég get ekki lifað án hans. Mundi ég ekki vera hamingjusöm með Stefáni hvar sem væri, jafnvel uppi í sveit? – Og þó . . . Hún mundi ekki þekkja þar neinn. Og hvað átti hún að gera, þegar hann væri að vinna. Bara að hann gæti komið til Reykjavíkur.

„Stefán", sagði hún. „Ég vil að minnsta kosti vera hjá þér hverja stund, sem þú verður hér. Við getum búið hér saman, er það ekki? Það eina, sem skiptir máli er að ég sé hjá þér. – Og þegar þú verður að fara þá vil ég samt fá að fylgjast með hvernig þér gengur".

„Þú ert þá ekki hrædd við mig lengur?"
„Nei".

„Ég elska hann", hvíslaði hún hálfhátt út í myrkrið. Þessi tilfinning, að þau heyrðu hvort öðru til, var orðin að öruggri vissu. Hún gat ekki hugsað sér að fara að sofa. Hún hlustaði á reglubundinn andardrátt hans og var gripin löngun til að horfa á hann sofandi.

Hún teygði sig varlega að náttborðinu og kveikti á lampanum.

Já, einmitt svona hafði hún hugsað sér að hann liti út meðan hann svæfi. Varir hans voru hálf opnar og andlitsdrættirnir voru mjúkir eins og á barni. Hún reis upp á hnén í rúminu til þess að virða hann betur fyrir sér. Svo bar hún fingurgómana varlega að höku hans og strauk þeim léttilega um varirnar. Hún lagði lófann að hálsi hans og strauk hendinni niður á brjóst hans. Hann bærði ekki á sér. Henni fannst streyma frá honum hlýja og öryggi, sem fyllti allan heiminn friði. – Hvað hafði gerzt? – Það virtist vera svo lítið – og þó svo mikið. Það sem hún hafði óttast mest var hvað hann mundi segja við hana, – að hann liti á hana sem brúðu til að leika sér að. Hafði hann gefið henni fyrirheit? Einhvern veginn var óttinn við að missa hann aftur horfinn. Hún var ekki hrædd lengur, – og þó hafði hann ekkert sagt. Hún gat ekki hætt að horfa á hann, þar sem hann svaf við hlið hennar í rúminu. Hún vildi vera hjá honum, alltaf. Loks slökkti hún ljósið aftur. Morgunskíman var byrjuð að lýsa upp frostrósirnar á glugganum. Hún hjúfraði sig upp að honum og grúfði andlit sitt að hálsi hans. Það færðist yfir hana værð. Hann fann líkama hennar gegnum svefninn og tók utan um hana. Loks sofnaði hún í faðmi hans.

JÓN Orri Bergsson, skólastjóri heimavistarskólans að Arnarfelli, sat við skrifborðið á skrifstofu sinni og fletti nokkrum blöðum, sem lágu fyrir framan hann. Hann hallaði sér áfram með fræðimannlegum lota í herðum og skrifaði nokkrar athugasemdir hér og hvar. Skólanum hafði verið slitið seint í maímánuði og nú var komið fram í júníbyrjun.

Í byggingunni var á sumrin rekið lítið sumarhótel, sem Jón Orri veitti einnig forstöðu. Sumarhótelið var þegar tekið til starfa og fyrstu gestirnir komnir.

Jón Orri Bergsson var hár maður og grannvaxinn, hægur í fasi en skapmikill, ef honum mislíkaði. Andlit hans var óvenju stórt og toginleitt, hann var með há kinnbein og langt, þunnt nef, sem gerði svip hans sérstæðan. Hörund hans hafði skorpnað með árunum og hárið var orðið grátt, næstum hvítt. Hann bar að jafnaði þung gleraugu með þykkum lensum, sem gerðu augu hans stór og starandi.

Jón Orri var niðursokkinn í sínar eigin hugsanir. Þetta var einn af þeim dögum, þegar hann lét hugann reika yfir farinn veg, og hann velti alltaf fyrir sér sömu spurningunni. – Hvernig hafði þetta gerzt? Í hverju lágu mistökin? Til hvers hafði starf hans verið, barátta hans? – Eða höfðu hinir – sigurvegararnir – kannski réttara fyrir sér? Skólastjórinn gretti sig. Hann færi bráðum að verða gamall. Hann var þegar kominn yfir sextugt og eftir nokkur ár yrði hann látinn hætta. Honum geðjaðist ekki að þeirri tilhugsun, starfs-

þrek hans hafði aldrei verið meira en nú, fannst honum. Að vísu hafði hár hans einu sinni verið svart, en var nú orðið næstum hvítt. Kannski hefur sálartetrið gránað líka, hugsaði hann. Kannski tek ég ekki einu sinni eftir því að ég er að verða gamall maður . . . innilokaður í mínum eigin heimi . . . grámyglulegur, gamall maður . . . Andlit manns verður með árunum eins og gríma . . . sem byrgir allar hugsanir og tilfinningar. Hann hristi höfuðið og hvítur lokkur féll fram á enni hans. Hann hafði verið um þrítugt, þegar hann hafði flutzt frá Reykjavík og gerzt skólastjóri hér að Arnarfelli.

Og aðeins tveimur árum seinna kom herinn . . . Þeir höfðu strax fyrsta árið hertekið skólann og síðan setið þar öll stríðsárin. En hann hafði neitað að víkja . . . Staðið á rétti sínum . . . setið sem fastast með konu sinni í litlu íbúðinni þeirra í norðurenda hússins. Þeir höfðu hótað honum . . . ógnað honum með byssu . . . reynt að bera á hann fé . . . Og að lokum ákveðið að láta hann vera. Og eftir stríðið hafði skólinn tekið til starfa að nýju . . . Landar hans höfðu í fyrstu fagnað þessu . . . sumir hverjir að minnsta kosti . . . kallað hann landvarnarmann . . . Það var nú þá . . . Jón Orri hélt áfram að rifja upp . . . Herinn fór úr skólanum . . . Það var satt . . . En hann sat áfram í landinu . . . þvert ofan í öll loforð . . . þrátt fyrir öll mótmæli hans og margra annarra . . . Þeir, sem vildu að hann færi, höfðu alltaf orðið fyrir vonbrigðum . . . alltaf beðið ósigur. Hafði hann orðið bitur með árunum? . . . Já . . . á vissan hátt . . . Einkum eftir að Aðalheiður, konan hans, dó . . . Bitur? . . . Hvers vegna ætti hann ekki að vera það? . . . Hafði hann ekki horft á þennan erlenda her spilla þjóðinni ár eftir ár, áratug eftir áratug . . . Hafði hann getað lokað augunum fyrir því hvernig dollarinn streymdi inn í landið . . . og rann með

leynd til manna og stofnana? ... Og blöðin ... flest ... höfðu þau ekki smám saman sannfært þjóðina um, að hún gæti ekki lifað án erlends hers? ... Nú var hann ekki lengur kallaður landvarnarmaður ... Nei ... Bæði blöðin og almenningur voru farin að velja honum ný heiti ... Nytsamur sakleysingi ... Taglhnýtingur ... kommúnisti ... Hann hafði meira að segja nýlega lesið það í einu dagblaðanna, að hann og hans líkar væru hreinir föðurlandssvikarar ... landráðamenn ...

Nei ... Það kallaði hann enginn landvarnarmann lengur ... Og nú kenndi hann árlega nýrri kynslóð í skólanum ... kynslóð, sem hann fann að hann gat ekki mótað ... varla haft nokkur áhrif á ... Kynslóð, sem þekkti ekki land sitt ... öðru vísi en hernumið land ... Stefán sonur hans ... Það brá fyrir viðkvæmnisglampa í augum skólastjórans ... Hann og Aðalheiður höfðu ekki eignazt barn fyrr en eftir margra ára sambúð, en svo kom Stefán, eina barn þeirra, og lífið hafði orðið þeim bjartara ... Hann vonaði að Stefán héldi baráttunni áfram ... Nú hafði hann lokið stúdentsprófi. Hann færi í háskólann næsta vetur ... Kannski tækist Stefáni það sem honum hafði aldrei tekizt ... Nei, annars ... Hann hlaut líka að tapa ... Hugsanlegt samt, að Stefán tæki við skólanum þegar hann hætti ... Hann mundi skilja hina nýju kynslóð betur ... Skáldskapurinn? ... Bezt að lofa honum að ráða ... hann hafði sjálfur fengizt við að semja ljóð á yngri árum ... Skáldskapurinn mundi fljótlega víkja ... menn verða líka að lifa. – Skólastjórinn þekkti aðeins þrjá Íslendinga, sem höfðu raunverulega getað lifað á skáldskap ... Einn þeirra hafði fengið fé sitt frá Dönum ... annar frá Norðmönnum ... Sá þriðji frá Svíum ... Undarlega fátæk þjóð, Íslendingar, í allri velmeguninni.

Jón Orri hrökk upp úr þessum hugsunum við að komið var við hurðarhúninn og dyrnar opnaðar. Það var Stefán.

„Geri ég þér ónæði?"

„Nei, drengur minn".

Stefán fékk sér sæti við borðið andspænis honum.

„Ertu að semja nýja grein?" spurði sonurinn.

„Já".

„Til að berja á Filisteunum?" spurði sonurinn aftur brosandi.

„Það er í henni viss gagnrýni".

„En er ástæða til allrar þessarar gagnrýni? Því verður ekki neitað, að Íslendingar eru framsækin þjóð".

„Fólk er það, sem það venur sig á að vera og venjur okkar breytast ört, – og ekki til hins betra".

„Þú óttast framtíðina?" spurði sonurinn.

Jón Orri hallaði sér þreytulega aftur á bak í stólnum.

„Já".

Það vottaði fyrir ögrun í svip sonarins.

„En hvers vegna?"

„Heiður og sjálfsmetnaður . . . " byrjaði faðirinn, en hætti við setninguna hálfsagða og yppti öxlum.

„Já, heiður og sjálfsmetnaður?" endurtók sonurinn.

„Ég á við", reyndi faðirinn aftur, „að þjóð, sem lætur einræðisherra vagga sér í svefn, kann að vakna við atómsprengju".

Beizkjan leyndi sér ekki í rödd hans. Stefáni fannst þetta vera bölsýni og öfgar í gamla manninum. Hann reyndi að skipta um umræðuefni.

„Það er orðinn svo mikill hraði í framvindunni", sagði hann friðsamlega, „að við getum ekki fylgzt með lengur".

Skólastjórinn velti penna sínum milli fingra sér.

„Það skiptir mestu máli", sagði hann, „að gleyma því

ekki að við erum Íslendingar, að við sogumst ekki inn í þjóðahafið . . . hverfum".

„Við getum ekki heldur lifað einangraðir", maldaði Stefán í móinn.

„Það er annað en að vera rótlaus", sagði faðirinn. „Rótlausir menn hafa hvorki samband við fortíð eða nútíð og sízt við framtíðina".

Stefán leitaði að lausri sígarettu í vasa sínum.

„Er ekki framtíðin ímyndaður heimur?" sagði hann kæruleysislega. Honum fannst sá gamli alltof hátíðlegur í skoðunum eins og allir aldamótamenn.

„Nei. Hún er veruleiki", sagði faðirinn.

„Skáldskapur", fullyrti sonurinn, „og skáldskapur er annað en veruleiki".

„Hvaða skáldskapur er ekki veruleiki – einhvers staðar – einhvern tímann? Ég efast um að hægt sé að hugsa neitt, sem ekki byggist á raunverulegum lögmálum og staðreyndum".

„Þú ert aldamótamaður", sagði sonurinn stríðnislega. „Þið trúið allir á lögmál og staðreyndir . . . eins og menn gerðu á öldinni sem leið. Menn tuttugustu aldarinnar lifa í opnum heimi. Þótt A sé B þýðir það ekki lengur að B sé A".

Skólastjórinn leit upp og rödd hans varð fjörlegri. Þessar stælur þeirra feðganna var gamall leikur, sem báðir höfðu gaman að.

„Öll tízka er eitthvað gamalt í nýjum búningi", sagði skólastjórinn og tók af sér gleraugun til að fægja þau.

„Þú trúir þá ekki á nýja sköpun?" spurði sonurinn.

„Sköpun, jú, . . . en hvort hún er ný . . . ?"

„Hvers vegna verða allir menn svona vanabundnir með árunum, það bregzt ekki, að eftir þrítugt fara allir að berjast á móti lífinu", sagði Stefán ákafur, „hinu nýja lífi, sem

alltaf er að fæðast í sál manna og hvetur þá til athafna og ævintýra".

Faðirinn brosti að ákafa sonar síns. Einmitt svona hafði hann talað – fyrir þrjátíu árum.

Eftir nokkra stund hélt sonurinn áfram.

„Hraðinn hefur aukizt og menn verða að taka afleiðingunum, hvort sem þeim líkar betur eða verr, og þær eru síharðnandi barátta fyrir lífinu".

Hér áður fyrr", sagði faðirinn, „þóttust menn geta komizt af með lítið og átt samt góða daga".

„Það er ekki hægt lengur", sagði sonurinn, „menn verða að taka þátt í kapphlaupinu. Sumir með því að afla eins mikilla peninga og þeir geta, aðrir á annan hátt".

„Og jafnvel þótt þetta sé ekki nema kapphlaup í gangrimlahjóli?" spurði faðirinn.

„Tilgangur eða tilgangsleysi, við getum ekki vitað um það fyrir fram, það verður tíminn að leiða í ljós".

„En hvers vegna skyldu menn vera að þessu, fyrst það leiðir ekki til betra lífs, heldur þvert á móti?"

„Ég held", sagði sonurinn, „að innsta hvöt manna sé löngun til að vera virtir af öðrum, – viðurkenndir af samfélaginu".

„Gæti það ekki alveg eins verið ótti, ótti við að verða undir, dragast aftur úr. Samkeppnin er orðin svo hörð að þeir þykjast aldrei mega linna sprettinum fyrr en þeir springa".

„Jú", viðurkenndi sonurinn, „líka það. Virðingargirni og ótti . . . Jú. En hvað geta þeir gert? Það dugar ekki að setjast niður í sólskininu og dást að blómunum".

„Nei", hló faðirinn. „Ég býst ekki við að þeir komist nokkurn tíma til tunglsins með því móti – en hvaða erindi eiga menn annars til tunglsins?"

„Menn hafa þörf fyrir að sanna getu sína", sagði sonurinn – „fá viðurkenningu annarra".

„Ég þekkti einu sinni mann", sagði faðirinn, „sem fékk viðurkenningu allra landa sinna. En hann varð aldrei ánægður vegna þess að hann gat aldrei fengið viðurkenningu þess eina manns, sem allt var undir komið. Og þessi maður var hann sjálfur. Vegna þess að hann gat aldrei viðurkennt sjálfan sig gat hann aldrei orðið sáttur við lífið".

„Það er kannski það rétta", sagði sonurinn.

„Ég held", sagði faðirinn, „að það sé þýðingarmeira að lifa í sátt við sjálfan sig – gera eins og samvizkan býður manni – og vera sem minnst háður því hvað aðrir halda".

Sonurinn þagnaði. Hér mundu þessar tvær kynslóðir aldrei geta mætzt. Hans kynslóð gat ekki lifað í sátt við sjálfa sig, og þaðan af síður við lífið. Hans heimur var opinn. Heimur í sköpun. Það var svo margt í veröldinni og manninum sjálfum sem maðurinn varð að berjast við . . . Og hver veit nema við eigum þrátt fyrir allt erindi til tunglsins . . . og lengra. Ef þessi órólega blinda ástríða til að leita hins nýja, oft að því er virðist í algjöru tilgangsleysi . . . ef sú ástríða stjórnaði ekki öllu nýju lífi . . . væri þá ekki enn öll jörðin ónumin? Lífið ennþá aðeins í sjó? . . . Að vera sáttur við lífið og sjálfan sig er lífsstefna þeirra sem halda, að maðurinn eigi aðeins að vera það sem hann er . . . En það er rangt . . . hugsaði Stefán. Andstætt öllu eðli heims, sem er í sköpun . . . Maðurinn á ekki bara að vera það sem hann er . . . Hann á fyrst og fremst að verða það sem hann getur orðið.

Faðirinn breytti um umræðuefni og spurði.

„Hvernig gengur annars með skáldsöguna?"

Stefán leit á föður sinn.

„Hún er ekki komin langt ennþá". Svo bætti hann við. „Mig

langar reyndar líka til að ráðast á þjóðfélagið, heimta uppgjör".

Faðirinn varð alvarlegur. Hann beit í röndina á gleraugunum og varð þögull um stund. Svo sagði hann.

„Ég ræð þér til að fara varlega".

„Varlega?"

„Já drengur minn, varlega".

Þetta kemur úr hörðustu átt, hugsaði Stefán. Faðir hans var ekki rétti maðurinn til að segja öðrum að fara varlega. Hafði hann ekki einangrazt vegna þess að hann kunni aldrei að segja annað en það sem honum bjó í brjósti? En upphátt sagði hann.

„Ég held að það sé alveg rétt sem Ibsen karlinn sagði. Meirihlutinn hefur alltaf rangt fyrir sér. Það er meira að segja oftast mjög fámennur minnihluti sem hefur rétt fyrir sér í hverju máli – oft aðeins einn maður".

„Það kann að vera. En það er varasamt að fylgja slíkum manni".

„En hvers vegna, ef hann hefur rétt fyrir sér?"

„Það er einmitt vegna þess að menn hafa rétt fyrir sér að þeir eru ofsóttir".

„Gerir það þá nokkuð til. Það fær enginn neitt baráttulaust".

„Það er óráðlegt, sonur minn, að fylgja manni sem er ofsóttur. Það er alveg sama þótt hann hafi rétt fyrir sér. Hann eignast sterka og illvíga fjandmenn. Hann er rægður og að lokum kallar hann ekki aðeins ógæfu yfir sjálfan sig heldur alla sem fylgja honum".

„En sannleikurinn hlýtur þó að sigra illan og rangan orðróm, eða er það ekki það sem okkur er kennt?"

Faðirinn hallaði sér aftur á bak í stólnum og horfði upp í loftið.

„Jú, en það er aldrei hægt að sigra illan orðróm. Hvað heldur þú að til séu margir andlegir sadistar í þessu landi? – Fleiri en þeir vita sjálfir. Og hvað er sadista kærkomnara en að dulbúa hvatir sínar? Og hvernig? Hann dulbýr þær ævinlega með því að klæða þær siðferðislegri vandlætingu. Fordómar hans sem hann ber fram til að svala sjálfum sér, eiga ævinlega að vera bornir fram til að bjarga einhverju . . . Siðferðinu, trúnni, menningunni".

Faðirinn leit á son sinn íhugandi. Ég hef gert skyldu mína, hugsaði hann. Ég hef varað hann við. Gefið honum heilræði. – En ég vona að hann fari ekki eftir því.

Gamli maðurinn hefur orðið bitur með árunum, hugsaði Stefán.

„Þessir hræsnarar", hélt skólastjórinn áfram, þykjast allir fylgja réttlætinu en þeir fylgja aðeins þeim sem þeir eru nógu hræddir við".

„Ég trúi ekki öðru", sagði sonurinn, „en að það verði alltaf til viss kjarni mannlegra verðmæta, sem menn virða – láta að minnsta kosti í friði".

Faðir hans hristi höfuðið. Hann var sjálfur alinn upp í hörðum skóla, þar sem skyldan við landið var æðsta boðorðið og heiðarleiki aðeins sjálfsagður hlutur.

„Þessu trúði ég einu sinni sjálfur", sagði hann. „Nú veit ég að það verða alltaf til menn sem í mætti fáfræði sinnar hika ekki við að ráðast á hvað sem er".

Þögn.

Skólastjórinn virti son sinn fyrir sér með hlýju í augnaráðinu. Hann óskaði þess í huga sér að Stefán yrði kyrr í byggðarlaginu, eftir að hann lyki skólanum. Að sonur hans endurlifði hans eigið líf. Að hann lifði áfram í syninum. Við hverfum sonur minn, hugsaði hann. Fyrst ég og síðan þú. –

En það sem við erum mun aldrei deyja. Það sem Íslendingar hafa verið í þúsund ár mun aldrei deyja. – Þrátt fyrir allt.

„Hefur þú nokkuð hugsað um framtíð þína?" spurði skólastjórinn, án nokkurs samhengis.

„Ekki mikið".

„Um hvort þú verður hérna eftir að náminu er lokið?"

„Mig hefur oft langað til þess, en ég veit það ekki".

„Veiztu það ekki?"

„Nei. Sumir eiga auðvelt með að ákvarða framtíð sína, en ... "

„En þú getur það ekki?" greip faðir hans fram í.

„Það er svo margt sem mig langar til að gera".

„Ég bjóst við því".

„Ég hitti stúlku í Reykjavík", sagði Stefán allt í einu og lét eftir löngun sinni til að ræða um Mónu við föður sinn.

„Stúlku. Humm. Þú ættir nú fyrst að ljúka náminu".

„En Móna er yndisleg stúlka".

„Nú, jæja. Ungt fólk verður auðveldlega ástfangið og er fljótt að gleyma".

„Nei. Það er ekki þannig. Móna er ekki þannig".

„Hver er hún, Móna?"

„Já. Hún er dóttir Alexanders Ormssonar".

„Fésýslumannsins?"

„Já".

Skólastjórinn varð þungur á brún og náfölnaði. Sonur hans og þessi ... Nei hann varð að vera rólegur, fá tíma til að hugleiða málið. Þetta mundi sennilega líka verða að engu af sjálfu sér. Alexander var í hópi þeirra manna sem Jón Orri taldi að hefðu brugðizt landi sínu, með því að gerast undirlægjur hins erlenda hers.

„Ungir menn verða að ráða sér sjálfir", sagði hann loks.

Hann opnaði skúffu á skrifborðinu og dró upp manntafl. Það var siður þeirra feðganna að tefla saman, og innan stundar var skákin byrjuð. Stefán hafði hvítt og hóf sókn. Þegar hann tefldi fram drottningunni, sagði faðir hans hugsandi á svip.

„Gættu vel að drottningunni þinni, drengur minn. Það er stundum erfitt að stjórna kóngafólki".

Stefán hló vandræðalega.

„Ef þú átt við Mónu", sagði hann, „þá er hún alls ekki eins og þú virðist halda að hún sé, – og Alexander ekki heldur. Ég hef hitt þau . . . "

„Hefurðu farið heim til Alexanders?" spurði Jón Orri vantrúaður.

„Já".

„Ég þekki hann aðeins af afspurn", sagði faðirinn.

„Þau eru öll ósköp blátt áfram og þægilegt fólk, – ágætt fólk. Móna er ekki lík neinni stúlku sem ég hef séð".

„Þú átt leikinn", sagði faðirinn og var aftur farinn að brosa.

ALFGEIR Erlendsson settist inn í bílinn þar sem hann stóð á bifreiðastæðinu við „Klúbbinn". Þetta var ný bifreið með óvenjulega kraftmikilli vél, hvítur jagúar. Alfgeir var talsvert ölvaður, en hann var því vanur að aka undir áhrifum ... Ég er góður ökumaður, hugsaði hann ... og það verður ekki sagt um alla hér á vegunum ... Hvert átti hann að halda? ... Hann hafði drukkið og skemmt sér í Klúbbnum þar til honum var farið að leiðast og nú vissi hann ekki til hvers hann langaði ... Hvert átti hann að aka? Hann vissi ekki hvert hann ætlaði ... Það skipti ekki máli ... Hann vissi ekki heldur hvers hann þarfnaðist ... Bara að aka ... hratt.

Honum var alltaf fróun að því að finna hvernig bíllinn erfiðaði undir honum, – eins og dýr ... eða kona ... Bara að aka ... aka hratt.

Bíllinn þaut af stað og stefndi til suðurs. Hvers vegna skyldi hann ekki mega aka hratt – jafnvel hættulega ... Það verður hver maður öðru hvoru að gera eitthvað til þess að sanna sjálfum sér að hann sé til ... Sanna að maður sé til ... Samt skilja þeir það ekki ... hinir ... Skilja mann ekki ... Allir innilokaðir í sinni eigin veröld ... einir ... Og þeirra veröld var ekki hans ... Ég er einskonar stökkbreyting, hugsaði hann áfram. Ég verð að brjótast út ... út úr þessu meiningarlausa lífi ... Hu? ... Sjáið foreldra mína ... og alla þessa vini þeirra ... lifa öll eins og flugur í ísklumpi ...

frosnar inni í þessum tilgerðarlegu, ósönnu venjum sínum ... Ég neita ... Nei. Nei. Nei ... Ég verð að brjótast út ... gera uppreisn, hvað sem það kostar ... brjóta allt í mél ... klíkuna sem stjórnar þessu.

Hann var kominn suður að Reykjanesbraut og herti á bifreiðinni ... Sama framleiðsla og foreldrarnir ... lifum á arfi ... dýrar venjur ... látum eins og forréttindi, sem eru liðin undir lok séu enn til ... Að ég viti ekki hvað ég vilji? ... Hafi fallið á prófi? ... Hætt í skóla? ... Það er af því að ég er stökkbreyting ... hið nýja kyn ... Hvaða gildi hafa þessar bækur þeirra fyrir mig? ... Móna ... hugsaði hann allt í einu ... Hvers vegna varð hún ekki heldur konan hans? ... Að ég hafi svikið hana? ... Hvað annað gat ég gert? Þau neyddu mig til þess ... Velsæmi ... Sonur áberandi manns ...

Það er eins og að dæma mann til dauða ... frysta mann inni í ísklumpinum, sem þau eru öll föst í ... Út! ... Ég heimta líf. LÍF!

Hann veitti bílnum framundan litla athygli. Allir bílar voru féndur sem varð að sigra. Það var siður hans, ófrávíkjanleg regla, að keyra fram úr öllum bílum, sem hann sá.

Vegaeftirlit lögreglunnar í Reykjavík var á leið eftir Reykjanesbrautinni. Klukkan var að verða tvö og umferð lítil. Lögreglumennirnir þrír, sem í bílnum voru óku rólega suður brautina, þegar þeir veittu athygli hvítri jagúarbifreið sem nálgaðist á miklum hraða. Lögreglumennirnir glaðvöknuðu.

„Honum liggur ekki lítið á þessum“, tautaði sá sem ók lögreglubílnum, þegar jagúarinn skauzt framhjá honum á leið til Hafnarfjarðar. Það ískraði í hjólunum, þegar hann

sveigði aftur inn á veginn rétt fyrir framan þá. Sá sem ók lögreglubílnum steig ósjálfrátt fastar á bensíngjöfina.

„Þetta er bíll Alfgeirs Erlendssonar", sagði sá, sem sat við hlið bílstjórans. „Hann hlýtur þegar að vera kominn talsvert yfir hundrað".

„Gefið honum merki", sagði sá þriðji, sem var fyrirliði þeirra.

Lögreglubíllinn herti ferðina um leið og hann gaf jagúarnum merki um að nema staðar. En ökuþórinn nam ekki staðar heldur herti á bílnum sem þegar var kominn á ofsahraða.

„Settu á hann geisla", sagði fyrirliðinn.

Lögregluþjóninn, sem sat í miðið setti samstundis radargeislann á jagúar bifreiðina. Hann beygði sig áfram í sætinu svo hann sæi betur radarinn, sem komið var fyrir undir mælaborðinu fyrir framan hann. Þetta var lítið tæki með mæliskífu og vísi, sem slóst til og frá. Bíllinn á undan var þegar kominn á móts við Silfurtúnið og virtist enn auka hraðann, þar sem hann ók eftir auðri brautinni.

Sá sem ók lögreglubílnum hóf nú eltingaleikinn fyrir alvöru.

„Þessir moðhausar", tautaði hann, „geta ekki skilið að svona ökuferð getur aldrei endað nema á einn veg".

Frá hans sjónarmiði var vonlaust fyrir hvern sem var að reyna kappakstur við þennan nýja bíl lögreglunnar, – að minnsta kosti meðan hann sjálfur sat við stýrið.

„Hvað er hraðinn?" spurði fyrirliðinn.

Sá sem spurður var formælti. Hann fylgdist með vísinum á skífunni, sá hann færast ofar og ofar og nema loks staðar á 160. Það var mesti hraði sem radarinn sýndi.

„Yfir hundrað og sextíu, – mælist ekki", sagði hann og bar ótt á.

„Og línuritið?"

Lögregluþjónninn sem sat í miðið sneri sér við í sætinu og leit á sjálfritarann, sem komið var fyrir aftur í bifreiðinni.

„Sama".

Svipurinn á lögregluforingjanum harðnaði.

„Eltu hann, – hraðar. Þennan mann verðum við að stöðva í eitt skipti fyrir öll".

Lögreglubíllinn brunaði fram hjá Silfurtúninu eins hratt og hægt var að koma honum en samt dró ekki saman með bílunum.

„Maðurinn hlýtur að vera bandóður", sagði sá sem ók lögreglubílnum og beit saman tönnunum. „En sleppa skal hann ekki".

Foringinn var byrjaður að kalla í labb-rabb tækið og leita að lögregluþjónum á bifhjólum, en þá var enga að finna á næstu grösum.

„Við verðum að ná honum hjálparlaust", sagði hann.

Þeir sáu hann beygja inn á Hverfisgötuna í Hafnarfirði og eftir örskamma stund sveigðu þeir sjálfir inn á götuna. Það var þá sem þeir sáu slysið.

Drukkinn næturhrafn á heimleið kom á ská yfir götuna valtur á fótum og pataði með höndunum í átt að bílnum eins og hann væri að gefa honum merki um að stanza. En ökumaðurinn sem hafði í speglinum séð lögreglubílinn renna inn á götuna virtist ekki hafa neina löngun til að draga verulega úr ferðinni. Hann ók að manninum, sem staddur var næstum á miðri götunni og reyndi að sveigja fram hjá honum. En sá drukkni hafði snúið sér að vagninum og slangraði í veg fyrir hann. Það skeði samtímis að ökumaðurinn virtist um stund missa stjórn á bifreiðinni, sem hentist að hálfu upp á gangstéttina og vegfarandinn lenti utan í hlið hennar.

Lögreglumennirnir sáu hann þeytast eftir götunni og staðnæmast loks í göturæsinu. Bílstjórinn á jagúarbifreiðinni náði nú aftur stjórn á vagni sínum. Hann var gripinn ótta vegna þess, sem skeð hafði, og flýtti sér sem mest hann mátti burtu frá slysstaðnum.

Lögreglubíllinn nam staðar. Einn lögreglumaðurinn fékk fyrirmæli um að fara út úr bifreiðinni og sjá um hinn slasaða. Hann beygði sig yfir manninn. Það hafði myndazt blóðpollur þar sem hann lá og það blæddi úr vitum hans. Þeir í lögreglubílnum kölluðu upp sjúkrabifreið. Jagúarinn var þegar kominn á fleygiferð og stefndi nú aftur í átt til Reykjavíkur. Þeir höfðu þegar glatað dýrmætum tíma.

„Við verðum að ná honum, hvað sem það kostar". Sagði fyrirliðinn einbeittur, og svipur bílstjórans sýndi að hann var á sama máli.

„Níðingur", tautaði hann um leið og hann steig bensínið í botn svo að bíllinn hentist áfram eftir veginum.

Ég verð að sleppa, hugsaði Alfgeir ... Verð að sleppa frá þeim ... Þessi svín ... Það er ekki akandi lengur fyrir þessum slangrandi svínum á öllum vegum. Þetta var ekki hans sök. Þessi ræfill hafði bókstaflega lagt sig fyrir bílinn ... Kannski viljandi? ... En hvert gat hann ekið? ... Það mátti treysta jagúarnum. Hann mundi komast á undan í bæinn en hvað svo? ... Hvert átti hann að fara? ... Hann varð að finna felustað sem fyrst ... Móna? ... Hvers vegna ekki? ... Hún mundi ekki bregðast honum núna ... Ekki í neyð ... Hún var ekki þannig. Hann gæti lagt bílnum við næstu götu og hlaupið yfir garðinn ... Jafnvel þótt þeir sæju hann mundu þeir ekki vita hvert hann færi ... Það gat verið um önnur hús að ræða ... Þeir skyldu aldrei ná honum ... Og morgundagurinn? Þá mundu einnig verða einhver ráð.

Móna vaknaði við að dyrasíminn hringdi. Hún leit á klukkuna og geyspaði. „Þrjú", sagði hún hálfhátt. „Hver getur verið á ferð um þetta leyti". Hún smeygði sér í slopp og tók upp heyrnartólið. Röddin í símanum var áköf.

„Móna í öllum hamingju bænum opnaðu strax".

„Alfgeir". Hún hálf hrópaði nafn hans undrandi og bætti svo við kuldalega. „Ég veit ekki hvaða erindi þú getur átt hingað, og það um hánótt".

„Opnaðu Móna, fljót. Lögreglan er á eftir mér".

„Lögreglan?"

„Fljót Móna. Þú verður að hjálpa mér. Ég skal útskýra þetta allt. Í hamingju bænum opnaðu fljótt".

Móna opnaði ósjálfrátt. Hún var að vísu búin að ákveða að sjá hann ekki framar – að slíta öllum kunningsskap við hann, en hann þarfnaðist hjálpar.

Hann flýtti sér upp stigann og inn í íbúðina. Dyrnar höfðu staðið opnar og hann lokaði þeim á eftir sér, og nú stóð hann fyrir framan hana, grannvaxinn ungur maður í svörtum jakkafötum með flókahatt á höfði, sem var brettur upp að framan og niður að aftan. Hann var kuldalegur í fasi þrátt fyrir óttann og þreytuna. Hann tók ekki ofan hattinn.

„Hvað hefur komið fyrir? Er nokkuð að?" spurði Móna. „Ertu veikur?"

„Nei".

„En hvað? . . ."

Hann greip fram í fyrir henni.

„Ég sagði þér það. Þeir eru á eftir mér, – lögreglan". Það var æði í augum hans.

„Þakka þér fyrir að þú opnaðir Móna", bætti hann við. „Þeir eru að koma". Hann leit í kringum sig og hlustaði.

Móna starði á hann.

„Heyrirðu?" hvíslaði hann.

Þau heyrðu bæði í lögreglubílnum, sem nam staðar fyrir utan húsið.

„Þeir eru komnir að húsinu", hvíslaði hann aftur og stökk út að glugganum. „Þarna er hann". Hann kom aftur frá glugganum til hennar. „Þeir eru að leita að mér, Móna".

„En hvers vegna?"

Hann æddi fram og aftur um gólfið eins og dýr í búri.

„Hvers vegna? Alls ekki af neinu. Þeir reyndu að stöðva mig það er allt og sumt. Og ég lofaði þeim að elta mig. – Auðvitað ók ég hraðar en þeir gátu. – Ók þá af mér. Ég vil ekki láta þá ná mér".

Hún horfði á hann um stund hugsandi. Hann er veikur hugsaði hún. Hann þarfnast hjálpar, kannski læknis – geðlæknis. Hann hafði svikið hana, og farið með annarri upp að altarinu. Hvers vegna kom hann hingað, núna . . . Kannski elskaði hann hana enn . . . Kannski var það ekki hans vilji að hann . . . Örlögin? Það voru örlögin, sem enginn réði við. Hún varð að reyna að hjálpa honum. Þau heyrðu að einhver kom upp stigann.

„Þeir eru að koma. – Móna þú verður að fela mig einhvers staðar".

„Ég veit ekki hvers vegna þú kemur hingað", endurtók Móna. Hún hafði gengið út að svalarhurðinni og opnaði hana hljóðlega. Hann fylgdi henni eftir.

„Ég hef komið hingað áður Móna, – datt ekki neinn annar staður í hug. Auk þess langaði mig til að sjá þig".

„Já. Ég verð að fela þig", sagði hún. „Þú verður að fara út á svalirnar".

„Já, Móna. Já".

Það var einhver við dyrnar – og allt í einu var bjöllunni hringt. Lögreglan, hugsaði Móna skelfd. Alfgeir var horfinn út á svalirnar. Bara að þeir færu ekki að leita. Það var

aftur hringt bjöllunni og nú lengur en áður. – Móna lokaði svaladyrunum hljóðlega og gekk síðan fram til að opna. Tveir lögregluþjónar birtust í dyragættinni. Sá fyrri var herðabreiður miðaldra maður kringluleitur og rauður í andliti. Hann hafði orð fyrir þeim.

„Afsakið ungfrú, en við erum að leita að manni, sem slapp frá okkur".

„Strokufanga?" spurði Móna sakleysislega.

„Ekki beinlínis. – Ökufanti".

„Hvað hefur hann gert?"

„Gert! Hann hefur ekið um bæinn á æðisgengnum hraða og valdið slysi. Ekið á mann. – Hann er vafalaust drukkinn".

„Hættulegur", bætti hinn við. Hann var sá yngri og allur fyrirferðarminni. Framkoma hans afsakandi.

„En hvers vegna komið þið hingað?" spurði Móna djarflega.

„Við höldum að hann hafi sloppið frá okkur hingað inn í þetta hús".

„En hvers vegna til mín? – Það eru fleiri íbúðir hér í húsinu".

„Já, – en við sáum ljós hérna í íbúðinni. Eruð þér vissar um það ungfrú, að þér hafið ekki orðið varar við neinn?"

„Alveg viss", sagði Móna. „Það er enginn hér eins og þið sjáið".

Það var of seint að snúa við nú. Hún varð að halda leiknum áfram. Stærri lögregluþjónninn hikaði.

„Þér verðið að afsaka ungfrú, við erum aðeins að gera skyldu okkar að finna þennan mann. – Ef þér hefðuð ekkert á móti því þá vildum við fá að leita af okkur allan grun. Hafið þér nokkuð á móti því?"

„Alls ekki. Gjörið þið svo vel, það eru ekki margir felu-

staðir hér". Móna reyndi að hlæja. „Þið getið gægzt undir rúmið ef þið viljið".

Lögregluþjónarnir komu nú inn í stofuna og skimuðu í kringum sig.

„Enginn hér", tautaði sá yngri afsakandi og brosti til Mónu í laumi. Fyrirliðinn gekk beint að svefnherbergisdyrunum og opnaði. Móna fylgdi á eftir.

„Hvað sögðuð þið að þessi maður hefði gert?" spurði hún aftur.

„Brotið umferðarlögin, og ekið á mann. Kannski orðið honum að bana. Auk þess sinnti hann ekki stöðvunarmerki okkar og við höfum orðið að elta hann um hálfan bæinn".

Mónu var farið að líða illa. Rúmið í svefnherberginu var breitt og lágt og lögregluþjónninn hafði kropið niður við hlið þess grettur á svip. Hann skoðaði vandlega undir rúmið.

„Enginn hér", sagði hann og roðnaði dálítið. „Þykir þetta leitt, en við verðum að gera skyldu okkar". Hann stóð á fætur.

„Auðvitað", sagði Móna full samúðar.

„Hmmm. Hmmm. Hvað er á bak við þessi tiöld?" spurði hann tortrygginn.

„Gluggatjöldin?"

„Má ég gá bak við þau?'

„Ef þér viljið".

„Þakka yður fyrir".

Hann svipti þeim til hliðar.

„Ekkert!"

„Klæðaskápurinn", sagði ungmennið og var þegar farinn að handleika föt Mónu.

„Ekkert!"

Þeir gerðu eldhúsinu sömu skil og litu inn á baðið. Loks komu þeir aftur inn í stofuna.

„Og ef hann næst", spurði Móna. „Hvað verður þá gert við hann?"

„Við stingum honum í svartholið auðvitað. – Annars er það dómstólanna að segja til um það. En hvers vegna hafið þér svona mikinn áhuga á því?" spurði sá eldri og horfði á Mónu rannsakandi.

„Ég bara spurði".

„Við erum vanir að leita nákvæmlega", sagði lögregluþjónninn og skimaði í kringum sig í stofunni hugsandi á svip. „Þessar dyr liggja út á svalirnar er það ekki?" spurði hann og horfði beint á Mónu.

„Já", svaraði Móna og fölnaði.

„Það væri hugsanlegt að hann hefði farið þangað?"

„Nei", stundi Móna.

Lögregluþjónninn hvarf út í myrkrið og Móna hélt niðri í sér andanum.

Það er úti um okkur, hugsaði hún. Þeir hljóta að finna hann. Hvað ætla þeir sér að gera. Fara með okkur bæði. Var hún ekki orðin meðsek? Auðvitað, þetta var óskynsamlegt af henni, en hvað gat hún gert annað? Breiðar herðar lögregluþjónsins birtust aftur í dyrunum.

„Ekkert", sagði hann ólundarlega.

Móna dró andann léttara og reyndi að leyna undrun sinni. Þetta var ótrúlegt. Hvað hafði orðið af honum. Hann hafði þó ekki getað stokkið niður.

„Ég var búin að segja ykkur þetta", sagði Móna sigri hrósandi. „Það er enginn hér eins og þið sjáið".

„Við þekkjum hann og náum honum auðveldlega", sagði lögreglumaðurinn drýgindalega. Móna hló og vissi ekki að hverju.

„Áreiðanlega lögregluþjónn".

„Sá hlær bezt, sem síðast hlær", sagði hann gramur.

Er það ekki venjulega sá heimskasti, sem hlær síðast, hugsaði Móna og leit á þá brosandi.

„Okkur þykir mjög leitt að hafa gert yður þetta ónæði", sagði sá yngri. Hann lagði aðra höndina á maga sér í kveðjuskini og hneigði sig.

„Við biðjum yður afsökunar ungfrú", sagði fyrirliðinn.

„Það er ekkert að afsaka lögregluþjónn. Góða nótt".

Þeir hurfu saman út um dyrnar. Hún hlustaði eftir fótataki þeirra og heyrði þá fjarlægjast. Hún beið enn þar til hún heyrði þá fara út og ræsa vélina í bifreiðinni. Þeir óku samstundis af stað og Móna flýtti sér út á svalirnar. En þar var engan að sjá: Hún horfði í kringum sig og loks niður á götuna.

„Jæja, þeir eru loksins farnir", heyrði hún sagt fyrir ofan sig í myrkrinu. Alfgeir renndi sér niður af þakinu og stóð við hlið hennar.

„Þakka þér fyrir. Það var fallega gert af þér að hjálpa mér", sagði hann. „Ég hefði ógjarnan viljað láta þá ná mér".

„Það var hættulegt að aka svona um bæinn", sagði Móna.

„Það er margt hættulegra".

„En hvers vegna að gera það, það er engin ástæða til þess".

„Það er orðið erfitt að aka um bæinn", sagði hann. „Fullt af þessum svínum á veginum, sem þvælast alls staðar fyrir. Það þarf að kenna þessu fólki. Sumir læra ekki einu sinni að víkja til hægri". Hann hló. „Ég ók þvert fyrir einn. Þú hefðir átt að sjá svipinn á honum. En ég veit hvað ég er að gera. Ég er góður ökumaður. Það er þess vegna sem ég slapp".

„Og þú ókst á mann?"

„Hver sagði það?"

„Lögreglan".

„Það er ekki rétt".

Hann lagði aðra höndina á öxl hennar og brosti. Henni

féll illa bros hans og hún sneri sér undan. Hann fór á eftir henni inn í stofuna og lokaði hurðinni.

„Þú ert ekki sloppinn", sagði hún.

„Ég er ekki maður sem gefst upp baráttulaust. – Á flótta en ekki sigraður".

„Þeir þekkja þig og ná þér á morgun".

„Já á morgun", sagði hann og hló. „Á morgun geta þeir ekki gert mér neitt".

„Vegna föður þíns?" spurði hún háðsk.

„Vegna atvinnu sinnar".

„En maður í hans stöðu getur ekki látið brjóta lög".

„Þvert á móti. Hann getur það einmitt vegna stöðu sinnar".

Þögn.

„Þú virðist ekki sérlega ánægð yfir að ég skyldi komast undan?"

Þögn.

„Vildir þú heldur að þeir hefðu náð mér?" spurði hann.

„Þú veizt", sagði Móna, „að þú getur ekki verið hér".

Þau horfðu hvort á annað þegjandi. Hún gat ekki fundið til neinnar samúðar með honum lengur.

„Mér hefur hvergi liðið betur en hér", sagði hann loks.

„Farðu heim til konunnar þinnar".

„Ég vil heldur vera hjá þér".

„Of seint".

„Þú veizt Móna að ég var neyddur til að eiga hana".

„Neyddur? Þú eignaðist með henni barn".

„Já, en ég hef aldrei elskað hana".

„En hún er konan þín".

„Ég gæti fengið skilnað".

„Nei".

Hún er breytt, hugsaði hann. Það er eins og hún sé feimin. En feimni hennar er ekki lengur feimni þessarar ungu meyjar

sem ég þóttist þekkja svo vel. Hún er ekki lengur örvandi. Þvert á móti. Hún er eins og veggur sem erfitt er að komast yfir. Já. Hún er orðin breytt. Erfið – en ekki ósigrandi. Hún hafði þó einu sinni elskað hann – eða hvað?

„Heyrðu stúlkan mín", sagði hann í léttari tón. „Það er kominn tími til að taka upp flösku. Ég þarf að tala við þig".

„Þú getur ekki verið hér", endurtók Móna.

„Viltu hlusta á mig Móna?"

„Nei".

„Ég hef hegðað mér illa", sagði hann í afsökunartón.

„Jæja".

„Kannski finnst þér ég leika lélegt hlutverk í lélegum skopleik?"

„Þú þarft ekki að vera að leika neitt. Bara vera þú sjálfur. Það er miklu auðveldara þannig".

„Nei, það er ennþá erfiðara".

„Þú verður að fara".

„Aðeins eitt glas Móna, og svo er ég farinn".

„Jæja", sagði hún hikandi. „Aðeins eitt glas".

Alfgeir tyllti sér niður og lét fara vel um sig meðan Móna fór fram í eldhús.

Hún setti flöskuna fyrir framan hann á borðið og hann fyllti glasið í flýti og drakk út. Hann fór að hugsa um hana eins og hún hafði verið. Einu sinni hafði hún einmitt setið þarna þar sem hún sat núna. Ekki hlédræg og eins og á verði ... Hún hafði setið þannig að kjóllinn lyftist langt upp fyrir hnén og það sá í ber læri hennar. Það hafði allt verið svo auðvelt þá ...

„Við höfum breytzt", sagði hann.

„Það breytist enginn. Menn verða það sem þeir eru", sagði Móna. Hún hafði eitt sinn heyrt föður sinn segja þetta og

hana furðaði sjálfa á því, að hún skyldi endurtaka þetta nú. En hann virtist ekki hlusta á hana.

„Það var kominn tími til að fá eitthvað að drekka", sagði hann og hellti aftur í glasið. „Við vorum einu sinni góðir vinir, Móna", bætti hann við.

„Já, við vorum það".

Augu hans voru orðin syfjuleg.

„Við áttum saman góðar stundir", sagði hann um leið og hann hellti vatni í ginið.

Þögn.

„Við höfum leikið okkur. Hvers vegna getum við ekki haldið því áfram?"

„Nei".

„Nei hvað?"

„Ég get það ekki".

„Þú gazt það einu sinni".

„Já, ég var – en . . . "

„Ég hélt það væri bara ég, sem þú elskaðir", sagði hann.

„Þú ert enn þræll þessarar eilífu sjálfsdýrkunar þinnar", sagði Móna reiðilega.

Alfgeir hló.

„Reiðin gerir þig fallega. Þú ættir alltaf að vera reið. Annars ættum við heldur að drekka vináttubikar", bætti hann við og lyfti glasi.

„Við höfum drukkið hann áður", sagði Móna.

„Já".

Móna leit á hann ásakandi.

„Og hvað er á botninum?" spurði hún.

„Hvað?" spurði hann.

„Svik!"

„Nei, Móna", sagði hann alvarlega. „Ekki svik. Ég hef aðeins alltaf misst allt sem mér hefur þótt vænt um".

„Þú ert enn að látast vera eitthvað annað en þú ert".

„Hvers vegna ætti ég að gera það?"

„Kannski átt þú líka erfitt með að þola sjálfan þig, – lítinn karl á stórum bíl".

Það var eins og það kviknaði allt í einu skilningsglampi í þessum s ofandi augum. Hann reisti sig örlítið í sætinu og spurði.

„Það er vegna hans, sem þú hefur breytzt svona?" Hann benti á mynd sem hann hafði komið auga á í stofunni, – mynd af Stefáni. Það er þessi sem þú hittir á Loftleiðahótelinu?" spurði hann aftur. Hann stóð upp og tók myndina.

„Fáðu mér hana".

„Nei".

„Fáðu mér hana", bað hún.

„Hver er hann?"

„Hann er vinur minn", sagði Móna og roðnaði ofurlítið.

„Ekkert meira?"

Móna lét myndina af Stefáni aftur á sinn stað.

„Það er orðið áliðið", sagði hún svo og leit á úrið.

„Hvað heitir hann þessi náungi?"

„Ég vil aðeins fá að vera ein", sagði hún.

„Og ég var að spyrja þig hvað hann héti þessi vinur þinn".

„Stefán".

„Og ofan úr sveit?"

Þögn.

„Hvað er á milli ykkar?"

„Ég hef sagt þér það".

„Ég vil fá að vita þetta".

„Hvað?"

„Hefur hann sofið hjá þér?" Hann gekk til hennar. „Hvað er á milli ykkar?"

„Hættu þessu", stundi hún.

Hann tók um herðar henni og hristi hana. Svipur hans varð ógnandi.

„Segðu mér sannleikann. Hann hefur sofið hjá þér, merin þín?"

Það heyrðist hár smellur þegar hún sló hann utanundir. Tárin brutust fram í augum hennar, en hún reyndi að halda aftur af þeim.

„Þú skalt ekki voga þér að tala svona við mig".

Hann sleppti henni og svipur hans dökknaði af reiði. Hann hóf upp hönd sína, en svo féll hún aftur. Hún strauk tárin af kinnum sínum. Hann reyndi að brosa.

„Þú elskar mig ennþá, – skalt". Hann tók snöggt viðbragð og tók utan um hana með annari hendi og dró hana með sér að legubekknum.

Hún varð undrandi á svip en svo náði reiðin tökum á henni. Hún fann nú hvernig hún hataði þennan mann, hvernig hana langaði til að berja hann í andlitið eins fast og hún gæti, læsa nöglunum í þetta glottandi andlit, – klóra úr honum augun.

Hún iðaði undir tökum hans og reyndi að snúa sig lausa frá honum, en hreyfingar hennar aðeins espuðu hann. Með snöggum rykk svifti hann frá henni þunnum sloppnum og hönd hans fann nekt hennar. Hann fann að allur líkami hennar skalf.

„Svo að ég er ekki nógu góður handa þér", sagði hann andstuttur. „Ekki eins góður og hann? – Ég skal kenna þér".

Hann sveigði hana aftur á bak svo að hún féll á bakið niður á legubekkinn og hann grúfði andlit sitt milli brjósta hennar og hélt henni fastri með annarri hendi. Með hendinni sem var laus fór hann undir nærklæði hennar og ýtti þeim niður. Hann strauk hendinni upp læri hennar innanvert. Hún barðist um og reyndi að losa sig frá honum, en það bar

engan árangur. Hann hélt henni fastri og reyndi að kyssa hana.

„Nei", stundi hún. „Nei".

Fingur hans þreifuðu um hana og snertingin við hana æsti hann upp.

„Nei. – Gerðu það fyrir mig". Hún fann fingur hans grafast í sig og meiða sig. – „Nei". Hún hljóðaði af sárs-auka.

„Hvers vegna ekki?" muldraði hann hásri röddu. „Við höfum gert það áður".

Óttinn náði tökum á henni og hún brauzt um af alefli og byrjaði að hrópa á hjálp.

Óp hennar kom honum aftur til að minnast atburða kvöldsins. Hann gat ekki átt á hættu, að hún vekti upp allt húsið og hann næðist ef til vill eftir allt saman. Hann varð að fara núna. En þetta var ekki hans síðasta orð.

Hún fann að hann gafst skyndilega upp við fyrirætlun sína, en hann tók fyrir munn hennar.

„Hættu Móna", bað hann. „Það er óþarfi að hrópa. Ég er að fara núna. En ég kem aftur seinna". Hann tók hendina frá munni hennar og hún hrópaði aftur á hjálp meira af reiði en ótta. Hann hentist fram á gólfið.

„Hættu í hamingju bænum".

Hún þagnaði og horfði á hann með þöglu hatri í augunum. Hann var aftur byrjaður að glotta, – reyndi að láta sem ekkert væri. Hann tók hatt sinn, gekk að dyrunum og opnaði þær. Hann sneri sér við í gættinni.

„Ef það er eitthvað, sem þú ekki vilt, þá þarftu aðeins að segja nei", sagði hann. „Þarft aðeins að segja nei, og þar með er ég farinn".

„Ef svo er", sagði hún. „Þá segi ég nei. Nei, nei, nei".

Það heyrðist hurð opnuð á hæðinni fyrir neðan og Alfgeir

flýtti sér út úr húsinu. Skömmu síðar birtist konuandlit í dyrunum.

„Er nokkuð að?" spurði hún og horfði á Mónu galopnum augum.

„Nei", sagði Móna. „Það er ekkert".

„En mér heyrðist einhver hrópa", sagði konan og horfði í kringum sig.

„Það er ekki neitt", endurtók Móna.

„Jæja þá. Góða nótt".

„Góða nótt".

Móna gekk að dyrunum og læsti. Síðan fór hún inn í svefnherbergi sitt og lét fallast niður í rúmið, örmagna af þreytu. Hún hefði ekki átt að trúa honum... Sumum mönnum er ekki hægt að hjálpa ... Alfgeir mundi aldrei verða öðru vísi. Hann mundi draga alla niður með sér sem reyndu að hjálpa honum ... Hún strengdi þess heit að sjá hann aldrei framar – þekkja hann ekki. – Hún fann til ákafrar löngunar til að sjá Stefán aftur. Hún varð að fara vestur og hitta hann – mjög fljótlega. Hún þoldin þetta ekki lengur að vera svona ein, án hans. Hún mundi aldrei geta gleymt honum. Minningin um hann hafði aðeins orðið skýrari eftir því sem dagarnir liðu. – Hann hafði samt aðeins verið þrjá daga í bænum, og þau höfðu verið saman næstum hverja stund, sem þau gátu. Hún hafði saknað hans mikið, og hafði langað til að fara til hans strax. En hún ákvað að láta ekki eftir þeirri löngun. Ef þau raunverulega elskuðu hvort annað mundu þau halda heitið, sem þau höfðu gefið hvort öðru þegar hann fór. En nú gat hún ekki beðið lengur. Eftir það sem skeð hafði var í henni ótti og óhugnaður, sem hún mundi ekki losna við, nema hún hitti Stefán. Hún stóð hljóðlega á fætur og sótti myndina af honum fram í stofuna. Stefán, hvíslaði hún að myndinni. Elsku vinur. Ég verð að fá að sjá þig strax á morgun.

STEFÁN fór eftir hádegið frá föður sínum og gekk hægum skrefum í átt að sjónum. Hann virti fyrir sér drangana úti fyrir ströndinni. Þeir voru margir og báru hver sitt nafn. Hann staðnæmdist við lítið op nálægt bjargbrúninni, þar sem brimið hafði með látlausum ágangi sínum smátt og smátt brotið sér leið upp gegnum bergið, en skilið eftir jarðbrú fyrir framan opið.

Á vetrum, þegar brimið var sem mest, stóðu vatnsstrókarnir eins og gos upp um þetta klettaop. En nú áttu sjófuglar sér hreiður hér á stuðlum og syllum og allt iðaði af háværu lífi bjargsins.

Stefán hafði oft flúið hingað, þegar hann var í daufu skapi eða þreyttur. Og það hafði aldrei brugðizt, að landið veitti honum nýja gleði og kveikti hjá honum nýja von, – gaf honum frið.

Kannski er það friðurinn, sem við leitum að, hugsaði hann, þessu eilífa núi. – Kannski stendur í raun og veru allt kyrrt ... Það er kannski aðeins vitundin, sem hreyfist?

Hér gat hann gefið sig á vald hugsunum sínum og það var ævinlega með tregðu, sem hann sleit sig frá þessum stað og draumum sínum. Hann horfði suður yfir hafið, sem glitraði í hádegissólinni eins og ótal litlir demantar og samt var brim við ströndina.

Þetta samtal Stefáns við föður hans um Mónu hafði gert hann órólegan. Hann hafði aldrei minnzt á Mónu fyrr og

hafði ekki ætlað sér að gera það. Undarlegt að hann skyldi hafa farið að tala um hana núna, eftir allan þennan tíma, – það var liðinn heill mánuður síðan þau hittust kvöldið góða á Loftleiðahótelinu. Þau höfðu að vísu skrifazt á, en hann hafði ekki heyrt neitt frá henni nú síðustu viku. Löngunin til að sjá hana var eins og eldur í blóði hans. – Var hún ef til vill búin að gleyma . . . búin að hitta einhvern annan?

Bezt að fara upp í litla sumarhúsið og halda áfram að vinna – við skáldsöguna.

Sumarhúsið stóð spölkorn upp frá sjónum í grennd við skólann. Stefán eyddi þar nú, eftir að skólanum lauk, mestum tíma sínum og svaf þar oft um nætur.

Já, hann ætti að fara þangað og vinna. En hann gat ekki slitið sig frá hugleiðingum sínum. Hann gat ekki að því gert. Hann varð að hugsa um Mónu. Einmitt núna var mynd hennar skýrari en nokkru sinni fyrr.

Hann rifjaði upp aftur og aftur allt, sem hún hafði sagt, hverja hreyfingu hennar og svipbrigði. Nú, eftir að hún var horfin, varð návist hennar honum enn meiri veruleiki, þótt undarlegt væri. Hugsunin um hana var eins og minning, sem hundruðir minninga slóust í för með. Hann rifjaði upp fyrir sér, hvernig líkami hennar hafði svignað í faðmi hans þegar hún dansaði, hann fann enn heitan andardrátt hennar á hálsi sínum, og heyrði rödd hennar hvísla í eyra sér.

En þessar hamingjustundir, sem hann hafði verið með henni í Reykjavík, voru liðnar og þær komu aldrei aftur. Hann hugsaði um síðustu orð hennar, hvísluð blíðlega, sefjandi.

„Stefán, þú mátt ekki gleyma mér. Ég kem til þín aftur í sumar". En hann trúði henni ekki. Auðvitað hafði hún ekki meint þetta, sem hún hafði sagt. Konur eru hverflyndar . . .

Stefán tók allt í einu eftir því, að hann var ekki lengur

einn. Það var einhver, sem hrópaði nafn hans. Hann leit við og sá unga konu koma hlaupandi til hans. Hann sá að hún hafði lagt bíl sínum, nýjum Fíat, fyrir framan sumarhúsið. Og nú þekkti hann hana.

„Móna!"

„Stefán!"

Hún brosti til hans og það lék birta um andlit hennar. Stefán sá að hún var í nýjum, léttum sumarkjól og hafði látið klippa hár sitt stutt. Fagurskapaðar línurnar á höfði hennar og hnakka komu betur í ljós, og hann virti fyrir sér hvítan, mjúkan háls hennar. Hún var jafnvel enn fegurri en hún hafði verið áður. Hann horfði á hana fullur löngunar og hún hvarf til hans. Stefán þrýsti henni fast að sér, eins og hann væri hræddur við að missa hana aftur frá sér. Fingur hennar runnu gegnum hárið í hnakka hans og hún fann aftur þessa strauma, sem alltaf fóru um hana, þegar hann snerti hana. Hún setti loks hendurnar á brjóst hans og ýtti honum frá sér með hreyfingum, sem um leið voru atlot.

„Loksins ertu komin aftur", sagði Stefán lágt. „Ég var einmitt að hugsa um þig áðan".

„Varstu það?"

„Já".

„Þú horfir svo undarlega á mig", sagði Móna, „hef ég breytzt svona mikið?"

„Já, á vissan hátt. Þegar við hittumst fyrir sunnan varst þú ekki með svona stutt hár".

„Finnst þér það verra?"

„Þú ert jafnvel ennþá fallegri núna. Þessi nýja klipping fer þér vel".

Hún leit á hann með velþóknun og brosti.

„Móna", spurði hann ákafur. „Hvernig gaztu fundið mig?"

„Það var auðvelt. Ég spurði um hvar þú værir. Auk þess

varst þú búinn að lýsa staðnum, skólanum og sumarhúsinu svo vel í bréfum þínum að ég þekkti þetta allt strax og ég sá það".

„Ég trúi því ekki enn að þú sért komin".

„En ég var búin að segja þér að ég mundi koma, ertu búinn að gleyma því, Stefán?"

„Nei, en . . ." Stefán varð dálítið vandræðalegur og hann kveikti sér í sígarettu til að leyna því. Hann bauð henni líka og það var eins og blár reykurinn, sem þau blésu frá sér, eyddi feimni hans.

„En hvað?" spurði hún svo.

„Ég hélt ekki að þú mundir koma aftur til mín".

„En ég sagði þér það. Hefur þú saknað mín?"

„Mjög mikið".

„Ég hef líka saknað þín. Það er svo langt síðan við höfum sézt".

„Hvernig gengur í Reykjavík?" spurði Stefán.

„Eins og venjulega. Hið ljúfa líf. Hættulegt og fitandi".

„Hvernig komstu hingað, Móna?"

„Á Fíatinum eins og þú sérð. Ég lagði af stað snemma í morgun – mjög snemma. Stefán, við verðum að gera eitthvað", bætti hún við fjörlega. „Mér var að detta í hug að við gætum synt dálítið, sjórinn er svo tær. Ég tók sundfötin með mér". Hún benti á litla tösku, sem hún hafði lagt frá sér á stein.

„Viltu bíða eftir mér", sagði Stefán. „Ég þarf að skreppa heim, en ég kem strax aftur".

„Já, en flýttu þér þá".

Það var gott að vera aftur með Mónu. Stefán náði í sundföt sín og flýtti sér til hennar aftur. Þau gengu saman hlið við hlið eftir bjargbrúninni, og Móna varð heilluð af að

horfa á sjófuglinn, hvernig hann þakti næstum allt bjargið með hreiðrum sínum. Það voru líka stórir hópar á sífelldu sveimi yfir sjónum og fram með nær þverhníptum hamraveggjunum í leit að æti. Það voru komnir ungar í hreiðrin, litlir og hjálparvana. Mónu þótti vænt um þessa hvítu fugla, vænt um allt, sem hún sá hér.

Þau gengu eftir gömlum stíg niður að sjónum. Vermenn höfðu áður fyrr notað þennan stíg til að bera upp afla sinn úr víkinni. Nú var hann næstum gleymdur. Stígurinn var brattur, og Stefán gekk á undan. Þegar hann var kominn niður, sneri hann sér við til að taka á móti henni. Hún rétti honum báðar hendur, – ung kona, full af iðandi lífi. Hún minnti hann á blómknapp, sem hlýtur þá og þegar að springa út í sólskininu. Hún stökk léttilega niður, þrýsti sér um stund fast upp að honum og kyssti hann glaðlega léttum kossi. En þegar hann reyndi að kyssa hana aftur, færði hún sig frá honum.

„Komdu, komdu", kallaði hún. Hún tók í hönd hans og dró hann með sér niður að fjörunni. „Við skulum synda. Sjórinn er áreiðanlega ekki mjög kaldur, og okkur líður dásamlega þegar við komum upp úr aftur".

Það var grjót efst í víkinni, en síðan tók við allbreið sandströnd, milli tveggja dranga. Sá þriðji reis tignarlega eins og stafn á gömlu víkingaskipi upp úr sjónum skammt fram undan ströndinni.

Það marraði einkennilega í þurrum sandinum undir fótum þeirra. Það var þung undiralda þrátt fyrir lognið og öldurnar ultu hvítfyssandi upp í slétta fjöruna. Móna tók af sér skóna og fór úr sokkunum til að kanna vatnið.

„Ekki mjög kalt", sagði hún.

Stefán horfði á hana hugfanginn, á frjálslegar og fjaðurmagnaðar hreyfingar hennar, þessa fallegu fætur niður und-

an léttum sumarkjól. Stefán fann til nýrrar eftirvæntingar, – og ótta. Hún var falleg – næstum of falleg.

„Við verðum að flýta okkur", sagði hún og brosti hlýlega, „og nota sólskinið, á meðan það er svona heitt".

Hann horfði á eftir henni hverfa bak við annan dranginn.

Móna flýtti sér að fara úr fötunum og færði sig í sundfötin. Síðan hljóp hún aftur niður fjörusandinn að sjónum. Hún hafði verið fljótari að afklæða sig en hann. Hún svipaðist um eftir honum og sá hann koma framundan kletti við hinn dranginn. Hann flýtti sér til hennar. Móna óð út í og skvetti vatni á brjóst sér og handleggi.

„Hæ", kallaði Stefán. „Komdu heldur að klettinum, þar er vatnið aðdjúpt".

Hún kom til hans, steig upp á klettinn við hlið hans.

„Þorirðu?" spurði Stefán.

Hún svaraði ekki, leit á hann gáskafull og steypti sér fram af. Stefán horfði á hvernig hún sveif mjúklega gegnum loftið og smaug niður í vatnið. Hún var greinilega enginn viðvaningur. Móna kom fljótlega aftur upp úr sjónum og hristi vatnið úr hárinu. Svo greip hún sundtökin. Móna stefndi á dranginn, sem lá skammt undan og henni sóttist sundið ótrúlega vel, þrátt fyrir ölduganginn. Hann naut þess að horfa á hana synda og beið með að fara sjálfur út í sjóinn. Stundum sá hann hana fara djúpt niður á milli aldanna, en svo reis hún skyndilega aftur upp með öldunni. Hún var brátt komin að dranginum. Stefán varð allt í einu skelfdur á svip. Hann sá hvar stór alda skauzt fram með dranginum, og sá hvernig hún brotnaði yfir Mónu, sem hvarf honum sýnum í hvítfyssandi löðrinu.

Stefán flýtti sér út í á eftir henni. Sjórinn var kaldur og nokkuð djúpur. Hann sá Mónu skjóta upp framundan sér.

Honum virtist hún eiga í erfiðleikum með að ná andanum. Kannski var hún í hættu stödd.

„Móna!" kallaði hann.

Hún veifaði til hans annarri hendinni og hló aftur þessum gáskafulla hlátri. Innan stundar var hann kominn til hennar.

„Móna, þú gerðir mig hræddan".

Hún svaraði ekki, hló aðeins að honum.

„Að hverju ertu að hlæja?"

„Veizru það ekki?"

„Nei".

„Þú mátt geta þrisvar".

„Móna!"

„Já, Stefán?"

„Við ættum heldur að reyna að komast upp í dranginn".

„Það sýnist vera dálítið erfitt".

„Nei, nei. Hann er lægri að sunnanverðu. Þú ert þó ekki hrædd?"

„Nei, ekki með þér".

Þau syntu suður fyrir dranginn og upp að flúðunum við klettinn. Þau sættu lagi að komast upp og skriðu á höndum og fótum gegnum breitt þangbelti upp í lítinn skúta í dranginum sunnanverðum.

Klettarnir voru heitir viðkomu, og þau settust niður. Móna krosslagði hendurnar á brjóstinu og Stefán virti hana fyrir sér með aðdáun. Henni var dálítið kalt eftir sundið. Sólin skein á andlit hennar og myndaði geislabaug um ljóst hárið. Sólbrenndur, votur líkami hennar glóði í þessari tæru birtu hásumarsins, sem lék um hana alla.

Hún mætti augnaráði hans djarflega. Andlit hennar var vott og andlitsdrættirnir urðu mjúkir. Svo horfði hún fram hjá honum út á víkina.

„En hvað, þetta er yndislegur dagur", sagði Móna með dreymandi svip. Hún renndi augunum yfir öldurnar, sem sýndust lygnar úti á sjónum. Þær merluðu í sólskininu og Móna andaði djúpt að sér sjávarloftinu. Hún heyrði til Stefáns eins og úr fjarska, gat næstum heyrt brosið í rödd hans, þegar hann sagði:

„Þú ert sjálf það fallegasta, sem til er í þessum heimi".

Hún horfði á hann hlýlega, tók undir handlegg hans og sagði glettnislega:

„Þú heldur víst að ég trúi þér?"

Hann horfði á hana eins og hann vildi lesa hugsanir hennar.

„Það er ekkert til fegurra", endurtók hann.

„Þú bara talar og meinar ekkert með því", sagði Móna og strauk um vott hárið.

„Þú verður að trúa mér", sagði hann og horfði hreinskilnislega á hana.

„Hvernig get ég það? Það er ekki alltaf hægt að trúa karlmönnum".

„Nei", sagði hann brosandi, „það er ekki alltaf hægt".

„Karlmenn eru ævintýramenn", hélt Móna áfram. „Þeir koma og fara".

„Hvað er rangt við það? Ég á við að karlmenn séu dálitlir ævintýramenn".

Móna setti stút á varirnar.

„Þú heldur að ég sé heimsk og viti ekkert".

„Nei. Það held ég ekki".

„Ekki það. Hvers vegna ekki?"

„Ég held að þú og við öll skiljum miklu meira en við vitum", sagði hann hikandi. Hann fann aldrei þau orð, sem hann vildi segja.

„Ég hef kannski skilið þig, án þess að vita það? Er það það, sem þú átt við?" spurði hún elskulega.

„Það getur verið".

„Og þú?"

„Nei".

„Nei, hvað?"

„Ég er ekki viss um að ég skilji þig".

Þau voru þögul um stund, en svo spurði hún allt í einu.

„Hefurðu aldrei verið ástfanginn?"

„Já".

„Í hverri?".

„Aðeins þér".

„Alvarlega?"

„Það er undir ýmsu komið".

„Hverju?" spurði hún lágum, mjúkum rómi.

„Kysstu mig, Móna".

„Núna?"

„Núna!"

Hann byrjaði að kyssa hana mjúklega, síðan ákafar, dýpra. Stuttu seinna spurði hann:

„Um hvað ertu að hugsa, Móna?"

„Um hvað það er himneskt að lifa".

„Já, himnaríki . . . "

„Það er hérna", sagði hún.

„Kannski getum við fundið himininn í þessu lífi", sagði Stefán og horfði upp eftir dranginum, nærri lóðréttum. Augu hans staðnæmdust við syllu, sem lá ofarlega í dranginum og af henni var um mannhæð upp að grastónni, sem bar við himinn.

„En það eru ekki allir, sem skilja þetta", sagði hún.

„Móna, kysstu mig aftur", bað hann.

„Nei. Við skulum koma og synda".

„Ekki strax, Móna. Ekki strax".

„Sjórinn er svo tær", sagði Móna.

Hann horfði aftur staðföstu augnaráði upp á brúnina.

„Móna. Mig hefur alltaf langað til að klífa dranginn".

„Hvernig í ósköpunum getur þér dottið annað eins í hug".

Stefán reyndi að láta engan vöðva hreyfast í andlitinu og vonaði að hann sýndist rólegur og óttalaus.

„Það er auðveldara en þú heldur", sagði hann.

„Auðveldara . . . en Stefán, sérðu ekki að það er ekki hægt?"

„Ég held að það sé hægt. Jú".

Móna horfði á hann og hristi höfuðið yfir hinu óskiljanlega.

„En hvers vegna?" spurði hún og leit til hans eins og hún væri að biðja um hjálpa. „Það er þarflaust og hættulegt".

„Það er sjálfsagt heimskulegt . . . Ég hef oft komið hér áður, og frá því ég var drengur, hefur mér alltaf fundizt að ég yrði að klífa þennan drang . . . Annars yrði ég aldrei maður. Það er sagt að afi minn hafi gert það", bætti hann við.

„Hvernig er hægt að segja slíka hluti. Að setja sig í hættu vegna einhvers, sem hefur engan tilgang".

„Jú, Móna. Ég verð að sigra hann".

„Stefán. Gerðu það fyrir mig að fara ekki frá mér". – Hún fann til ótta, – skynjaði að honum var alvara.

„Ég verð". Hann reyndi að róa hana. „Ég kemst upp, sannaðu til".

„En ef þú hrapar, Stefán?"

Þetta var spurning, sem hann vonaði að hann þyrfti aldrei að svara. Hann sneri sér frá henni og stóð á fætur. Um leið og hann gekk burtu, leit hann um öxl og kallaði:

„Þetta er ekkert hættulegt. Konur eru alltaf hræddari við mús en atómsprengju". Þetta var rangt. Alrangt. Hendur hans voru rakar af taugaæsingi, en hann hafði tekið ákvörðun. Hann varð að komast upp. Hann vó sig varlega upp neðstu sylluna. – Dranginn var ekki mjög hár, en miðhluti hans var næstum lóðréttur og virtist ókleifur, – nema á einum stað . . . Stefán virti vandlega fyrir sér allbreiða sprungu, sem náði alveg frá neðsta stallinum upp að efstu syllunni. Þetta var greinilega eina leiðin. Með því að fara inn í sprunguna, hafa bakið upp að klettaveggnum öðru megin og spyrna með fótunum í klettinn hinum megin, tókst honum að skorða sig fastan. Hann beitti höndum og fótum og reyndi á sig til hins ýtrasta.

Hægt og hægt fór hann að mjakast upp sprunguna. Svitinn bogaði af honum, en hann fann ekki til neins ótta lengur, einbeitti sér aðeins að því að ná efstu syllunni og að lokum tókst það. Nú var aðeins eftir að komast upp í grastóna ofan á dranginum.

Hann kastaði mæðinni um stund og fór svo að þreifa fyrir sér eftir handfestu. Hann náði sæmilegu taki á stórri blóðrót efst á brúninni og byrjaði að vega sig upp. En allt í einu fann hann að rótin var að losna. Hún gat alveg slitnað þá og þegar. Það var ekki annað að gera en að reyna að láta sig síga eins varlega og hægt var aftur niður á sama stað. Syllan var svo mjó, að ef hann gæti ekki komið hægt niður, mundi honum ekki takast að fóta sig. – Sem betur fór var rótin seig. Hún rifnaði hægt upp, en þá var Stefán aftur búinn að koma sér fyrir á stallinum og þrýsti sér fast upp að berginu. Hann varð að fara að þessu með gát, varð að finna nýja og örugga handfestu.

Það var erfitt, en að lokum fann hann það, sem hann leitaði að, harða klettasnös, sem hægt var að ná góðu taki á.

Hann byrjaði að vega sig upp. Allt í einu fann hann að hann hafði sigrað. Hann tók á af öllum kröftum. Um stund vó hann salt á brúninni, sem bar við himinn, en svo var hann á næsta augnabliki kominn upp. Hann fann mjúkt grasið undir fótum sér og hann veifaði fagnandi til Mónu, sem hafði staðið upp og horft á hann hálflömuð af skelfingu.

Hún veifaði á móti og kallaði nafn hans. – Af hverju þurfa karlmenn alltaf að gera slíka hluti? Þetta var svo hættulegt, en hún fann að undir niðri var hún mjög stolt af honum.

Skömmu seinna var hann aftur kominn niður á neðstu sylluna.

Ótti hennar hvarf smám saman. Hann var aftur kominn niður úr dranginum og veifaði aftur til hennar.

„Móna, komdu hingað".

Hann var þreyttur og ánægður, fagnandi yfir sigri sínum, sem fyllti hann óskiljanlegri gleði. Hann gat ekki stillt sig um að steypa sér út í tært vatnið. Hann kom upp úr aftur og kallaði til hennar hlæjandi.

„Bíddu eftir mér, Stefán", kallaði hún á móti. „Ég er að koma". Hún hafði alveg yfirunnið óttann og hló líka. Hún stakk sér til sunds á eftir honum. Vatnið var kalt og þau flýttu sér að synda upp í fjöruna. Hann greip hönd hennar og þau óðu saman upp flæðarmálið.

„Stefán".

„Já".

„Af hverju gerðir þú mig svona hrædda?" hvíslaði hún svo lágt að varla heyrðist. Hann tók hana í faðm sér og stæltur líkami hennar þrýsti sér upp að honum.

„Fyrirgefðu", sagði hann. „Ég er kjáni".

„Nei, það held ég ekki. Það er enginn eins og þú".

Þau voru komin upp á þurran sandinn og Móna strauk

vatnið af höndum sér og skalf dálítið. Henni var samt undarlega hlýtt, eins og henni hefði verið þurrkað með grófu handklæði. Þau settust niður í sandinn og létu sólina þurrka sig. Stefán hafði dálítið samvizkubit vegna þess ótta, sem hann hafði valdið henni, en þegar hann leit á hana, las hann aðeins stolt og aðdáun í augum hennar. Það stafaði birtu af andliti hennar og augun urðu blíð. Mjúkar, rauðar varir hennar voru hálfopnar og það skein í röð af hvítum tönnum. Það var eins og að horfa inn í dularfullt blóm, fannst honum. Andlit hennar var svo nálægt, að hann gat speglað sig í augum hennar. Hann tók utan um hana og þau kysstust lengi og innilega í heitum sandinum. Hann fann að honum þótti enn vænna um hana en áður, enn vænna en hann hélt að hægt væri að láta sér þykja um nokkra manneskju.

Hún iðaði í örmum hans og dró andann ótt. Fótleggir hennar voru kaldir eftir baðið, en líkami hennar var að öðru leyti orðinn heitur. Hún losaði sig skyndilega úr örmum hans og þau lágu þétt saman, hlið við hlið.

„Þú ert heppinn", sagði hún og gróf með tánum í sandinn. Hann var heitur og mjúkur.

„Heppinn?"

„Já, að geta verið hér, þegar þú vilt".

„Vildir þú vera hérna?" spurði hann.

„Mér væri sama hvar ég væri, ef ég væri með þér", hún strauk hárið aftur frá enninu.

„Móna, við skulum koma heim".

„Ef þú vilt, Stefán".

Hún var létt í skapi og fagnandi. Þau stóðu á fætur og reyndu eftir beztu getu að strjúka af sér sandinn.

„Heim . . . Þú átt við skólann?"

„Nei, – sumarhúsið".

ÞAU gengu saman og leiddust upp frá sjónum áleiðis til sumarhússins.

Það var byrjað að halla degi og það lá mild hitamóða í loftinu, sem lagði bláa vængi sína yfir jörðina og dreifða húsatorfu, sem teygðist upp frá Stapanum. Hópur máfa flaug til norðurs, til þess að hafa náttból í fjallinu, sem gnæfði yfir þessari litlu mannabyggð, fjallinu með dulúðugar syllur og hamrabríkur, sem risu til himins í síðdegissólinni eins og seiður völvu.

Þau gengu fram hjá húsunum einu af öðru. Í litlu húsi undir fellinu sáu þau bregða fyrir ungri konu með barn á brjósti. Barnið hafði tekið báðum höndum um brjóst móður sinnar og saug áfergjulega þessa stóru, dökku vörtu, með litla, þrýstna fætur spennta um mitti hennar. Móna stalst til að líta á Stefán útundan sér. Svo urðu kinnar hennar allt í einu heitar og hún leit niður fyrir sig.

Stefán var niðursokkinn í sínar eigin hugsanir. Hann þekkti hvern blett í þessari byggð og unni henni. Hann dreymdi stóra drauma um framtíð hennar eins og faðir hans hafði gert. En honum gramdist oft sofandahátturinn og aðgerðarleysið. Þeir efnameiri, sem stjórnuðu þorpinu kvörtuðu sífellt yfir því, að nú hefðu allir of mikla peninga . . . að undanteknum þeim sjálfum. Þeir horfðu á breytingar tímans en héldu að sér höndum. Lífið þumlungaðist áfram eftir margtroðnum brautum vanans . . . í endalausa hringi

... í spíral héldu sumir. Þeir taka ekki einu sinni eftir því, að í hálfa öld hugsa þeir varla nokkra nýja hugsun ... segja sömu sögurnar ... segja sömu fyndnina ... gera allt það sama upp aftur og aftur.

Þó gramdist honum mest að sjá hve barnalegir þeir voru í trú sinni á guðina tvo, þingmanninn og kaupfélagsstjórann. Það var eins og þjónustulundin fengi þá til að sýnast eins konar smækkuð stæling af húsbændum þeirra ...

Móna greip allt í einu báðum höndum í handlegg Stefáns og horfði upp til hans.

„Um hvað varstu að hugsa, Stefán?"

„Ég var að hugsa um hvernig menn ganga í fótspor feðra sinna, í endalausri röð, öld fram af öld, – og svo skyndilega opnast nýr heimur".

„Og það er það, sem þú vilt. Finna þennan nýja heim og lifa í honum?"

„Ég veit það ekki. Það er eitthvað í mér, sem knýr mig til að gera eitthvað nýtt, opna nýja leið, sem enginn hefur farið áður".

„Já", sagði hún og kinkaði kolli. Það lék óskiljanlegt bros um varir hennar. „Einmitt. – Opna nýja leið".

Þau voru komin að húsinu og námu staðar við dyrnar. Hann virti hana fyrir sér, þar sem hún stóð og beið eftir að hann opnaði. Sólin skein framan í hana og myndaði geislabaug um ljóst hár hennar, það var mjúkt og þykkt. Hann horfði í rafurblá augu hennar, þau voru heið og björt eins og júnídagur, fannst honum. – Hann virti fyrir sér bogadregnar augnabrúnirnar, málaðar dökkar, löng, dökk augnahár ... brosmildar varir. Hún var í léttum, grænum sumarkjól og brjóst hennar og mjaðmir fylltu út í hann ... Hann er þröngur þar sem hann á að vera þröngur, hugsaði hann ... Og drættirnir í kringum munninn ... bráðlyndi?

Stefán fór að rifja upp fyrir sér hreyfingar hennar, léttar og fjaðurmagnaðar. Hún var svo falleg að hann langaði til að taka hana í faðm sér.

„Heyrðu, Stefán", sagði Móna og benti á stóra byggingu innar á ströndinni. „Er þetta ekki skólinn?"

„Jú". Hann fór að hugsa um föður sinn. Hann varð að koma með Mónu til hans. Hann var viss um að þau yrðu góðir vinir. Hvers vegna ekki að fara þangað strax? Þau gætu spjallað svolítið saman og borðað kvöldverð . . .

„Móna, hvað segir þú um að skreppa þangað snöggvast og hitta föður minn?"

„Þakka þér fyrir. Það er einmitt það, sem mig langar til – að þekkja þitt fólk.

Löngu seinna voru þau aftur komin að sumarhúsinu. Þetta hafði verið ánægjuleg heimsókn og Móna var í sjöunda himni. Hún var sannfærð um að gamla manninum hafði geðjast vel að henni. Og það var gagnkvæmt. Þau höfðu skilið eins og gamlir vinir.

Máltíðin á hótelinu hafði líka verið ágæt. Móna var farin að efast um að lífið hér á ströndinni væri eins einmanalegt og hún hafði haldið. Hér var allt svo fagurt. Hver veit nema við Stefán eigum einhvern tíma eftir að búa hér, hugsaði hún. Hver veit? Og henni fannst nú, að hér hlyti sér að geta liðið vel. Meira að segja fundið ný verkefni. En undir niðri vissi hún, að hún myndi alltaf sakna Reykjavíkur. Borgin hafði yfir henni töfravald, sem ekki var auðvelt að losna undan.

Hann opnaði dyrnar og hún gekk á undan honum inn í stofuna. Þetta var lítið hús, sem faðir Stefáns hafði látið reisa fyrir mörgum árum og gert að sumarbústað. Það var aðeins stór stofa, baðherbergi og eldhús. Stofan var sambland af skrifstofu og heimili. Augu stúlkunnar staðnæmd-

ust við ábreiðuna á gólfinu. Það voru fjórir ísbjarnarfeldir, sem móðir Stefáns hafði fyrir mörgum árum saumað saman í einn. Feldirnir voru enn furðu hvítir og mjúkir og stungu undarlega í stúf við svört gluggatjöldin, sem dregin voru fyrir til hálfs. Móna renndi augunum yfir sófaborðið og tvo gamla leðurstóla. Veggurinn á bak við þá var að mestu þakinn bókum og á skrifborði Stefáns stóð vasi með nýjum blómum. Á hinum veggjunum héngu málverk eftir unga málara, sem hún þekkti ekki. Við austurvegginn stóð legubekkur og gegnt honum hlaðinn arinn og stafli af viðarbútum við hlið hans. Stefán lokaði dyrunum á eftir sér. Hann kom nú einnig inn í stofuna og gekk til hennar. Hún bar höfuðið hátt og með þokkafullri hreyfingu leit hún um öxl til hans og brosti. Hann tók hönd hennar í báðar sínar.

„Móna, mér finnst svo vænt um að þú komst".

„Mér fannst, að ég yrði að finna þig miklu fyrr, en ég gat ekki komizt".

Hann náði í vindlinga handa þeim og kveikti á eldspýtu.

„Hvers vegna komstu, Móna?" sagði hann stríðnislega. Blossinn af eldspýtunni lýsti upp andlit hennar.

„Mér finnst gaman að tala við þig", svaraði hún í sama tón.

„Var það bara þess vegna, sem þú komst?"

Hún hélt vindlingnum kvenlega milli fingra sér og hann kveikti í honum.

„Veiztu það ekki? Ég á við hvers vegna ég kom".

„Jú", sagði hann. „Það eru örlögin".

Þau hlógu bæði.

Þannig talaði aðeins gamla fólkið.

Hann sogaði að sér reykinn og rétti úr sér.

„Móna, það er flaska af martini frammi í ísskápnum. Þú ættir að sækja hana meðan ég kveiki upp í arninum".

„Gott, Stefán. Það er gott". Hún þrýsti sér upp í fang hans og kyssti hann innilega. Síðan sveif hún frá honum og hvarf fram í eldhús.

Stefán fór að rífa niður gamalt dagblað og setti blöðin á aringrindina. Ofan á þau hlóð hann þurrum smáspýtum og loks litlum stafla af viðarbútum. Stefán fitlaði við eldspýtuna án þess að kveikja á henni. – Hafði hann annars meint þetta með örlögin? . . . Örlög? Er það ekki eitthvað í okkur sjálfum . . . eitthvað, sem stjórnar okkur . . . kannski án þess við vitum . . . dýpstu tilfinningar okkar . . . stjórna okkur þótt við skiljum þær ekki . . . Og Móna . . . var hún kannski til í framtíð hans . . . löngu áður en þau mættust? . . . Örlögin, sem stefna fólki saman?

Móna kom aftur að vörmu spori með martiniflöskuna og glös á bakka. Hún setti þetta frá sér á borðið og hellti í glösin og setti ísmola út í. Hún kom til hans, þar sem hann stóð við arininn og rétti honum glas.

„Ég vona að martinið sé nógu kalt".

Hann var ekki enn búinn að kveikja upp í arninum. Móna tók af honum eldspýturnar, kraup niður við arininn og kveikti upp eldinn. Það fór brátt að skíðloga.

Augu hans hvíldu á þröngri festinni um hvítan háls hennar og hún var nógu mikil kona til að finna augnaráð hans og skilja hvað það þýddi. Hún reis á fætur og þau skáluðu. Þau tæmdu glösin í botn og lögðu þau frá sér, hann þráði hana . . .

Gerðu það núna, hugsaði hún, og hún átti erfitt með að láta ekki eftir þeirri löngun sinni að segja það upphátt. Hún stóð hjá honum á þessum létta sumarkjól, sem kipptist örlítið upp að framan.

Hann tók hana í faðm sér og hún kyssti hann ákaft. Hún fann að hann titraði og hugsaði um það hvernig hann mundi

koma til hennar . . . fara með hana . . . elska hana . . . Það var einmitt það, sem hún vildi. Þessi hugsun gladdi hana, að geta gefið honum allt og gert hann hamingjusaman . . . En seinna.

Hann skynjaði ekki hugsanir hennar.

„Komdu", sagði hún. „Við skulum fá okkur annan drykk".

Þau settust við borðið og hann hellti aftur í glösin. Hún var svo falleg þar sem hún sat með krosslagðar fætur andspænis honum, að hann fann skyndilega til sársauka, sem hann skildi ekki.

„Móna, hefurðu aldrei verið ástfangin?" Hann hafði sagt það áður en hann vissi af. Hann vissi að hann hafði gert rangt, en nú var það sagt. Hann þagnaði og varð vandræðalegur.

Hún leit niður fyrir sig og yfirvegaði orð sín lengi áður en hún svaraði.

„Ég sagði þér frá því áður".

„Hverju?"

„Að ég þekkti einu sinni ungan mann, sem mér þótti mjög vænt um".

„Alfgeir?"

„Já".

Hann horfði rannsakandi niður í glas sitt.

„Elskarðu hann ennþá?"

„Ég er alveg hætt að hugsa um hann". Það var dapurleiki í rödd hennar.

„Er það alveg satt?"

„Hamingjan hjálpi mér, já".

Hann lagði fingurgómana saman og bar þá upp að nefinu, hugsandi á svip.

„Þekktirðu hann vel?"

„Við þekkjum fólk og þekkjum það þó ekki".

„Sveik hann þig? Hvernig?"

„Hann átti barn með annarri".

„Og sveik þig?"

Hann giftist henni".

Stefán drakk af glasinu. Það var enn þessi sársauki í brjóstinu . . . svo sár að hann langaði næstum til að særa hana.

„Varstu ekkert hrædd að koma hingað?"

„Nei, Stefán, ég er ekki hrædd. Ekki við þig. Auk þess er ég ekkert barn lengur. Ég er nógu gömul til að vita hvað ég vil".

„Viðvitum og vitum ekki", sagði hann.

„Ég veit allt, sem ég þarf að vita".

Hún kom og settist við fætur hans – lagði höfuð sitt á hné hans.

„Ég vil aldrei fara á bak við þig með neitt. Þú verður að geta treyst mér".

Hann gældi við hár hennar, silkimjúkt og þykkt og fitlaði við hálsfestina.

Þegar kona eignast vin, hugsaði hún, þá verður hún að hætta á að hann svíki hana . . . traðki á tilfinningum hennar og trúnaði. Það var það, sem hafði komið fyrir hana. Upphátt sagði hún:

„Og ég get treyst þér – fyrir öllu?"

„Já".

„Örugglega?"

„Já".

„Það er gott að eiga vin, sem hægt er að segja allt".

Honum fannst að hann yrði að vernda hana fyrir einhverju, sem hann vissi ekki hvað var. Fortíðin skipti skyndilega ekki neinu máli lengur. Hann skyldi sýna henni að hún gat treyst honum.

Hún hreyfði sig ekki, og það var aðeins forvitni í rödd hennar, þegar hún spurði:

„Og þú, Stefán. Hefur þú aldrei verið ástfanginn?"

Hvað átti hann að segja henni. Sannleikann, auðvitað – að hún sjálf væri fyrsta stúlkan, sem hann hefði raunverulega elskað. Að vísu hafði hann lengi átt vinstúlku, sem bjó enn hérna í byggðarlaginu. En hafði það nokkurn tíma verið nema vinátta, barnaskapur? Hann ákvað að svara ekki spurningunni en tók í þess stað glas sitt og tæmdi það.

„Móna", sagði hann svo. „Þú mátt aldrei elska annan mann. Að elska konu, sem elskar annan mann, – það er eins og að drekka úr tómu glasi".

„Stefán ... Ég ... hvers vegna viltu ekki svara þessu, sem ég spurði þig um. – Hvort það væri önnur . . . ?" Augu hennar urðu óróleg. Hún settist upp og færði sig fjær honum.

Stefán horfði á hana spyrjandi.

„Móna, hvers vegna horfir þú svona á mig? Ég hef ekki ástæðu til að leyna þig neinu. Auðvitað hef ég þekkt stúlkur ... en það var aldrei neitt alvarlegt, allt löngu liðið".

Móna horfði á hann rannsakandi.

„Það er kannski vegna stúlku, sem þú býrð hér svona, – aleinn?"

„Nei, Móna. Það er satt. Ég átti einu sinni vinkonu hérna í byggðarlaginu, en það er allt búið. Við tölumst ekki við lengur".

Það dimmdi yfir svip hennar, og Stefán flýtti sér að bæta við:

„Móna. Þú verður að skilja mig. Það er engin önnur – engin nema þú".

„En það var önnur?"

„Móna!"

„Þú skildir við hana?"

„Nei, nei. Þú mátt ekki spyrja svona. – Ég sagði þér sannleikann, – það var ekki neitt".

„Ég skal hætta. – En ætlarðu þá að segja mér það – allt?"

„Kannski seinna, þegar þú hefur gleymt".

„Gleymt hverju?"

„Honum, sem þú varst trúlofuð".

Hún sneri við honum baki og fór út að glugganum. Hann iðraðist strax þessara orða. Kannski hafði hann sagt eitthvað, sem hann mundi alltaf iðrast. Hann stóð á fætur og gekk til hennar. Hann tók utan um hana og renndi fingrunum upp að brjóstum hennar.

„Snertu mig ekki".

„Móna, ertu reið við mig?"

„Slepptu mér. Slepptu mér!"

„Nei".

Hún vatt sér úr faðmi hans.

„Þú getur ekki tekið neitt, sem ég vil ekki gefa".

„Ég sleppi þér aldrei".

Svipur hennar mildaðist og honum sýndist votta fyrir brosi í augum hennar.

„Hefurðu hitt hana aftur", spurði hún – „eftir að þið skilduð?"

„Nei".

„Er það satt?"

„Alveg satt. Móna, komdu", bað Stefán. „Við skulum setjast".

Hún andvarpaði.

„Ég veit hvað þú vilt, en ég veit ekki hvað ég vil". En í augum hennar las hann allt annað svar.

„Vertu ekki reið við mig, Móna, við verðum að taka þessu skynsamlega".

Hún setti stút á varirnar.

„En hvers vegna viltu ekkert segja mér? . . . Ég vil fá að vita allt um þig".

Hún var einkennilega einbeitt á svipinn og andaði dálítið ótt.

„Elskar hún þig?"

„Nei, það held ég ekki".

Hún leit þegjandi til hans. Það gat verið að hún væri reið, hugsaði hann . . . en hún elskar mig.

„Móna, viltu fyrirgefa mér?"

„Stefán, ég gæti ekki verið reið við þig – lengi. Auk þess erum við jöfn".

„Já", sagði hann. „Við erum víst öll af sama holdi og blóði – úr sama leir. Það er lítill munur á karlmönnum og kvenfólki".

Hún brosti til hans glettnislega.

„En þessi munur skiptir samt talsverðu máli?"

„Þú ert þá ekki reið við mig lengur?"

„Auðvitað ekki. En mér er dálítið kalt".

Hún kom til hans og fitlaði við tölu á skyrtu hans.

„Ætlarðu að vera hjá mér", sagði hann. „Ætlarðu að gera það?"

„Ef þú vilt".

Þau settust á legubekkinn. Hann horfði í þessu rafurbláu augu, sem nú leiftruðu af gáska. Það var í þeim ögrun, sem hann stóðst ekki. Hann hallaði sér að henni og varir þeirra mættust. Hann fann að varir hennar titruðu og koss hennar varð langur og ástríðufullur. Hún hallaði sér aftur á bak í legubekknum og hann hélt áfram að kyssa hana. Hann byrjaði að hneppa frá henni kjólnum að aftan og losa af henni brjóstahaldarann. Hann beygði sig niður og kyssti brjóst hennar, – tók stinnar og dökkar brjóstvörtur hennar milli vara sér.

Það greip hana nýr ástríðuofsi, og hún sparkaði af sér skónum, sem féllu á gólfið. Hún byrjaði að hjálpa honum við að afklæða sig þar til hún var komin úr öllu. Þá reis hún skyndilega upp og stóð fyrir framan hann. Þetta var í fyrsta skipti, sem hann sá hana nakta. Hún var stolt af líkama sínum og langaði til að sýna honum hann. Hann horfði á hana undrandi, gripinn þessum kynlega ótta, sem alltaf blandast þrá karlmanns eftir konu. Hann reyndi að brosa og sýnast rólegur.

„Hefurðu enga sómatilfinningu?" sagði hann.

„Þú ert undarlegur maður í meira lagi". Það var sami gáskinn í rödd hennar, þegar hún bætti við. – „Auðvitað ekki. Konur eru aðeins konur, en sumar eru meiri hræsnarar en aðrar".

„Móna! Komdu".

Hún gekk frá honum að arninum, frjálsleg og fjaðurmögnuð í hreyfingum, stóð þar með ögrun í svipnum. Hann reis einnig á fætur.

„Móna".

Hann var kominn að bjarnarfeldinum á gólfinu og stóð þar kyrr og horfði á hana.

Hún brúaði loks bilið milli þeirra. Hann sá hvernig gullni þríhyrningurinn svignaði eins og lendar hennar, þegar hún gekk til hans, og hann var gripinn tilfinningu, sem hann hafði aldrei fundið til áður. Hann kraup niður fyrir framan hana og faldi andlitið við skaut hennar.

„Ég hef verið að bíða eftir þessu allt mitt líf", sagði hún lágt. Hún þrýsti sér fastar upp að honum og stýrði höndum hans milli brjósta sinna.

„Og ef . . . Og á eftir . . . Ætlarðu þá að vera hjá mér, – alltaf?"

„Móna, þú ert yndisleg. Ég vona að ég eigi þetta skilið".

Hún hló lágt.

„Móna, ég elska þig".

„Og ég elska þig líka, vinur minn".

Hann strauk ávöl brjóst hennar, lét hendur sínar renna niður eftir henni og um bogalínur mjaðmanna.

„Komdu, Stefán", hvíslaði hún, „komdu til mín, – alveg".

Hann lagðist aftur á bak niður á feldinn og dró hana til sín. Hún lét sig falla yfir hann og kossheitar varir hennar hvíldu á vörum hans.

„Ætlarðu þá að vera hjá mér, – alltaf?"

„Já, elskan mín, – alltaf".

Þrýstin brjóst hennar voru yfir honum, – strukust við bringu hans og snertu hann í hvert skipti, sem hann dró andann.

„Alltaf?"

„Um tíma og eilífð".

Augu hennar urðu djúp og tindrandi og skinu yfir honum eins og stjörnur. Hann fann nýjan fögnuð streyma um sig og armar hans hertu takið utan um hana.

„Nei . . . Bíddu . . . Gerðu það ekki . . . núna . . . Nei. Þú mátt ekki". Hún losaði sig úr faðmi hans og stóð á fætur.

„Þú ert að leika þér að mér?"

„Nei". Hún var aftur komin að arninum og farin að kasta nýjum sprekum á eldinn. Það sló rauðum bjarma á ljóst hörund hennar, og augu hennar urðu stór og órannsakanleg í flöktandi birtunni. Hann gekk til hennar.

„Móna, þú ert mér satt að segja ráðgáta".

„Er ég það?"

„Já".

Hún hvarf frá honum inn um dyrnar á baðherberginu. Þegar hún kom aftur var hún komin í slopp og hafði sett á sig skó. Hún stóð kyrr við gluggann með undarlegum svip,

eins og hún væri að hlusta á eitthvað langt í burtu. Hún vissi að hann elskaði hana, að líf hans mundi verða hennar. Hún sá í augum hans að hann þráði hana eins heitt og karlmaður getur þráð konu.

„En", sagði hún, – „en . . . "

„En hvað?" spurði hann.

„Þurfum við þá aldrei að skilja?"

„Nei, aldrei".

„Nú veit ég hvernig þú ert".

„Hvernig?"

„Þú ert eins og karlmaður á að vera".

„Hvernig á hann að vera?"

Hún gekk til hans, lyfti andliti sínu upp að andliti hans og varir þeirra mættust.

„Hann verður að trúa á ástina og hamingjuna. Ef hann gerir það ekki, þá vil ég heldur vera ein".

Hann fann brjóst hennar hvíla á sér, mjúk og þrýstin. Svo lagði hún armana um háls hans og hallaði höfði hans að brjósti sér.

„Móna. – Og ef ég spyrði þig hvort þú vildir giftast mér?"

„Spurðu mig".

„Á hvern hátt á ég að segja það?"

Hann losaði sig mjúklega úr faðmi hennar og gekk að skrifborðinu. Hún sá hann taka rautt blóm úr vasanum og koma með það til hennar.

Hún stóð grafkyrr meðan hann festi það í hár hennar, líkt og verið væri að krýna hana og það fór léttur skjálfti um líkama hennar, þegar hún leit á hann.

„Móna, ég elska þig".

„Stefán. Elskan mín".

Hún lagði höndina á brjóst hans og þessi undarlegu, seiðandi augu hvíldu á honum. Hjónaband, hugsaði hún. Það

eru þær einu réttu dyr, sem maður og kona eiga að ganga út um – ganga saman í gegnum – út í framtíðina.

„Komdu", sagði hann. – „Ég skal sýna þér . . . "

„Sýna mér hvað?"

„Sólina!"

Hann dró hana með sér út að glugganum, sem sneri í norður, og dró tjöldin alveg frá.

„Sjáðu", sagði hann.

Það var liðið undir miðnætti og þau horfðu út um gluggann. Allt norðrið var eins og logandi gull. Hann þrýsti hönd hennar og þau færðu sig þéttar saman.

Stór miðnætursólin nam við hafsbrún og lýsti upp furðuveröld, þar sem draumurinn rann saman við veruleikann, þar sem hið illa rann saman við hið góða og hið illa hvarf inn í það góða.

Aðeins við tvö, hugsaði hún, við tvö, miðnætursólin og þessi djúpi friður. Hann horfði á sólina hálfluktum augum.

„Að hverju ertu að leita?" spurði hún.

„Ég er að leita að græna geislanum í miðnætursólinni".

„Er það hamingjan?" spurði hún.

„Leita ekki allir að hamingjunni?"

„Það eru allir að leita einhvers". Hún snart vanga hans með fingurgómunum.

„Nú get ég séð hann líka", sagði hún.

„Hvern?"

„Græna geislann í miðnætursólinni".

HANN hafði klætt sig úr fötunum og lagzt niður á bjarnarfeldinn.

„Syfjaður, ljúflingur?" spurði hún.

„Komdu", sagði hann. „Komdu og leggstu hérna hjá mér".

Hún fór úr sloppnum og kom til hans nakin. Hann dró hana til sín og hún hjúfraði sig upp að honum.

Hann fann hvernig stæltur líkami hennar svignaði, þegar hann tók hana í faðm sér. Varir hennar opnuðust og andardráttur hennar varð örari á hálsi hans. Hann heyrði rödd hennar hvísla við eyra sér, mjúka og sefandi.

„Ég elska þig, Stefán. Ég elska þig".

Varir hans leituðu vara hennar og fingur hans hreyfðust mjúklega niður eftir hálsinum. Hjarta hennar fylltist fegin-leika og þakklæti. Það var eitthvað innra með henni, sem óx og óx og hlaut að sprengja af sér alla fjötra . . . hana sjálfa. Breyta henni í eitthvað nýtt, sem hún þekkti ekki. Hún sveigði hálsinn aftur, þangað til hann var orðinn eins og spenntur bogi og hann strauk hendi sinni eftir honum, upp og niður og kyssti hann.

Þau fóru höndum hvort um annað og skaut hennar opnaðist. Hann fann læri hennar lykjast um sig eins og hún vildi sjúga sig fasta. Hún vildi gefa eins mikið og hún átti og fá eins mikið og hún gat fengið. Nú fann hún það aftur . . . sterkara . . . Eitthvað, sem vaknaði djúpt í líkama hennar . . . eitthvað, sem varð að fá útrás. Það fóru um hana fagnaðarbylgjur, þegar hann hélt henni þannig áfram í faðmi sín-

um og það komu tár fram í augu hennar. Þau tvö runnu saman í eitt og urðu aðeins líkamir, sem gengu í bylgjum í hömlulausum leik. – Ekki ennþá, sagði hann við sjálfan sig ... Ekki ennþá. Hann reyndi að hafa stjórn á sér ... sigrast á veikleika sínum ... halda aftur af sér.

Hún gaf sig alla honum á vald ... fann að stund hinnar fullkomnu hamingju nálgaðist. Allur líkami hennar titraði í ósjálfræði ... Ég verð að bíða eftir henni, hugsaði hann. Láta hana koma með ... vera með.

Það brauzt ljúfsár stuna fram yfir varir hennar og hún sló hann aftur og aftur með skauti sínu í blygðunarlausri nautn.

„Hvað gerirðu við mig?“ hvíslaði hún.

„Móna, ástin mín“.

„Ég elska þig, Stefán ... elska þig ... elska þig“.

Kona, hugsaði hann. Það er ekkert til fegurra en kona ... Ekkert yndislegra en kona ... mjúk og örlát ... eins og sjálf móðir jörð ... opnar skaut sitt fyrir vorinu ... tekur og gefur aftur ... gjafir haustsins ... hinar dýrmætu gjafir haustsins.

„Ljúflingur ... “ hvíslaði hún. „Ég vissi ekki að það mundi vera ... eins og það var“.

Hún lagði höfuð sitt á handlegg hans. – Aðeins við tvö, hugsaði hún. Við tvö, sumarnóttin og þessi djúpi friður“.

Hann kyssti lokuð augu hennar og gældi við mjúkt, þykkt hár hennar. Að elska konu, hugsaði hann. Að elska konu ... Er það nokkuð annað, sem gerir manninn að manni?

Hann vaknaði við rödd hennar. Hún lá nakin við hlið hans í rúminu og hafði lagt hönd sína við brjóst hans.

„Stefán. Elskarðu mig?“ Það var ákafi næstum kvíði í rödd hennar.

„Já".

„Hvað elskar þú mest?"

Hann virti fyrir sér stæltan líkama hennar, þessa fíngerðu bylgju á kvið hennar, á silkimjúkt hárið og augu hennar, sem voru blá og heið eins og júnídagur.

„Ég elska þig alla".

Hún horfði á hann rannsakandi. Horfði í gegnum hann og var farin að brosa aftur.

„Ég vildi óska að við þyrftum aldrei að fara héðan".

„Hvað sem skeður Móna, þá tilheyrum við hvort öðru".

„Ég er svo hamingjusöm".

Hann kyssti hana léttum kossi.

„Það er ég, vina mín sem hef fengið allt það bezta". Hann kyssti hana aftur. – „Þig. Þig elskan mín".

„Það er ekki til betri maður en þú í öllum heiminum".

„Ég er aðeins venjulegur maður, sem á sér enga fortíð, – og varla nokkra framtíð heldur".

„Ég skil ekki hvers vegna þú segir þetta Stefán. Þú getur gert hvað sem þú vilt. Við getum farið héðan?"

„Hvert?"

„Hvert sem vera skal". – Á heimsenda, sögðu augu hennar.

„Ég er bundinn þessum stað", sagði hann. Hér er allt, sem mér þykir vænt um. Og hér er mín þarfnast".

„Þú ert frjáls maður".

„Já?"

„Hvers vegna þá að vera að búa til einhver vandamál?"

„Vandamál eru hluti mannlífsins".

Þetta er ekki svona auðvelt, hugsaði hann . . . Slíta sig upp af rót sinni . . . berast áfram án markmiðs . . . kannski án vonar. Hann heyrði aftur rödd hennar mjúka og sefjandi.

„Við getum gert allt sem við viljum, þú og ég. – Farið saman til Reykjavíkur. – Getum við það ekki?"

Hann horfði þögull á stúlkuna þar sem hún lá við hlið hans í rúminu og augu þeirra mættust.

„Nei, Móna. Ég get það ekki. Ekki núna".

„Ég vil aðeins vera hjá þér Stefán, vera þín, elska þig og gera þig hamingjusaman".

„Nei, ég get ekki yfirgefið . . . "

„Við þurfum víst ekki að ákveða neitt núna". Hún varð þreytuleg eins og orð hennar hefðu tæmt hana öllu lífi.

„Móna".

„Já".

„Þú elskar hann ekki ennþá?"

„Hvern?"

„Þennan sem þú sagðist hafa elskað".

„Ég man ekki einu sinni lengur, hvernig hann lítur út".

Stefán teygði letilega úr sér og spurði.

„Hvernig endaði þetta annars með magisterinn og Aldísi?"

„Það varð ekkert meira. – Þau sættust aftur, – Þorvaldur og Aldís. Þau eru nýfarin norður. – Og líta út eins og nýtrúlofuð".

„Og magisterinn?"

„Hann er einn".

„Magisterinn er undarlegur maður", sagði Stefán.

„Hann er ekki góður maður", sagði Móna.

„Allt sem við skiljum er gott".

Móna hló.

„En það er erfitt að skilja sumt fólk".

„Já".

„Skilur þú magisterinn?" spurði Móna.

„Já, já, ég held það".

„Hann lifir í ímynduðum heimi", sagði Móna.

„Menn sem sjá ekkert nema staðreyndir eru engu betur settir".

„Þeir eru þó raunsæismenn?" spurði Móna.

„Þeir eru ekki raunsæismenn", fullyrti Stefán. „Staðreyndir eru ekki sama og sannleikur, því að sannleikurinn er alltaf skáldskapur, – góður skáldskapur".

Móna horfði á hann vantrúuð.

„Þú talar stundum í gátum".

„Nei", sagði Stefán. „Þetta er engin þversögn. Þetta er meira að segja mjög einfalt. Sannleikurinn eins og skáldskapurinn er ævinlega bæði staðreyndir og hugarflug, – innsæi, ef þú vilt kalla það því nafni. Þeir sem sjá aðeins annað hvort lifa í óraunverulegum heimi, – líka þeir sem sjá ekkert nema staðreyndir".

Hún hlustaði á hann eins og kona hlustar á barn, og brosti elskulega. Síðan sagði hún.

„Manstu eftir leikkonunni Anítu Berg. – Það kom í blöðunum?"

„Já, ég man það. Hún er dáin?"

„Það er sagt að hún hafi framið sjálfsmorð", sagði Móna hugsandi á svip.

„En hvers vegna? Lífið virtist leika við hana. Hafði hún ekki allt, fegurð, frægð, fé?"

„Hún var viðhald magisterins", sagði Móna.

„En hvað var þetta sem kom fyrir hana?"

Móna strauk hendinni yfir augu sér.

„Ég veit það ekki. Ég veit ekki hvað kom fyrir hana, en það var hann sem gerði það, – hvað sem það var".

„Magisterinn?" spurði Stefán vantrúaður.

„Já, hann".

„Hvernig veiztu það?"

„Ég er viss um það".

Stefán hló.

„Kvenfólk ímyndar sér svo margt".

Móna hristi höfuðið.

„Það er engin ímyndun. Hún komst að þessu með hann og Aldísi. Ég hugsa að það hafi verið þess vegna".

„Ég vona að það komist aldrei neinn upp á milli okkar, Móna".

Hún lagði hönd á hné hans.

„Þú ert viss um, að þú hafir ekki hitt neina síðan, – síðan við skildum?"

„Nei, ekki ég. En þú?" spurði hann og reyndi að tala eins og hann kærði sig kollóttan. „Hefur þú fengið margar heimsóknir?"

Það dimmdi yfir svip hennar og hún hikaði örlítið. Átti hún að segja honum frá þessu með Alfgeir. Hún ákvað að gera það ekki. Það var marklaust, en gæti vakið hjá honum grunsemdir.

„Stefán", sagði hún blíðlega. „Svona máttu aldrei spyrja. Þú veizt að þú ert sá eini, sem ég elska". Hún faðmaði hann að sér og þrýsti brjóstum sínum og fótum þétt upp að honum eins og í örvæntingu.

„Þetta er undarlegt", andvarpaði hún.

„Hvað?"

„Að lifa svona einangraður frá heiminum".

Hann hugleiddi þetta um stund og sagði svo eins og við sjálfan sig.

„Hvað er heimurinn, vina mín?"

„Við. – Við erum heimurinn".

Stefán brosti. Samhengi í hugsun var ekki hin sterka hlið konunnar, en það gerði hana aðeins ennþá yndislegri. Hann fann ilm hennar og mjúkleika hennar í vitum sér og í líkama sínum. Augu hennar voru blíð og varir hennar dimmrauðar. Hún lagðist ofan á hann, lyfti sér svo upp og lét brjóst sín aðeins snerta bringu hans.

„Þú gætir farið og . . . Gætir þú það ekki, elskan?"

„Hvað?"

„Fengið vinnu í Reykjavík?"

„Það er enginn maður hamingjusamur, nema hann hafi einhverju hlutverki að gegna, Móna. – Hann verður að trúa á köllun sína, sama hver hún er".

Undir niðri fann hann á þessu augnabliki, að þetta voru aðeins orð. Hann mundi gera allt sem hún bæði hann um. Hvernig stendur á því, spurði hann sjálfan sig, að kona getur fengið mann til að breyta fastákveðnum fyrirætlunum.

„Kona", sagði Móna, „er hamingjusöm á meðan hún er elskuð. Og ég skal vera þér allt". Hún lagðist aftur niður við hlið hans.

„Ég veit ekki, hvað ég ætti að gera. Áður en ég hitti þig hafði ég hugsað mér að vera hér, – einn".

„Já, það var áður en við þekktum hvort annað, – svona vel".

„Það er orðið erfitt að vita, hvað er hið rétta".

„Eru ekki boðorðin það rétta?" spurði hún glettnislega.

„Jú boðorðin eru ágæt, en menn ættu ekki að skrifa þau á steintöflur".

„Ætlarðu þá að koma með mér suður?"

Hann varð þögull um stund.

„Ég býst við", sagði hann svo, „að ég gæti fengið þar einhverja vinnu, á skrifstofu. – Kannski við eitthvert blað".

„Stefán. Veiztu hvað þú ert að segja?" Hún kyssti hann innilega.

„Ég meina það. Ég meina það", sagði Stefán eins og til að sannfæra sjálfan sig.

„Stefán. Maðurinn minn. Þetta er dagur sem ég mun aldrei gleyma".

Kannski hafði Móna rétt fyrir sér, hugsaði Stefán. Litlir

lækir verða að renna út í fljótið ... hinn breiða farveg mannlífsins ... Það lágu allar leiðir til Reykjavíkur ... Það var þar sem allt gerðist ... Hvers vegna skyldi hann ekki einnig renna saman við þetta volduga fljót, falla út í þennan breiða farveg borgarlífsins? Móna hafði aftur lagst ofan á hann og hann heyrði seiðandi rödd hennar við eyra sér.

„Stefán. Ljúflingurinn minn. Það verður allt nýtt á morgun".

Hálfum mánuði seinna fóru þau saman til Reykjavíkur. – Jóni Orra hafði í fyrstu ekki fallið þetta vel í geð, en svo hafði hann skipt um skoðun. Ungt fólk verður að fá að ráða sér sjálft. Kannski mundu þau seinna koma til hans vestur. Hann vonaði það. Hann hafði ekki enn varpað frá sér þeirri von, að Stefán tæki við skólanum af sér, þegar hans tími væri kominn. Það gat margt breytzt á fimm árum. Hvað vissu menn um framtíð sína?

Stefán hafði nú næstum lokið við skáldsöguna og hann ákvað með sjálfum sér að fara með hana til magisterins og láta hann dæma um hana.

Hann gat ekki neitað því að hann hlakkaði til að fara með Mónu til Reykjavíkur. – Þrátt fyrir allt varð því ekki neitað, að Reykjavík var borg hinna stóru tækifæra. – Og meðan hann hafði Mónu sér við hlið þurfti hann ekkert að óttast ... Áfram ... Nútímann er aðeins að finna í borginni.

STEFÁN og Móna sátu inni í stofunni hjá Alexander og drukku kaffi, sem Hrefna hafði fært þeim.

Þau voru búin að vera tvo daga í Reykjavík, og höfðu notað þá til að koma sér fyrir. Móna hafði flutt úr íbúð sinni og þau höfðu fundið rúmgóða íbúð í austurborginni með fallegu útsýni yfir sundin og eyjarnar.

Þau höfðu verið önnum kafin við að búa íbúðina húsgögnum, sem Móna hafði aðallega valið. – Og þau voru hamingjusöm. Í dag hafði Hrefna hringt í þau og beðið þau að líta inn um eftirmiðdaginn og fá sér kaffisopa. Hrefna hafði verið óvenju glaðleg í símanum og Móna hafði hana grunaða um að búa yfir einhverju leyndarmáli, – eða ráðagerð.

Móðir hennar hafði að vísu ekki sagt neitt, aðeins beðið þau að líta inn. – En hún var næstum viss um, að Alexander og Hrefna hefðu setið á ráðstefnu til að ræða um hana og Stefán, – framtíð þeirra. Hún var forvitin og spurði sjálfa sig, að hvaða niðurstöðu þau hefðu komizt.

Hún vissi, að Stefán var helzt að hugsa um að reyna að fá sér atvinnu við eitthvert dagblaðanna. Öll ritstörf virtust freista hans. Hann hafði strax fyrsta daginn hringt upp vin sinn magisterinn til að segja honum frá handritinu og biðja hann að lesa það yfir. Sama dag hafði hann farið með það til hans.

En Móna vissi að foreldrar hennar mundu reyna að beina honum inn á aðrar brautir, – betri. Væri ekki sennilegast, að

faðir hennar vildi ræða við Stefán um atvinnu? Hann mundi sennilega bjóða honum að starfa við eitthvert af fyrirtækjum sínum . . . Og væri það ekki það bezta? Móna hafði sjálf unnið við hótel föður síns og nú orðið hvíldi reksturinn mikið á hennar herðum.

Stefán . . . Mundi hann ekki sóma sér vel í heildsölunni? Hann mundi geta annazt bréfaskriftir . . . Hún ákvað að láta þá vera tvo eina.

Móna lauk úr bollanum og stóð á fætur. Hún brosti til þeirra Alexanders og Stefáns og afsakaði sig, – sagðist þurfa að hjálpa móður sinni frammi í eldhúsi. Hún sá það líka á svip föður hennar, að hann var þungt hugsi yfir einhverju. Henni varð allt í einu mjög hlýtt til hans, og hún lét eftir þeirri löngun sinni að ganga til hans og kyssa hann á kinnina. Síðan gekk hún með þokkafullum hreyfingum út úr stofunni. Þeir horfðu báðir á eftir henni þegjandi. Það lék enn undarlegt bros um varir hennar, þegar hún lokaði hurðinni á eftir sér.

Það varð þögn um stund, eftir að Móna var farin út úr stofunni, en loks sagði Alexander.

„Mig hefur lengi langað til að tala við þig, Stefán, – í fullkominni hreinskilni".

„Já". Stefán leit á hann spyrjandi.

„Ég hef verið að hugsa um framtíð þína . . . ykkar Mónu", hélt Alexander áfram. „Hefur þú nokkuð hugsað um hvað þú viljir gera?"

„Nei, ekki beinlínis", sagði Stefán efablandinn. Þetta var nákvæmlega það sama, sem faðir hans hafði spurt hann um.

„En þú hefur þó hugsað þér að setjast að hér í borginni?" spurði Alexander áfram.

„Já . . . Já, sennilega". Stefán varð gramur við sjálfan sig. Hvers vegna gat hann ekki verið ákveðinn. Hann herti sig upp og leit beint í augu Alexanders.

„Ég hef hugsað mér að stunda ritstörf".

Alexander horfði lengi á hann þegjandi. Síðan sagði hann:

„Það hafa allir góð áform, – en góð áform geta engu að síður verið hættuleg. – Ertu viss um að það sé í raun og veru það, sem þig langar til að gera?"

„Já", sagði Stefán. „Ég ætla að verða rithöfundur".

Alexander ræskti sig og horfði aftur þögull á unga manninn. Hann elskaði Mónu. Í augum Alexanders var hún fremur barn en kona, barn, sem þurfti að vernda. En þótt hann elskaði dóttur sína hafði hann líka alltaf langað til að eignast son.

Það skipti Alexander miklu máli, að Stefán gæti skilið, hvað var honum sjálfum fyrir beztu, – honum og Mónu. Alexander óttaðist innst inni allt náið samband við fólk . . . nema hann ætti það . . . Annað hvort verður maður, fannst honum, að eiga fólk eða útiloka það alveg. Hitt var bein ógnun við öryggið . . . Það var eðlilegt að ungir menn gengju með undarlegar hugmyndir og reistu sér skýjaborgir, – en hann vonaði að Stefán hætti þessum skáldagrillum, – þær mundu aldrei geta orðið til neins góðs, og það hlyti hann sjálfur að skilja. Hann varð að gera sitt bezta til að sannfæra hann um það . . . Það var raunar aðeins tvennt, sem mundi geta sannfært hann . . . Móna og . . . Alexander brosti með sjálfum sér. Já . . . Einmitt!

Alexander hafði gengið út að glugganum og horfði upp til Fellsins. Stefán stóð einnig á fætur. Alexander sneri sér að honum.

„Ég held, Stefán", sagði hann, „að við ættum báðir að fá okkur sæti aftur".

Þeir settust. Alexander kveikti sér í vindli og hélt svo áfram:

„Það verður ekkert úr manni, sem ætlar sér að berjast á bersvæði – án bakhjarls. Þú ættir að ganga í Flokkinn". Bezt, hugsaði Alexander, að fara krókaleiðir að markinu. Það er óskynsamlegt að andmæla manni, sem maður ætlar að sannfæra.

Stefán fitlaði við hálsbindið.

„Væri það heiðarlegt", spurði hann, „að ganga í flokk án sannfæringar?"

Alexander lyfti brúnum háðslega.

„Heiðarleikinn er ekki á háu kaupi í þessari borg".

„Nei", sagði Stefán og brosti út í annað munnvikið. „Hann er það víst ekki".

„Nei, listamenn verða að eiga bakhjarl, – stjórnmálamenn".

Stefán stundi þungan hið innra með sjálfum sér, en reyndi að þvinga sig til að brosa.

„Og þess vegna á rithöfundur", spurði Stefán, „að lifa eins og páfugl í búri? – Láta stjórnmálamanninn gefa sér brauðmola, – og syngja fyrir hann á eftir".

Alexander hló.

„Er það ekki einmitt þetta, sem listamenn gera?"

„Ekki allir".

Alexander tottaði vindilinn og horfði út um gluggann.

„Menn verða annað hvort að sigra óvin sinn eða ganga í lið með honum. Þetta er ekki frumlegt, en það er satt. Aðalatriðið er að hafa eitthvert gagn af fólki. Þekkja hina réttu menn".

„Er það þess virði?"

Það var meðaumkun í rödd Alexanders.

„Ég vil aðeins hjálpa þér. Ef þú vilt ekki ganga í Flokkinn, máttu mín vegna gerast uppreisnarmaður, kommúnisti.

Skiptir engu máli. Þeir gera mikið fyrir sína menn, er okkur sagt. Aðalatriðið er að eiga góðan bakhjarl.

Stefán gat ekki varizt brosi.

„Er ekki orðið nokkuð gamaldags", sagði hann, „að horfa á alla hluti með rauðu gleraugunum hans Marx gamla?"

Alexander tróð vindlinum út í annað munnvikið og tuggði hann viðstöðulaust. Hann brosti ekki á móti.

„Þú skilur þetta ekki", sagði hann. „Það eru ekki skoðanirnar, sem skipta neinu máli, – heldur markaðurinn. Það, sem enginn vill kaupa, er einskis virði. Málið er svona einfalt. Við verðum að hafa vakandi auga á markaðinum, vita, hvað fólkið vill hverju sinni. Sá, sem grefur sig í fortíðinni, verður skilinn eftir eins og hvert annað nátttröll".

Stefán hætti að brosa. Var það ekki einmitt þetta, sem magisterinn hafði kallað hann, nátttröll. Bæði Alexander og magisterinn þóttust menn hins nýja tíma. Þeir miðuðu báðir á sama fuglinn, – hvor á sinn hátt.

„Ég hefði haldið", sagði Stefán, „að listamenn ætti að dæma eftir hæfileikum hans".

Alexander andvarpaði.

„Þú hlýtur að skilja, að hæfileikar út af fyrir sig, skipta ekki máli. – Það er alveg sama hvað skór eru vel búnir til, ef þeir eru tegund, sem er orðin úrelt og enginn vill kaupa lengur".

„Það er rétt, þegar um skó er að ræða", – viðurkenndi Sefán.

Það var sigurhreimur í rödd fésýslumannsins.

„En það gegnir alveg sama máli", sagði hann, „um bækur og hugmyndir, ljóð eða málverk. Það, sem enginn vill kaupa, er einskis virði".

„Nei. Það er ekki sama", sagði Sefán stuttaralega.

„Nei . . . ? Er þér ekki orðið þetta ljóst ennþá?"

„Nei", endurtók Stefán ákveðinn og horfði beint framan í Alexander. „Þegar markaðurinn verður mælikvarðinn, breytist listamaðurinn í leikara. Hann verður trúður".

Alexander lyfti brúnum og andvarpaði aftur.

„Það eru kannski allir trúðar, en markaðurinn er eini hugsanlegi mælikvarðinn. Þeir, sem skilja það ekki, skilja ekki staðreyndir. Þeir láta óskhyggjuna ráða og verða auðnuleysingjar".

Stefán íhugaði þetta um stund og spurði svo:

„Hvernig er hægt að vita hvað er gott og rétt, ef sannleikurinn og gæðin breytast alltaf eftir markaðinum?"

„Humm", sagði Alexander.

„Nei", hélt Stefán áfram. „Listamaðurinn og verk hans verða að vera eitt. Hann verður að vera sannur, trúr sinni innri köllun. Annars verður hann trúður".

Augu Alexanders urðu skyndilega gömul og þreytt.

„Og hvað um okkur?" spurði hann. „Hvað um okkur hina, sem aldrei höfum séð neitt ljós á leiðinni til Damaskus?"

Stefán horfði niður fyrir sig og þagði.

„Auðvitað verðum við oft að leika", hélt Alexander áfram. „En það, sem skiptir máli, er að vera ekki að brjóta heilann um tilveruna, heldur að komast áfram í lífinu, – vera samkeppnishæfur".

„Með því að fylgja tízkunni?" spurði Stefán.

„Þú getur kallað það tízku ef þér sýnist", sagði Alexander.

Stefán hristi höfuðið.

„Dægurflugur skapa ekki sögu þessa lands. Menn verða að hafa ákveðnar skoðanir".

Alexander baðaði út höndunum og brosti. Honum virtist skemmt.

„Nútímamaður hefur ekki skoðanir", sagði hann. – „Hann tekur aðeins ákvarðanir".

„Þá hef ég fæðzt of seint – eða of snemma".

„Of seint, vinur minn", sagði Alexander brosandi. „Það er ekki hægt að færa klukkuna aftur á bak".

Stefán kyngdi munnvatni.

„Það er satt", sagði hann. „Tízkan krefst þess, að við losum okkur við fortíðina. En sá, sem vill skapa, – vera raunverulega á undan, hann verður að eiga fortíðina líka. Hann verður að hafa einhverja rót".

Alexander stóð upp og settist á borðröndina.

„Við eigum meira en nóg af fortíð, – auk þess er þetta heilög einfeldni", sagði hann. „Einfeldni og töluverður hégómaskapur líka. Ganga á undan! Það er allt annað en að komast áfram. Ganga á undan! Það er ekkert til heimskulegra á okkar tímum".

Stefán horfði á hann ringlaður.

„Hvernig eiga menn að komast vel áfram, ef þeir skara ekki fram úr á einhvern hátt?"

Alexander varð á svipinn eins og maður, sem er að útskýra flókin vísindi fyrir barni.

„En kæri vinur", sagði hann. „Þú talar alveg eins og barn, – barnalega fremur en barnslega. Þetta tvennt er sitt hvað. Aðeins meðalmenn komast vel áfram".

„Meðalmenn?"

Alexander hafði ekki lokið máli sínu.

„Já, meðalmenn, vinur minn. Á okkar tímum reyna allir sæmilega skynsamir menn að vera meðalmenn. – Sá, sem er of lítill, er hafður að ginningarfífli, og það er troðið á honum. Sá, sem er of stór, vekur á sér of mikla athygli. Hann eignast aðeins öfundarmenn og vekur upp hatur og grimmd. – Að ganga á undan, eins og þú kallar það, er dauðadómur. Á okkar tímum verða raunverulegir valdamenn

að vera óþekktir menn". Hann þagnaði og leit skáhallt á Stefán.

„Á þá allt að vera sama meðalmennskan, flatneskjan og lágkúran?" spurði Stefán gremjulega. Hann var ekki öruggur með sig lengur.

„Þetta eru bara gömul og úrelt slagorð, vinur minn. Líttu á lífið eins og það er".

„Ég reyni það".

„Mundirðu þá segja að framámenn og menningarvitar væru vinsælir hér í Reykjavík?"

„Það er enginn vinsæll í Reykjavík".

„Enginn, – nema trúðarnir eins og þú kallar þá. Mennirnir, sem vita, hvað fólkið vill og láta það fá það, – fyrir borgun".

„Eru það ekki vafasamar vinsældir?"

„Nei. Þetta er hinn eini grundvöllur vinsælda. Menn eins og dýr eru vinir þínir, ef þú hefur eitthvað að gefa þeim. – Og þú ert vinur þeirra, sem hafa eitthvað að gefa þér".

Alexander settist aftur í stólinn og drap í vindlinum.

„Getur maðurinn ekki verið vinur annarra manna aðeins vegna þess, að þeir þarfnast hans?" spurði Stefán.

Alexander spratt aftur á fætur.

„Þarna komstu með það. Rétt einu sinni enn. Að frelsa heiminn. Nýr Messías".

„Er ekki eðlilegt, að menn vilji láta gott af sér leiða?" vildi Stefán vita.

„Það er ekki til neins að vera að hafa áhyggjur út af öllum hlutum, eða reyna að breyta veröldinni", útskýrði Alexander.

„Og þess vegna eigum við ekkert að gera fyrir annað fólk?"

Alexander fékk sér aftur sæti. Hann beygði sig fram í stólnum, höfuðið yfir hnjánum.

„Fólk. Fólk. Hvers vegna ekki að láta allt þetta fólk í friði. Það ræður fram úr sínum eigin va damálum. Þarf ekkert á okkur að halda".

„Við verðum að berjast gegn hinu illa. Hvernig getum við látið allt afskiptalaust?"

Alexander seildist með hægð eftir nýjum vindli.

„Og til hvers er svo sú barátta? Ég get sagt þér það vinur minn, að fólk, sem ætlar sér að frelsa þennan heim ætti að leita sér lækninga".

Augu Stefáns urðu fjarræn og kuldaleg.

„Ég held", sagði hann, „að það séu hinir, sem ættu að fara og leita sér lækningar".

„Það er ekkert að þeim", skaut Alexander inn í.

En Stefán hélt áfram:

„Það er ekki til nein skepna, sem er bara skepna. Hún er líka óaðskiljanlegur hluti af kynstofni".

Alexander hló.

„Og þetta á væntanlega að sanna, að okkur beri skylda til að frelsa heiminn?"

„Ég á aðeins við", sagði Stefán, „að það að vilja bæta heiminn er að vera heilbrigður. Ef mannkynið bíður ósigur sem heild, hvað verður þá um okkur sem einstaklinga? Það er öllum einstaklingum eiginlegt að vilja vinna fyrir heildina. Annars væri engin framþróun kannski ekkert líf einu sinni".

„Ég hef heyrt þetta allt áður, ungi maður. En mér geðjast ekki að því. Það er of líkt faðmi Abrahams".

Stefán fann allt í einu til samúðar með þessum manni. Þrátt fyrir allt var hann aðeins hræddur. Óttaðist lífið. Lífsviðhorf hans var í eðli sínu neikvæður lífsflótti, uppgjöf. Kannski var þetta einkenni kynslóðarinnar. – Eftirstríðskynslóð kölluðu þeir hana. Honum óx kjarkur við þessa hugsun.

„Segðu mér, Alexander", sagði hann, „að hverju geðjast þér þá. Hvað er það, sem þú vilt?"

Alexander var aftur farinn að horfa út um gluggann.

„Ef þú átt við hugsjónir", sagði hann rólega, „þá eru þær löngu orðnar að engu. Ég er hræddur um að allar hugsjónablöðrur okkar hafi sprungið í síðasta stríði. Mín kynslóð hefur séð of mikið, drengur minn, til að trúa á þess háttar. Það er satt, að á okkar tímum er erfitt að finna lífinu tilgang. En þá verðum við að komast af án hans".

„Ertu viss um", spurði Stefán, „að kynslóð þín hafi ekki ruglast í ríminu, – eða villzt á einhverjum krossgötum?"

„Þvert á móti. Við höfum átt okkur ratvísan foringja".

„Svo ratvísan, að við eigum bráðum ekkert þjóðerni og ekkert land lengur – til að selja". Stefán var allt í einu farinn að tala eins og gamli maðurinn, faðir hans.

Alexander var enn staðinn á fætur. Hann stanzaði fyrir framan stól Stefáns og horfði á hann næstum reiðilega.

„Við höfum ekki selt neitt", sagði hann. – „Leigt í hæsta lagi. Allar þessar deilur eru hættulegar. Okkar eina von er að vera samhent þjóð".

„Já, samhent þjóð, í landi, sem hvorki er til sölu né leigu".

Alexander leit til hans háðslega.

„Og þér geðjast væntanlega ekki að því að eignast peninga?"

Stefán stóð nú einnig á fætur.

„Ekki Júdasarpeninga", sagði hann fastmæltur.

Alexander svaraði ekki strax. Hann horfði á Stefán hugsandi á svip. Svo lagði hann annan handlegginn um herðar hans sefandi og sagði eins og við sjálfan sig:

„Júdas er talsvert algengt nafn, vinur minn. Talsvert algengt nafn. En nú skulum við hætta öllum stælum". Alexander hélt áfram: „Þú ert eins og ungum mönnum ber að

vera. Ég veit að við eigum eftir að verða góðir vinir. Þú hefur þínar eigin skoðanir á hlutunum. Gott. Það er eins og vera ber. En það er eitt, sem ég á ósagt við þig ennþá. Ég þarf að sýna þér svolítið, svolítið, sem ég hef engum sýnt áður". – Hann þagnaði og kveikti aftur í vindlinum. „Þú veizt", hélt hann áfram, „að mér finnst vænna um Mónu en nokkuð annað og ég vil að þið eigið gott líf. – Við skulum koma". Hann benti Stefáni að fylgja sér eftir og þeir fóru inn á einkaskrifstofu Alexanders. „Þetta er mitt innsta vígi", sagði hann, „og hingað kemur aldrei neinn".

Þetta var lítið herbergi og ekki búið neinum húsgögnum nema gömlu skrifborði úr eik og tveimur leðurstólum. Alexander staðnæmdist fyrir framan þunga stálhurð, sem var eins og múruð í vegginn. Hann hikaði eins og hann væri að rifja eitthvað upp og fór síðan að fást við lásinn. Þetta virtist vera flókinn lás, en loks opnaðist hann og hurðin lagðist þyngslalega upp að veggnum.

„Ég hef alltaf sagt, að öryggi sé fyrir öllu", sagði Alexander og kveikti ljós inni í skápnum. Stefáni til undrunar kom þá í ljós önnur stálhurð að eldtraustum peningaskáp.

„Hér geymi ég það fé, sem ekki er fast í fyrirtækjunum. Og þú skalt ekki halda, að það hafi komið fyrirhafnarlaust upp í hendurnar á mér. Nei, vinur, það hefur tekið mig langan tíma og harða baráttu að safna þessu fé".

Stefán aðeins kinkaði kolli.

Alexander opnaði innri dyrnar og dró með erfiðismunum fram járnkassa, sem hann slengdi á borðið.

„Seztu!"

Stefán fékk sér sæti þegjandi og starði á kassann.

„Veiztu, hvað ég fékk í kaup, þegar ég kom fyrst til Reykjavíkur?" spurði Alexander, settist andspænis Stefáni og lagði hönd á kassann, sem lá á milli þeirra.

Stefán hristi höfuðið.

„Þrjátíu krónur á viku", þrumaði Alexander og spratt svo snögglega á fætur að það brast hátt í stólnum líkt og einnig hann vildi andmæla þessari fjarstæðu, þessari smán, sem húsbóndi hans hafði eitt sinn orðið að þola.

„Og veiztu hvað ég hef núna?" spurði hann næstum hvíslandi.

„Nei".

„Það skiptir heldur ekki máli, en það er töluvert meira, töluvert mikið meira", Alexander hló glaðklakkalega og tók upp lykil, sem hann bar að skránni.

„Það varðar engan um, hvernig ég hef fengið þessa peninga, – þetta eru mínir peningar, mín réttmæta eign, og ég get gert við þá það, sem mér sýnist". Hann lyfti lokinu á kassanum og hvolfdi öllu innihaldi hans á borðið milli þeirra. Alexander klappaði ofan á háan bunka af snyrtilega brotnum blöðum, sem lágu fyrir framan Stefán.

„Þetta eru verðbréf". Alexander leit á Stefán stoltu, föðurlegu augnaráði.

„Yfir sjötíu milljónir", hvíslaði hann. „Gulltryggð, – að mestu með fasteignum hér á Nesinu". Það var Alexander, sem fyrst hafði keypt þetta land og látið skipuleggja það í borgarhverfi. Sumar lóðirnar hafði hann síðan selt aftur. Á nokkrum hafði hann látið byggja sjálfur, og selt sum húsin með góðum hagnaði, önnur átti hann enn sjálfur.

Stefán leit á hann vantrúaður.

„Sjötíu milljónir? – Hver á þau?" stamaði hann.

„Ég, – ég var búinn að segja þér það áður. Þetta er mitt fé. Og ég hef sýnt þér það í dag, til þess að þú vitir, að þetta er einnig þitt fé. Þú ert orðinn fullorðinn maður. Ég vil að þú skiljir hvað þú getur gert, hvað þetta þýðir fyrir ykkur Mónu. Þið getið keypt ykkur það, sem ykkur lystir.

Þú hefur séð að ég á nóg fé til að gefa ykkur Mónu hús og bíl. – Nóga peninga til þess að þið verðið sjálfstæð. Ég vil að þið verðið sjálfstæð, – einnig gagnvart mér. Ég vona, að þið búið nálægt okkur, og að við getum oft hitzt, – frjáls og óháð. Það er ágætt að gerast einsetumaður úti á landsbyggðinni til að semja skáldsögu, – en er ekki ennþá betra að lifa lífinu? Þú getur komið inn í fyrirtækin. Hver veit nema þú eigir eftir að taka við stjórninni, þegar þar að kemur. – Nú á tímum getur ekkert veitt manni meiri gleði en vel rekin kaupsýsla, – og það, sem henni fylgir".

Alexander reisti sig í sætinu og hélt áfram:

„Það er eins og að sitja við grænt borð – tapa og vinna, – stórt. Þetta er æsandi líf og það sleppir engum, sem það nær tökum á. – Ég hef komið með þig hingað, Stefán, til þess að þú eigir auðveldara með að velja. Héðan í frá getur þú betur gert þér grein fyrir, hvað þú getur gert og borið það svo saman við hlutskipti manna, sem gera líf sitt að skrítlu, – sem enginn einu sinni hlær að".

ÞAÐ var komið fram yfir hádegi, þegar Ólafur Hreinn Andrésson, magister í kínverskum fræðum, vaknaði. Hann hafði lagzt upp í rúmið án þess að fara úr fötunum, nema hvað hann hafði sparkað af sér skónum. Það var óbragð í munni hans og höfuðið eins og það væri að klofna. Ólafur Hreinn klæddi sig úr og fór í heitt bað. Hann sá í speglinum, þegar hann var að raka sig, að hann var bólginn og þrútinn í andliti, – það mundi jafna sig fljótt. Hann hresstist við baðið, og þegar hann hafði fengið sér kaffi og kódípillur, hvarf höfuðverkurinn smám saman og honum fór að líða betur.

Hann sótti fram dagblöðin og fletti þeim. – Í einu þeirra var grein eftir hann sjálfan, – bókmenntagagnrýni. – Hann las greinina aftur sér til ánægju.

Á borðinu lágu nokkrar bækur, sem hann hafði fengið sendar frá blaðinu til að skrifa um. Hann fór að athuga þær, og skap hans batnaði. Það voru þarna að vísu nokkrar, sem honum var skylt að hrósa vegna flokksins eða útgefandans. En það var tilhugsunin um hinar, sem bætti skap hans. Sumar bækur þurfti ekki að lesa. Nafn höfundarins var nóg. Þrátt fyrir allan tómleika og tilgangsleysi var ekki sem verst að lifa. Þrátt fyrir allt þetta endalausa ranglæti, sem ég hef verið beittur, hugsaði hann, . . . eflaust vegna skoðana minna . . . þá er hægt að jafna um þá aftur . . .

Magisterinn gekk út á svalirnar. Hús hans stóð við Voginn, í vesturbænum niður við sjóinn. Það var komið fagurt veður.

Hann teygði úr sér og horfði ólundarlega yfir í Nesið ... „Yfirstéttarhyski", tautaði hann hálfhátt, „eintómar blóðsugur ... og hvað skyldu þær halda lengi áfram þessari iðju sinni, þessum blóðtökum ... ? Þangað til þær springa", svaraði hann sjálfum sér og brosti ánægjulega ... Sá dagur mundi koma ...

Hann hafði sjálfur komizt sæmilega af ,hafði ekki yfir miklu að kvarta. Hann hafði alltaf haft góðar tekjur, eftir að hann fór að vinna fyrir ... Það kom öðrum ekki við fyrir hverja hann vann ... Það var hans mál ... Hann var samt enginn auðkýfingur ... Ekki eins og þeir. Hann hélt áfram að horfa á Nesið. En hann hafði þó getað byggt þetta hús ... Og menn þurfa að hafa góð sambönd til að geta fengið lóðir hér á þessum stað ... Neðst niður við sjóinn. Hann hafði byggt á réttum tíma, og verðbólgan hafði gert hann ríkari.

Magisterinn fór að hugsa um Aldísi. Hann saknaði hennar núna. Hafði hann ekki verið of fljótfær ... Bara að Aldís hefði ekki farið að tala um hjónaband eða það, sem jafngilti hjónabandi ... Hún hafði raunverulega ætlað að neyða hann til að biðja hennar ... kvænast henni ... Hún hafði beðið hann að bjarga sér frá Þorvaldi ... taka hana heim með sér ... Þorvaldur hefði átt fyrir því. – Þetta hafði allt litið öðru vísi út ... í hríðinni ... Nú sá hann eftir að hafa ekki tekið hana með sér ... Hann hafði leikið taflið skakkt ... Það var engin ástæða til að kvænast henni ... Hann hefði átt að taka hana með ... hafa hana hjá sér svolítinn tíma ... þótt ekki væri nema vegna Þorvaldar.

Ólafur Hreinn Andrésson andaði djúpt að sér þessu hreina og svala íslenzka lofti og gekk aftur inn í íbúðina ... Hann mundi berjast við þá áfram ... með öllum vopnum ... Bara að halda sér í góðri þjálfun.

Hann fór að gera líkamsæfingar, þrátt fyrir stirðleikann

. . . Með því að halda sér í góðri þjálfun er betur hægt að hefna sín. – Magisterinn lagðist á bakið á gólfið og hjólaði með fótunum upp í loftið. Hann skyldi jafna um þá . . . allt bíður síns tíma. Hann stóð á fætur og fór að berja höndunum út í loftið eins og hann ætti í höggi við ósýnilegan fjandmann.

Aníta Berg, leikkona, var í versta skapi. Allt hafði gengið öfugt upp á síðkastið. Hún hafði nú fengið nýtt hlutverk til yfirlestrar . . . Drottinn minn, hvílíkt hlutverk! . . . og í þessu nauðaómerkilega leikriti . . . Hlutverkin voru raunar alltaf að versna . . . Hér áður fyrr voru þau miklu betri.

Leikkonan sat ein inni í íbúð sinni í Háuhlíð og reyndi eftir föngum að hreiðra um sig í sófahorninu. Á borðinu fyrir framan hana stóð glas með viskíblöndu, sem hún dreypti á öðru hvoru. Viðtalið í hádeginu við Soffíu, vinkonu hennar . . . vinkonu? Það hafði þó verið enn verra. Leikkonan rifjaði upp fyrir sér ánægjusvipinn á andliti vinkonunnar og silkimýktina í röddinni, þegar hún var að segja henni frá þessu . . . Þessu með Ólaf Hrein . . . Og svo hafði hún hringt í Aldísi . . . Hún ætti að þekkja hana nógu vel til þess . . . Hafði að minnsta kosti þekkt hana nógu vel . . . Þegar þær stunduðu báðar skólaböllin á Garði . . .

Aldís hafði verið furðu róleg í símanum . . . rétt eins og þetta skipti engu máli . . . Aldís hafði neitað í fyrstu . . . En að lokum hafði henni tekizt að fá Aldísi til að játa sannleikann . . . Alltaf sama sagan með alla karlmenn . . . Hann skyldi fá að . . . Leikkonan hvolfdi í sig úr glasinu og smám saman mildaðist skap hennar . . .

Kannski þurfti hún ekki að vera að setja neitt af þessu fyrir sig . . . Það verða allir að sætta sig við að fá öðru hvoru léleg hlutverk . . . Og Ólafur var ekki mikils virði . . . sem

karlmaður, – en nauðsynlegur . . . Hún hafði komizt nógu vel áfram . . . Bæði vinir hennar og óvinir urðu að viðurkenna, að hún væri falleg . . . að hún vissi hvernig hún átti að klæðast . . . Hún var öfunduð og dáð . . . Þær máttu svo sem segja að hún væri heimsk, hennar vegna . . . Það var sagt um allar fallegar konur. „Hún er falleg", hafði hún heyrt Erlu . . . viðvaninginn . . . segja um daginn. „Og hún veit líka af því", hafði Erla svo bætt við . . . Öfund . . . Og Vala . . . eiturnaðran hafði svarað . . . „Og það er nú líka það eina, sem hún veit".

Þær héldu að hún hefði ekki heyrt þetta . . . Og þær máttu halda það áfram . . . Öfund . . . eintóm öfund, vegna þess að það var hún, sem fékk alltaf beztu gagnrýnina . . . Hjá eina blaðinu, sem eitthvert mark var takandi á. Forlögin höfðu verið henni hliðholl . . . Hún var auðug kona . . . Hafði erft stóreignir eftir foreldra sína . . . Gat veitt sér hvað, sem var . . . Gat gert það, sem henni sýndist . . . Hún hafði aldrei viljað giftast . . . Leikhúsið var hennar líf . . . Og nú var hún orðin þrjátíu og átta ára . . . Innst inni hataði hún karlmenn . . . og marga aðra hluti . . . En hún mundi ekki láta bera á því . . . Betra að reyna að útiloka þá . . . átti hún að gera sál sína . . . sál sína . . . ?Jæja, hvað, sem það nú var. Átti hún að gera sál sína að garði, fullum af grjóti – og brenninetlum, verða ein af þessu fólki, sem gælir við sorgir sínar og mótlæti . . . Safnar að sér öllu því óþægilega og illa, sem það getur fundið í kringum sig . . . Dregur endalaust netlur, þysla og grjót í garð sinn . . . sál sína . . . og fyllir hann af þessu . . . sér að lokum ekkert annað. Nei! Ekki hún . . . Og samt.

Gamalli minningu skaut upp í huga hennar. Hún var þá aðeins þriggja ára hnáta. Það var sumar og sólin skein inn um opinn gluggann. Og hún var að leika sér í dagstofunni

Föðurbróðir hennar hafði komið í heimsókn með syni sínum, Páli, sem var á áttunda ári. Föðurbróðir hennar hafði oft leikið við hana, og eftirlætisleikur þeirra var að hann lyfti henni upp á borð, sem var hærra en hún sjálf. „Stökktu", sagði hann við hana. Og hún var vön að breiða út faðminn og stökkva niður, full trúnaðartrausts. Og það brást aldrei, að hann greip hana. Og hún skríkti af fögnuði.

Þennan dag hafði hann lyft henni upp á borðið og hún hafði breitt út faðminn, tilbúin til að stökkva, þegar frændi hennar var allt í einu kallaður í símann. Hann hafði sagt henni að bíða og skilið hana eftir uppi á borðinu. Páll, sonur hans, hafði virt hana fyrir sér glottandi.

„Stökktu bara", sagði hann. „Ég skal grípa þig". Og hún hafði teygt út faðminn, full trúnaðartrausts og stokkið fram af. En hann greip hana ekki. Hann hafði látizt ætla að grípa hana, en hafði svo kippt að sér höndunum, – og gengið aftur á bak. Hún mundi enn hlátur hans, þegar hann horfði á fall hennar og sá hana liggja á gólfinu. Hún hafði grátið ofsalega. Þetta var í fyrsta skipti, sem hún var svikin, – en ekki það síðasta.

Annarri minningu skaut upp í huga hennar í kjölfar þeirrar fyrri. Hún hafði reynt að gleyma henni, en aldrei tekizt það öll þessi ár. Hún vissi, að þessi minning mundi aldrei hverfa. – Það var á friðardaginn. Stríðinu var lokið og Reykvíkingar og hinir erlendu hermenn flykktust út á götur bæjarins – til að slást. Hún hafði aldrei skilið hvers vegna. Það var gefið frí í skólanum og hún hafði slegizt í för með nokkrum kunningjum til að skoða miðbæinn.

„Friður! Friður! Friður um allan heim", sögðu blöðin. Og þarna logaði allt í slagsmálum, allir slógust við alla, án nokkurs sýnilegs tilefnis eða tilgangs. Lögreglan hafði ekki við að fara með rotaða menn burtu af götunum. Menn brutu

rúður, veltu bílum, köstuðu grjóti. Það var reynt að nota vatnsslöngur til að halda fólki í skefjum, en allt kom fyrir ekki, þar til lögreglan fór loks að varpa táragassprengjum til að dreifa mannfjöldanum. Það voru allir í undarlegu skapi. Hún hafði þá farði ásamt tveimur unglingum, sem hún kannaðist við inn í bíl með hermanni, sem hafði útvegað þeim ginflösku. Það var ekið út fyrir bæinn og þau höfðu næstum lokið úr flöskunni, þegar þeir réðust á hana. Hvenær gæti hún gleymt þessari fyrstu reynslu sinni af ástinni. Hvenær gæti hún gleymt því, hvernig þessir vinir hennar, landar hennar, héldu henni á milli sín meðan hermaðurinn fékk vilja sínum framgengt? Hún hafði brotizt um í fyrstu, hrópað á hjálp. En það heyrði enginn til hennar.

Að lokum hafði hún gefizt upp, – orðið lömuð af skelfingu og legið kyrr í sætinu. Unglingarnir höfðu tekið hana á eftir, báðir. Hermaðurinn hafði troðið í hana amfítamínpillu og þeir höfðu hellt í hana meira víni, og kastað henni að lokum út úr bílnum. Hún vissi aldrei hvernig hún hafði komizt heim, og hún hafði aldrei þorað að segja þetta neinum.

Hún spurði sjálfa sig, hve oft slíkir hlutir gerðust í lífi annarra kvenna, hve oft þær eins og hún hefðu kosið sér að þegja. Eða gat það verið, að líf hennar væri öðru vísi en líf annarra. Gat það verið að það væri eitthvað í henni sjálfri, sem kallaði alltaf fram hið illa í karlmönnum. Hún hratt þessari hugsun frá sér. Svona hlutir gerast í hverju húsi, hugsaði hún. Heimurinn er fullur af myrkraverkum sem aldrei koma fram í dagsljósið.

Hún hafði hætt í skólanum þetta vor . . . ekki farið í hann aftur um haustið. Í þess stað hafði hún farið í leikskóla og síðan til framhaldsnáms í London.

Henni hafði aldrei þótt vænt um foreldra sína. Á heimili foreldra hennar hafði hvert samkvæmið rekið annað alla daga.

Faðir hennar var fésýslumaður, sem varð að hafa samband við allskonar fólk og það tók allan tíma hans. Hún hafði að vísu lifað í allsnægtum, en varð að sjá um sig sjálf, og leita félagsskapar utan heimilisins. Foreldrarnir höfðu aldrei átt trúnað hennar, og hún gat varla sagt, að hún hefði fundið til neins saknaðar, þegar hún um tvítugt missti föður sinn. – Og ekki heldur, þegar móðir hennar lézt skömmu síðar.

Hún var frjáls og gat gert það sem henni sýndist. Hún hafði í raun og veru alltaf verið ein . . . átt marga kunningja, en enga vini. Og hún vildi vera ein . . . vantreysti öðru fólki.

Og svo hafði hún gerzt leikkona. Hún eignaðist marga elskhuga, en þeir höfðu allir komið og farið – nema Ólafur Hreinn.

Hún hafði kynnzt Ólafi í samkvæmi, sem haldið var eftir frumsýningu, þar sem hún fór með lítið hlutverk . . . – En hann hafði hjálpað henni til að komast áfram . . . Hann hafði góð sambönd. – Fólk þarf eitthvað á sig að leggja fyrir frægðina. Það var ekki auðvelt að fá góð hlutverk, og góða gagnrýni. En hún átti það skilið hvorutveggja . . . Hún var fædd leikkona . . . Hún var það sem hún lék . . . þegar hún var á leiksviðinu þá fann hún, að það sem hún sagði og gerði var veruleiki . . . þá stundina . . . Það var ekki fyrr en á eftir, sem hlutverkið varð annað en hún sjálf . . . En meðan hún lék var það sem hún sýndi áhorfendum veruleiki . . . bæði í augum hennar og þeirra. Það var ekki fyrr en tjaldið féll, sem þau vöknuðu upp af þessum veruleika til annars. –

Hún velti fyrir sér hvort til væri nokkuð annað en leikur . . . Var í henni nokkur raunveruleiki, sem ekki var leikur . . . eitthvað sem hún vaknaði aldrei upp af . . . eitthvað, sem hélt áfram að vera til eftir að tjaldið féll?

Hún vaknaði upp af þessum hugsunum við það að lykli var snúið í skránni og dyrnar opnaðar. – Ólafur. Hann hafði lykil

að íbúð hennar og hún var því vön að hann kæmi og færi fyrirvaralaust. Magisterinn tók ofan hattinn og fór að hneppa frá sér frakkanum.

„Komdu sæl, ástin mín".

„Komdu sæll, vinur minn". Rödd hennar var mjúk og vingjarnleg. Of mjúk. Of vingjarnleg. Hún hafði ekki staðið á fætur.

„Hvernig líður þér, vina mín?" spurði hann og settist hjá henni í sófann.

„Til hvers komstu?" spurði hún.

„Ég kom aðeins til að skemmta þér".

„Skemmtu mér!"

Hún lagði hendur milli brjósta sér og hló eins og hún vildi finna hláturinn með höndum sínum, eins og hún tryði því ekki að hann væri raunverulegur.

Hann gaf henni sígarettu. Hún settist upp og teygði sig áfram til að láta hann kveikja í henni. Hann virti leikkonuna fyrir sér, hugsandi á svip. Það var auðvelt að sjá að hún hafði verið óvenjulega falleg kona. Var það enn. Líkami hennar var enn líkami ungrar konu. Það var aðeins svipur hennar sem þrátt fyrir fullkomna andlitssnyrtingu var byrjaður að eldast, – nema augun. Þau voru enn ungleg, undarlega græn lýsandi augu sem ásamt blásvörtu hári hennar sem hún batt upp í hnút í hnakkanum gerði svip hennar minnistæðan, hverjum sem sá hana. Hún var í silkitreyju með stuttum ermum, og þröngar buxur hennar fengu fagurskapaðan líkama hennar til að njóta sín til fulls. Hún var berfætt, en hafði smeygt sér í létta sandala með gylltum röndum. Rödd hennar var sterk og dálítið hás, þegar hún spurði.

„Hvers vegna komstu ekki í gærkvöldi?"

„Ég hef átt annríkt".

Leikkonan reis á fætur og setti nokkrar nýjar plötur á

plötuspilarann. Hún byrjaði að vagga sér í takt við músíkkina og steig nokkur dansspor fyrir framan hann.

„Hvað má bjóða þér?" spurði hún svo.

„Allt sem þú hefur að bjóða", sagði magisterinn.

Hún gekk að stóru borði með gin og viskíflöskum og hellti í tvö glös.

„Hvað væri ég án þín?" sagði magisterinn og andvarpaði.

„Hvað ertu?" spurði hún.

Magisterinn þagði.

Leikkonan brosti elskulega.

„Þú ert þreyttur", sagði hún. „Þú ættir að fá þér einn lítinn. – Þú hefur reynt allt of mikið á þig að undanförnu". Það var ofurlítill háðskur undirtónn í rödd hennar.

„Ég er ekki viss um að ég hafi gott af því", sagði hann en tók samt við glasinu feginsamlega.

„Kötturinn hefur níu líf", sagði leikkonan.

„Getur verið, en ekki nema eina lifur", sagði hann.

Hana grunar eitthvað, hugsaði magisterinn, en hún veit ekki neitt. Bezt að láta á engu bera.

„Hvað ert þú eiginlega maður eða mús?" Hún lokaði augunum og löng svört augnahárin lögðust að kinnum hennar.

„Ég er vinur þinn og verndari".

„Verndari litlu systur", sagði hún. „Þakka þér fyrir, en ég þarf engan stóra bróður til að láta hann halda í hendina á mér".

„Hvenær ætlar þú að giftast mér?" spurði magisterinn.

Hún horfði á hann og varð kuldaleg á svip.

„Við skulum hætta að tala um giftingar".

„Hvers vegna?" Hann lagði fæturna upp í legubekkinn og setti hendur aftur fyrir höfuð.

„Við skulum hætta því, það er allt og sumt". Hláturinn var horfinn úr rödd hennar.

„Ég elska þig", sagði hann.

„Þú veizt ekkert um ást". Bros hennar var lítið annað en gretta.

„Það getur verið að hellir hinnar ódauðlegu ástar sé enginn staður fyrir mig", viðurkenndi hann.

Það er enginn staður fyrir mig heldur, hugsaði leikkonan. – Ég hef verið elskuð of oft til þess að trúa á ástina. Hún var þögul um stund, saup á glasinu og horfði á hann.

„Hvað er að frétta af Aldísi?" spurði hún blátt áfram.

Magisterinn fölnaði skyndilega og gretti sig eins og það væri komið óbragð af víninu.

„Hvað þá, Aldísi?"

Rödd hennar varð að hásu hvísli og hún færði sig fast upp að honum. Það var eins og augun reyndu að þrengja sér inn í hugskot hans.

„Já, ég var að spyrja þig hvað þú hefðir frétt af Aldísi".

„En hvers vegna?" spurði hann vesældarlega. Það var eins og Aldís væri sjálf stödd í herberginu og hlustaði á hann.

„Ólafur, ég veit þetta allt, veit vel hvað gerðist".

Hann varð á svipinn eins og maður, sem er staðinn að því að segja ósatt en reynir samt að halda velli.

„Þá þarftu ekki að spyrja, ef þú veizt allt".

„Það er þá satt?"

„Hvað?"

„Að þú hafir farið til hennar".

„Ég lenti í smá gleðskap".

„Hjá Alexander og Hrefnu?"

„Já".

Eldurinn slokknaði í augum hennar.

„Þau voru þar, – hjónin", bætti hann við.

„Svo þú ert sárasaklaus, blessaður litli engillinn?"

„Nei, viltu nú hlusta á mig. Þú þarft ekki að láta eins og

þú hefðir stigið niður af tindum Olýmposfjalla, þó að ég tilbiðji þig. – Það er ekkert á milli okkar Aldísar. Þú veizt að það ert þú, sem ég elska".

Hún hlustaði á hann þegjandi, en sagði svo.

„Það er sagt að þú hafir horfið með henni úr gleðskapnum".

„En af hverju . . . Hvernig veiztu . . . Hver segir það?"

„Það skiptir engu máli, hver segir það".

„Það er ósatt", sagði hann og gerði sér upp reiði.

„En andlitið á þér sýnir, að það er þó satt, að þú hafir lent í slagsmálum við Þorvald?"

„Hann er ruddamenni, – illur við víni".

„Humm", sagði hún.

„Þú verður að trúa mér", bað magisterinn.

Það er gott að hann þrætir, hugsaði hún. Ég hefði aldrei fyrirgefið honum, ef hann hefði játað þetta. En hann er sekur, það stendur skrifað í hverjum andlitsdrætti. – Magisterinn gaf henni gætur. – Vonandi er hún nógu mikill kvenmaður til að trúa mér, hugsaði hann. Honum var farið að líða miklu betur. Hún mundi aldrei skilja þetta. Leikarar líta á alla hluti annað hvort sem gamanleik eða drama. En er ekki líf okkar fyrst og fremst leiðindi. – tómleiki sem við verðum að reyna að fylla með einhvers konar dundi eða gamni.

„Og um hvað töluðið þið svo í þessu hófi?" vildi Aníta vita.

„Ég man það ekki. Það var tönnlazt á bæjarslúðrinu býst ég við, eitt af þessum samtölum, sem eru gleymd jafnvel áður en þeim er lokið".

„Jæja þá".

„Já".

„En til hvers fórstu?"

„Þú getur ekki skilið, hvers vegna ég fór með þeim?"

„Nei".

„Ég skil það ekki heldur . . . Það er ekkert á milli okkar, þú verður að trúa því. – Það ert þú sem ég elska".

Hún hló og sveiflaði fótunum til þess að setjast upp í sófanum.

„Ólafur við skulum drekka okkur full".

Hún er ágæt, hugsaði magisterinn, – þegar hún leikur ekki. Hann hellti aftur í glas hennar, og hún drakk það hægt. Þunglyndi hennar virtist horfið, og augu hennar urðu björt – af hamingju, hélt magisterinn. Hin nýja kæti hennar hreif hann með sér. Hann var stoltur af að geta stjórnað henni. Það sannaði karlmennsku hans að hafa sigrað slíka konu og gert hana háða sér. Það var sama hvað hann gerði, hún gæti ekki án hans verið.

Hún fór inn í svefnherbergið og hafði fataskipti. Hann blandaði sér nýjan drykk. Þegar hún kom aftur var hún aðeins í svörtum innislopp. Hún settist hjá honum í sófann. Hún teygði úr sér og langir fótleggir hennar komu fram undan sloppnum. Hún lét inniskóna hanga á tám sér og hreyfði þá fram og aftur.

Magisterinn varð gripinn ástríðu. Hann sneri sér að henni og kyssti hana.

„Ekki í kvöld", mótmælti hún.

Hann tók utan um hana og lyfti henni upp, svo að inniskórnir með gylltu röndunum runnu af fótum hennar og féllu á gólfið. Hún sparkaði með fótunum og lézt veita viðnám.

„Viskí", kallaði hún. „Meira viskí".

„Seinna", sagði hann loðmæltur, og bar hana inn í svefnherbergið. Hann lagðist hjá henni í rúminu og byrjaði að kyssa hana í ákafa, og hún lagði loks handlegginn lauslega um háls honum.

Við skulum skemmta okkur, hugsaði hann. Við erum ung

og það er Aldís sem er hérna hjá mér, – alveg eins og í gamla daga. Hann lokaði augunum.

Við getum látizt vera ungir elskendur, hugsaði hún. Ég er aftur sautján ára. Ég hef verið á mínu fysrta stefnumóti við ungan mann, og þetta er mitt fyrsta ástarævintýri . . . næst fyrsta. –

Andardráttur hennar varð ör. – Hún reyndi að vera áköf í atlotum sínum eins og ungmey og hún reyndi með hálf-luktum augum að ímynda sér, að hún hvíldi í örmum ungs og glæsilegs elskhuga.

En skyndilega vaknaði hún til veruleikans. Þetta veitti henni enga gleði. Það aðeins þreytti hana. Hún vonaði að þessu yrði sem fyrst lokið. En hún hélt samt áfram leik sínum. Og svo var því skyndilega lokið. Þau lágu um stund þegjandi hlið við hlið. Hún var að hugsa um að fara og ná í glas sitt, þegar magisterinn reis upp við olnboga við hlið hennar í rúminu og horfði á hana ásakandi.

„Þú varst að látast", sagði hann. „Þú varst aðeins að leika að þú værir með".

Hún tók snöggt viðbragð og reis upp á hnén í rúminu. Hinn skyndilegi ofsi hennar gerði hann undrandi.

„Já. Ég var að leika".

Þögn.

„Það er bezt að þú fáir að vita það, að ég hef alltaf þurft að leika. Hélztu að ég hefði notið þess að vera með þér?"

Þögn.

„Aldrei! Ég hef alltaf þurft að látast. Og þú hefur verið of heimskur og blindur til að skilja það. Aðeins í kvöld lék ég nógu illa, til að þú skildir það. Ég er þreytt á þér. Þreytt, þreytt, þreytt. Ég er löngu búin að fá nóg af þér. Ég hef alltaf þurft að látast". Hún var komin fram úr og stóð yfir honum, þar sem hann lá hálfnakinn í rúminu með saman

herptar varir og starandi augu. Hatur hans var of mikið, til að hann fyndi hin réttu orð og ákvað að segja ekki neitt.

„Hvað hefur þú verið að reyna að sanna?" hélt hún áfram. „Að þú værir maður? Þú hefur víst haldið, að þú gætir fengið mig til að elska þig, með því að halda nógu lengi út. En þú hefur aðeins þreytt mig. Þú ert nógu hégómlegur til að geta ekki skilið, að ég elska þig ekki".

Magisterinn rauf loks þögn sína.

„Hefurðu sagt allt, sem þú ætlaðir að segja?" spurði hann og reyndi að sýnast rólegur.

„Ég vona að ég hafi talað nógu skýrt".

Hann vissi ekki, hvort hann ætti að trúa henni. Sennilega var þetta aðeins leikur. Það var óhugsandi, að hún meinti þetta – um hann.

„Elskaðir þú mig þá aldrei?"

Hún leit á hann full fyrirlitningar.

„Ég man það ekki. Hafi ég einhvern tímann fundið til slíkra tilfinninga gagnvart þér, þá eru þær löngu dauðar. Fáðu þér aðra. Ég hef fengið nóg af þessu öllu".

Hún fór út úr svefnherberginu og settist í sófann í stofunni. Hún seildist í glas sitt, sem var næstum tómt, og lauk úr því.

Hún er ekki beinlínis falleg lengur þessi leikkona, hugsaði magisterinn.Hún er að verða gömul. Ég ætlaði að vera búinn að losa mig við hana fyrir löngu. Og nú hefur hún sjálf . . . Ágætt. Nú skyldi hann beinlínis drepa hana, – menningarlega séð. Þetta var allt miklu auðveldara en hann hafði haldið, að það mundi verða . . . Er ég ómenni? Svikari? Nei! Lífið sjálft er blint og miskunnarlaust gagnvart einstaklingum, sem gegna engu hlutverki . . . Einstaklingum verður að fórna, nema þeirra sé þörf. Og hún? Hún hefur kveðið upp dóminn yfir sjálfri sér með því að bregðast mér. Hún var búin að

vera. – Dauð. Steindauð. Hún skyldi fljótlega fá að komast að því.

Magisterinn fór fram úr rúminu og klæddi sig. Hér hafði hann ekkert að gera lengur. Hann horfði á hana þar sem hún sat á náttkjólnum yfir tómu glasi. Hann gekk þegjandi fram hjá henni í átt til dyranna. Hún leit ekki upp. Það var fyrst, þegar hann var kominn að dyrunum, að hann sneri sér við og leit til hennar þóttalega.

„Góða nótt", sagði hann.

Þögn.

„Góða nótt", sagði hann aftur.

Hún leit upp þreytulega.

„Farðu", sagði hún.

„Ég býst ekki við að gera þér ónæði framar", sagði hann og hélt svo áfram. „Ég sagði þér það áðan, að þú þyrftir ekki að láta eins og þú hefðir stigið niður af Olýmposfjöllum. Þú ert svo sem engin gyðja. Þú ert ósköp venjuleg kona. – Þú heldur kannski, að þú sért mikil leikkona?" Magisterinn hló grimmdarlega. „Þú ert gjörsamlega hæfileikalaus brúða ... Allt skjallið um þig í blöðunum eintómt skrum. Ég ætti sjálfur að vera dómbær um það! Hvar heldur þú, að þú værir, ef þú ættir ekki alla þessa peninga? Og fegurðin ... " Magisterinn hló aftur hæðnislega. – „Þú veizt ekki sjálf, að þú ert að verða gömul. – Það er áliðnara en þú heldur".

„Farðu", sagði hún áherzlulaust, næstum biðjandi.

„Já, ég er farinn", sagði hann.

Hún heyrði hurðina skellast aftur á eftir honum, og hún var gripin ótta. Lífið hafði svikið hana enn einu sinni.

Magisterinn flýtti sér niður stigana og út á götuna. Hún var auð og köld. Hann nam staðar og horfði í kringum sig. Það rann allt í einu upp fyrir honum, að hann mundi aldrei framar geta komið til hennar, að hann hafði engan stað

til að fara á. Hann óttaðist þessa auðu köldu götu. Yrði hann upp frá þessu einn og hjálparlaus? Ætti hann að snúa við? ... biðja hana fyrirgefningar? Það gat hann ekki. Hann hefði ekki átt að segja þetta. Ekki neyða hana til að horfast í augu við sannleikann. Hann hefði kannski átt að lofa henni að lifa áfram í blekkingunni? Það var þægilegast þannig, líka fyrir hann sjálfan. Nei, héðan í frá gætu þau ekki látizt vera annað en þau voru. Magisterinn vissi allt í einu ekki lengur, hvert hann ætti að fara.

Leikkonan slökkti ljósið og sat ein í myrkrinu, og hugsaði um Ólaf Hrein.

Á vissum stundum geta menn séð, hvað öðrum manni býr í brjósti. – Lesið hann alveg niður í kjölinn af fullkomnu öryggi, án þess þó að geta gert sér grein fyrir þessari skynjun. En samt er hún þó meiri veruleiki en nokkur orð geta verið. Og henni fannst nú að á þeirri stundu sem Ólafur stóð við dyrnar, hefði hún séð hann í fyrsta skipti. – Hann var ekki fallegur lengur. Hann var manndýr fremur en maður. Einkennilegt, að hún skyldi ekki hafa veitt því athygli fyrr, hvernig hann beit alltaf saman tönnunum, jafnvel þegar hann talaði. Og þegar hún fór að hugsa um allt, sem hann hafði sagt, rann það upp fyrir henni, að hann hafði í raun og veru aldrei látið vingjarnlegt orð falla í garð nokkurs manns. Hann var alltaf meinyrtur í garð annarra, fjandsamlegur – og ágjarn. Sennilega, hugsaði hún biturlega, metur hann mig og alla aðra aðeins eftir því, hvað hann getur haft af okkur ... hver not hann getur haft fyrir okkur. Alltaf tortrygginn og kaldhæðinn ... Eða þegar hann heyrði einhverjum hælt ... Hvenær hafði það brugðizt, að hann fylltist öfund og afbrýðisemi? ... Nei. Ólafur Hreinn Andrésson magister í kínverskum fræðum var ekki fallegur lengur í hennar augum.

Og þessi titill hans! Ha, ha. Var hann ekki sendur honum, sem pólitísk gjöf frá sendiráðinu, – sem viðurkenning fyrir dygga þjónustu? Og þekkingin? . . . þessi lærðu orðtök . . . Voru þau ekki öll að láni frá öðrum? . . . Frá gömlu, úreltu hugmyndakerfi. Var hann ekki, þegar allt kom til alls, ófær um að skapa eina einustu sjálfstæða hugsun? . . . Hann er sjálfur ófrjór og dauður, ályktaði leikkonan, og verður þess vegna að sækja allt til annarra . . . Og það er þess vegna sem hann er undir niðri fullur af vanmetakennd og öfund . . . Það er þess vegna sem hann er alltaf að reyna að spinna utan um allt og alla einhvers konar net úr orðum, – sem enginn flæktist í, nema hann sjálfur.

Hún stóð loks upp úr sófanum og fór inn í svefnherbergið. Það voru fjórar svefnpillur eftir í glasinu. Hún tók þær allar í skyndi og lagðist upp í rúmið. Hana langaði aðeins til að sofa. En hún gat ekki sofnað. Hún átti annað pilluglas hálffullt undir koddanum. Hún settist upp í rúminu. Átti hún að taka fleiri? Aníta Berg fór aftur fram í stofuna. Hún kveikti sér í sígarettu, og sogaði að sér reykinn. Hún var þreytt, dauðþreytt . . . En samt gat hún ekki sofnað. Hún reyndi að rifja það upp fyrir sér, hvað langt var síðan hún hafði getað lagzt til svefns, án þess að grípa til svefnpillnanna, þessara litlu vina hennar, sem hún geymdi ævinlega undir koddanum. Það var orðið langt síðan. Hún hefði aldrei átt að byrja, – eða hætta í tíma. Kannski hefði hún gert það, ef þessi ágæti læknir hefði ekki alltaf útvegað henni nýjar birgðir . . . En það var of seint að hætta núna. Hún gat ekki án þeirra verið, ekki einu sinni á daginn. Ef hún gæti sofið, aðeins eina nótt, þessum djúpa, væra svefni. – Hún hellti aftur viskíi í glas sitt. Hún hafði byrjað að taka pillurnar til að geta hvílt sig vel, áður en hún fór á leiksviðið. Í fyrstu höfðu nægt henni tvær

eða þrjár. En hún gat ekki verið án þeirra eftir að hún var byrjuð . . .

Og svo fóru þær að hætta að verka, nema hún tæki fleiri – margar. Og það nægði jafnvel ekki nema hún notaði líka viskí til að skola þeim niður. Hún varð nú orðið alltaf að taka hvoru tveggja. Það gat verið hættulegt að taka of margar í einu. Það hafði læknir sagt henni, að mótstöðuafl líkamans væri mismunandi mikið. Það gæti farið svo, að skammturinn yrði of stór, að einn góðan veðurdag tæki hún meira en hún þyldi. . .

Aníta Berg fór aftur inn í svefnherbergið með viskíglasið í hendinni. Hún seildist undir koddann eftir pilluglasinu, tók nokkrar í lófa sér og velti þeim fram og aftur. Hún þarfnaðist þeirra. Hún setti þær upp í sig með snöggri hreyfingu og skolaði þeim niður með gúlsopa af viskíinu. Drakk það síðan hægt á eftir. Hún lagðist niður í rúmið örmagna af þreytu og grúfði sig niður í koddann. Eftir nokkra stund fór að síga á hana mók, en hún gat samt ekki sofnað. Hún þráði gleymsku. – Magisterinn hafði einu sinni sagt, að hún væri haldin sjálfseyðingarhvöt. Hún gretti sig og svipur hennar lýsti viðbjóði. Magisterinn! Honum fórst! Hún var vöknuð aftur. Hún drakk í flýti viskíið, sem eftir var í glasinu og henti því frá sér á gólfið. Hún lokaði augunum, en svefninn vildi ekki koma. Hún opnaði augun aftur og starði á glasið með pillunum, sem hún hafði lagt frá sér á borðið. Hvernig væri að tæma það alveg? Hverjir mundu eiginlega sakna hennar? Það voru í því tuttugu pillur, nei meira. Framtíðin? hún átti hana enga, hvort sem var. Hún vissi það sjálf og það vissu það allir í leikhúsinu að hún var farin að missa tökin á hlutverkum sínum. Hún var hætt að muna og röddin, var að bregðast henni. Og hvað þá, þegar hún var hætt að geta fengið hlutverk. Hún . . . Hætt að geta fengið hlutverk!

Hvað væri þá eftir? Hún tók glasið upp af borðinu og kreisti það í hendi sér. Hún hafði aldrei gert neitt rangt, hafði aðeins glatt fólk með list sinni. En það höfðu allir svikið hana.

Hvers vegna ekki að sofna frá þessu öllu saman. Taka nokkrar í viðbót. Já, hvers vegna ekki að tæma það alveg? Hún reyndi að standa á fætur og tókst það loks, en átti í erfiðleikum með að halda jafnvæginu. Hún slagaði fram stofuna. Það var önnur flaska með viskíi geymd í skápnum. Það ætti að nægja. Hún og pillurnar ættu að geta gefið henni það eina sem hún þráði, svefn, langan, væran svefn, – og gleymsku.

Næsta dag fannst Aníta Berg örend í íbúð sinni. Glasið undan svefnpillunum og hálftóm viskíflaska lágu við hlið hennar. Blöðin sögðu að hún hefði látizt úr hjartaslagi.

ÞAÐ var laugardagskvöld tæpum hálfum mánuði eftir að þau Móna og Stefán komu til borgarinnar, að Alfgeir Erlendsson ákvað að heimsækja Mónu.

Hann hringdi dyrabjöllunni og beið. – Ekkert svar. Hún er ekki heima, hugsaði hann vonsvikinn . . . En ég verð að hitta hana. – Hún hlýtur að koma fljótlega, hvers vegna ekki að bíða eftir henni. Hann dró upp lyklakippu og fann loks það sem hann leitaði að. Að opna læstar dyr er mín sérgrein, hugsaði hann. Það hafði að vísu kostað hann talsverða fyrirhöfn, en hún hafði líka borið góðan árangur.

Hann opnaði dyrnar og gekk inn. Íbúðin var auð, en hann sá strax að þetta var íbúð Mónu, sum húsgögnin voru þau sömu, önnur voru ný. Það var ekki annað að gera en reyna að láta fara vel um sig. Hann leitaði að víni, en fann ekkert. Loks tók hann fram bók ofan úr litlum bókaskáp í stofunni. Hann kom sér þægilega fyrir í hægindastól, lagði fæturnar upp á sófaborðið og fór að lesa. Hann átti þó erfitt með að halda huganum föstum við bókina. Þessi orðrómur um Mónu . . . að hún væri trúlofuð Stefáni, eða hvað hann hét . . . Það gat ekki verið að hún tæki þetta svona alvarlega til lengdar. Hvað var þessi piltur . . . ekki neitt. Hann trúði því ekki að henni væri alvara með að slíta kunningsskap við sig. Þau höfðu verið alltof góðir kunningjar til þess. Og samt. Hvað hafði hún verið að gera í sumarfrí vestur? Það var sagt

að hún hefði eytt því öllu, þarna vestur á nesinu með honum. Alfgeir fann afbrýðisemina flæða um sig.

Hvers vegna hafði Móna flutt í stærri íbúð? Átti hún von á honum að vestan? Eða einhverjum öðrum.

Hann hafði komið að íbúð hennar í Sólheimum auðri. En sem betur fór hafði Móna gefið gamalli vinkonu sinni, sem bjó í húsinu nýja heimilisfangið – upp á áttundu hæð í háhýsi við Laugaveginn. Hann hafði kannazt svolítið við þessa konu og dottið í hug að spyrja hana um Mónu. Og hún hafði gefið honum heimilisfangið. Hann varð að fá að vita, hvernig þessu var háttað með Mónu. Nú var hún þó aftur orðin ein eða hvað? Hann varð að hitta hana . . . bíða eftir henni. Móna . . . Hún hafði kunnað að meta hann.

Hún vissi að hann var ekki aðeins venjulegur maður . . . Ekki eins og allir hinir . . . Hann var öðruvísi . . . þurfti ekki að lúta lögum þeirra . . . þurfti ekki að lifa eftir þessu smáborgaralega siðferði . . . Hann var hinn nýi maður . . . stökkbreytingin . . . Og það var Móna ein, sem hafði skilið, hvað hann raunverulega var . . .

Hvar hafði hann mætt slíkri skilyrðislausri aðdáun? . . . Hann hafði lesið hana úr augum hennar . . . fyrst eftir að þau kynntust . . . Hann þarfnaðist þessarar aðdáunar . . . þessarar viðurkenningar . . . Hún var honum dýrmætari en allt annað . . . Það voru allir á móti honum . . . meira að segja konan . . . eiginkonan . . . Hún hafði aldrei skilið hann eins og Móna . . . Hann vissi svo sem vel, hvað þeir hugsuðu . . . ogsögðu. Vissi vel að þeir kölluðu hann auðnuleysingja og landeyðu, sem dygði ekki til neins nema drekka brennivín og stofna til vandræða . . . Það var satt . . . Þeir höfðu hvað eftir annað skrifað á hann kærur . . . Eðlilega . . . Þeir viðurkenndu ekki hans veröld, og hvernig ætti hann að sætta sig við þeirra? Kærur! . . . Alfgeir glotti . . . Það höfðu alltaf borizt jafn-

mörg dularfull fyrirmæli frá hærri stöðum ... Og nú höfðu þeir lagt niður rófuna ... Öllum kærum stungið undir stól ... Hann einn var frjáls ... gat gert, hvað sem hann vildi ... Hann mundi alltaf sleppa ... alltaf geta bjargað sér ...

Nei, það skildi hann enginn ... En hvað varðaði hann um þessar barnalegu hugmyndir, sem almúginn gerði sér um hina nýju stétt ... fólk eins og hann ... sem var frjálst ... Sprengdi af sér alla fjötra ... Brauzt út úr klakahöllinni ... Fólk eins og hann ... Yfirstéttarfólk ... Raunverulegt yfirstéttarfólk.

Stundum hafði hann verið kominn í talsverða hættu ... Það var til dæmis þessi maður í Hafnarfirðinum ... Hafði víst legið rúmfastur síðan ... En hann mundi ná sér ... Það hafði verið erfitt að þagga málið niður ... Sorpblöðin komust í það ... En hver tekur mark á sorpblöðum? ... Þetta var heldur ekki honum að kenna ... Maðurinn var í fullum órétti ... Slangraði utan í bílinn ... stjörnufullur um hánótt ... Það verður hver að gæta sín ... Og það höfðu borizt fleiri kærur ... Alfgeir reyndi að festa hugann við bókina og beið.

Tveim stundum síðar leit hann snöggt upp úr bókinni. Það var einhver frammi á ganginum, sem hafði staðnæmzt við dyrnar. Hann heyrði að lykli var snúið í skránni og andartaki síðar birtist Móna í gættinni.

En hún var ekki ein. Stefán var í fylgd með henni. Hann kom nú líka inn í stofuna og horfði undrandi á gestinn ... Síðan leit hann spyrjandi á Mónu. Hann sá hvernig hún hrökk við eins og hún hefði verið bitin. Og nú starði hún einnig orðlaus á Alfgeir. Andlit hennar var orðið náfölt og augun leiftruðu.

Stefán hafði þekkt hann strax aftur. Þetta var Alfgeir, maðurinn sem Móna hafði sagt, að sér hefði einu sinni þótt

mjög vænt um, – Maðurinn, sem hafði verið með henni, þegar hann hitti hana fysrt á Loftleiðahótelinu. Og nú var hann kominn hér eins og hann teldi sig hafa rétt til þess. Og hvernig hafði hann komizt inn í íbúðina?

Alfgeir varð í fyrstu undrandi og reiður, þegar hann sá Stefán í fylgd með Mónu. En svo áttaði hann sig, það var óskynsamlegt að láta á því bera. Hann reyndi að sýnast áhyggjulaus og glaðlegur þegar hann lagði frá sér bókina á borðið. Hann hafði sígarettuna upp í sér og hafði ekki tekið ofan hattinn.

Það hafði enginn sagt neitt og loks var það Alfgeir, sem rauf þögnina.

„Komdu sæl Móna, hvernig líður þér? það er sannarlega gaman að sjá þig aftur".

„Alfgeir", stamaði Móna, þegar hún loksins kom upp orði. „Mér er ómögulegt að skilja hvers vegna þú gerir þetta. Hvað hugsar þú eiginlega . . . ?"

Alfgeir brosti ánægjulega.

„Mér er sama, Móna, hvort þú trúir mér eða ekki, en það varst aðallega þú, sem ég var að hugsa um. Finnst þér það undarlegt?"

Þögn.

Alfgeir leit snöggt á Stefán og svo aftur á Mónu.

„Og þessi maður", Alfgeir var hikandi, eins og hann væri að leita að réttum orðum. Síðan sneri hann sér að Stefáni og sagði ákveðinn: „Ég er næstum viss um að ég hef séð þig einhvers staðar áður. Ég get bara ekki munað hvar það var . . . Jú, annars. Var það ekki á Loftleiðahótelinu? – Stefán, ef ég man rétt. Verulega ánægjulegt að sjá þig aftur".

Móna sneri sér hikandi að Stefáni.

„Stefán, þetta er Alfgeir Erlendsson. Þú hefur séð hann áður. Það er hann, sem . . . "

„Já", greip Stefán fram í fyrir henni. „Ég veit það".

Alfgeir virti þau fyrir sér og drap í sígarettunni.

„Ég sé", sagði hann, „að þetta er ekki rétti tíminn til að koma til þín í heimsókn, Móna. – Mér þykir leitt að hafa gert ykkur ónæði".

Móna var nú búin að ná sér aftur.

„Þú veizt mætavel, að fyrir þig er ekki til neinn réttur tími til að heimsækja mig, – jafnvel þótt þú brytist ekki inn í mannlausa íbúð".

Alfgeir sýndi ekki á sér neitt fararsnið, kveikti sér í nýrri sígarettu.

„Hvers vegna ætti ég ekki að koma og heimsækja þig öðru hvoru?"

Það komu sársaukadrættir í andlit Mónu.

„Ég hefði gaman af að fá skýringu á því, hvað þetta á að þýða", sagði hún. „Við erum löngu skilin að skiptum". Þetta síðasta sagði hún um leið og hún sneri sér að Stefáni.

„Þú virðist hafa gleymt því", sagði Alfgeir, „að ég er gamall vinur þinn, eða ætlarðu að neita því?"

„Alltaf sami góði vinurinn", sagði Móna.

„Ég var það að minnsta kosti einu sinni".

„Mér þætti samt vænt um, ef þú vildir fara núna og hlífa mér við vináttu þinni framvegis".

Alfgeir stóð skyndilega á fætur og fölnaði.

„Þú mættir sýna mér ofurlítið meiri virðingu". Hann leit á Mónu, en sá nú aðeins fyrirlitningu í svip hennar.

„Ég skal gera það, – þegar þú ert orðinn að manni", sagði hún.

Alfgeir reyndi ekki lengur að leyna vonbrigðum sínum. Hann hló kaldhæðnislega.

„Ég skil . . . Ég hef aldrei verið neitt. Er það ekki það, sem þú ert að segja?"

Móna sá að Alfgeir var orðinn reiður, og þótt Stefán hefði ekki sagt neitt, sá hún að hann átti í erfiðleikum með að stilla sig. Kannski var hann reiður við þau bæði. – Hún varð að afstýra vandræðum. Reyna að sætta þá. – Láta Alfgeir fara, án þess að hann segði neitt meira. – Móna skipti um rödd og sagði næstum vingjarnlega:

„Alfgeir, við höfum enga ástæðu til að vera að rífast. Við Stefán ætlum að gifta okkur í haust", bætti hún við brosandi.

Þögnin varð undarleg og óvænt. Andlit Alfgeirs var orðið náfölt, og það spratt sviti fram á enni hans. – Svo að þessu var þá þannig háttað . . . Móna glötuð honum alveg . . . Allir sviku hann . . . Ég hef aldrei fundið neitt gott í þessu lífi, – sagði hann við sjálfan sig. Ekkert varanlegt . . . og nú hefur hún brugðizt mér líka . . . Alfgeir byrjaði að glotta háðslega. Þetta skyldu þau fá borgað, og það strax.

„Þið eruð að verða óþolinmóð, sýnist mér. Ég skal fara".

Mónu létti. Hamingjunni sé lof að við erum laus við hann, hugsaði hún. – Alfgeir sneri sér að Stefáni.

„Annars þekkti ég þessa stúlku á undan þér, – og betur býst ég við".

Stefán tók snöggt viðbragð. Hann þoldi ekki þetta glott lengur. Hann tók skref í áttina til Alfgeirs. Hann hafði kreppt hnefann og hönd hans lyftist ósjálfrátt. En svo lét hann hnefann síga aftur. Hann varð að stilla sig, – vegna Mónu. Kannski þótti henni ennþá vænt um þennan mann. – Og hann varð að lofa honum að tala út. Varð að fá að vita meira.

„Hvað er það, sem þú ert að reyna að segja?" spurði Stefán og það var ögrun í röddinni.

Alfgeir yppti öxlum og bros hans varð enn háðskara.

„Það er ekki langt síðan ég kom í heimsókn, – vissir þú það. – Hún hefur auðvitað sagt þér hvað gerðist?"

Það var eins og Stefán hefði fengið höfuðhögg. Hann leit á Mónu og það var sársauki í augnaráðinu. Móna greip andann á lofti og horfði biðjandi á Stefán.

„Það er langt síðan við vorum vinir", flýtti hún sér að segja. „Og alls ekki síðan við hittumst, Stefán, – þú . . . "

„Ekki það", greip Alfgeir fram í fyrir henni. „Spurðu hana hvenær hún hafi tekið á móti mér síðast".

„Hvenær?" spurði Stefán kuldalega. Hann vissi að hann hefði ekki átt að hlusta á Alfgeir. Hann hefði átt að vísa þessum dóna út, og það strax, – en hann gat ekki annað en hlustað. Hann varð að komast til botns í þessu.

Alfgeir strauk svitann af enni sér með handarbakinu.

„Hvenær var það nú aftur, sem þú tókst síðast á móti mér, Móna?" spurði hann illkvittnislega . . . „Ég man ekki betur en ég kæmi til þín . . . Já, hvenær var það . . . Í byrjun júní, ef ég man rétt". Alfgeir sneri sér glottandi að Stefáni og spurði: „Hún hefur sjálfsagt sagt þér þetta, er það ekki?"

Alfgeir sá það á svip Stefáns, að hann hafði hitt í mark og hann naut sigursins.

Móna og Stefán horfðust í augu þegjandi. Ég veit ekki hvað hann heldur um mig, hugsaði hún kvíðin. Kannski trúir hann Alfgeiri, trúir því, sem hann er að reyna að gefa í skyn, að . . . Móna leit á Alfgeir og svipur hennar harðnaði.

Stefán horfði enn á Mónu þungbúinn. Í byrjun júní, hugsaði hann. Var þetta satt? Hafði Móna þá komið til hans vestur – beint frá Alfgeiri? Stefán fann hvernig maginn í honum herptist saman og honum sortnaði fyrir augum. Hvernig gat hún gert honum þetta. Hann virti hana betur fyrir sér, reyndi að þrengja sér inn í hugskot hennar. Nei, hann trúði þessu ekki, þegar hann sá hvernig hatrið blossaði upp í augum hennar. Þegar hún leit á Alfgeir, vissi hann að það hafði ekki verið þannig. Gat ekki hafa verið þannig.

Þetta var aðeins tilraun til að spilla á milli hans og Mónu. En hann var samt ekki viss. Hvenær gat karlmaður verið öruggur um konu?

„Það er komið nóg af þessum skrípaleik", sagði Stefán byrstur. „Hypjaðu þig".

Alfgeir sótroðnaði. Hvernig dirfðist þessi lubbi að tala þannig til hans og reka hann út.

„Þú ert ekki enn búinn að eignast Mónu", sagði hann. „Og ekki alveg víst að þú eignist hana nokkurn tímann".

„Farðu", sagði Móna með ískaldri fyrirlitningu.

Glottið var horfið úr andliti hans. Nú fann hann aðeins til haturs og sársauka. – Og Móna líka. En það var Stefáni að kenna. Það var hann, sem hafði fengið hana til að gleyma . . . snúið henni gegn honum. Alfgeir tók nokkur skref í átt til dyranna, en hann staðnæmdist hjá Stefáni.

„Ég veit ekki", hreytti hann út úr sér, „hvað Móna getur séð í lubbamenni eins og þér. Ég býst varla við að neinum öðrum finnist þú skemmtilegur".

„Og þú aftur á móti", sagði Stefán kuldalega, „ert augsýnilega einn af þessum aðlaðandi mönnum, sem eru svo skemmtilegir að þeir þurfa aldrei að nota neins konar kurteisi".

„Smáborgari!" Alfgeir hló hæðnislega. „Ég gæti svo sem vel tekið ofan fyrir þér, ef það er það, sem þú átt við". Alfgeir tók af sér hattinn og þeytti honum snögglega framan í Stefán. Hann lét vandlega miðað kjálkahögg fylgja á eftir.

En Stefán hafði verið viðbúinn. Hann beygði sig undir höggið, svo Alfgeir missti jafnvægið og rak sig á vegginn í fallinu. Það kom undrunarsvipur á andlit hans, en hann reis aftur á fætur. Hann lyfti upp höndunum og byrjaði að færa sig nær Stefáni.

Stefán gaf nú reiði sinni lausan tauminn. Hann kom á

móti Alfgeiri og varð fyrri til að ráðast til atlögu. Höggið hitti Alfgeir í andlitið. Hann missti aftur jafnvægið og hann féll á hliðina á gólfið. – Alfgeir skreiddist á fætur, þreif hatt sinn af gólfinu og flýtti sér til dyranna. Hann sneri sér við í gættinni og lagði aðra höndina á hurðarhúninn. Andlit hans var afmyndað af reiði.

„Þið eigið einhvern tíma eftir að iðrast . . . Ég gæti drepið ykkur – bæði". Hann skellti hurðinni á eftir sér.

Móna stundi.

„Heldurþ ú að hann geri okkur eitthvað illt?" spurði hún. Stefán lagði aðra hendina róandi utan um hana, og hún hallaðist upp að honum.

„Það er ekkert að óttast", sagði hann. „Hann er ekkert nema froða".

„Stefán, hvernig á ég að útskýra þetta".

„Þú þarft ekki að útskýra neitt".

„Jú, þú verður að vita þetta. Hvernig það var".

Eftir að Móna hafði sagt Stefáni söguna af heimsókn Alfgeirs, bætti hún við:

„Ég sagði þér eitt sinn að ég vildi aldrei fara á bak við þig með neitt. En ég var hrædd. Þú verður að fyrirgefa mér".

Stefán faðmaði hana að sér og fann fagnaðaröldu streyma um sig. Hann vissi nú, að hann mundi alltaf geta treyst henni.

„Á ég ekki að sækja eitthvað handa þér að drekka, Stefán?" spurði Móna og renndi fingrunum gegnum hár hans.

„Nei, þakka þér fyrir. Ég held að ég hafi allt, sem ég þarfnast".

STEFÁN Jónsson var búinn að vera tvær vikur í borginni og var þegar byrjaður að vinna, – við heildverzlun Alexanders.

Hann hafði verið á báðum áttum, en Móna hafði talið hann á, að þetta væri það eina rétta og rök hennar höfðu orðið þyngri á metunum. Það var henni að þakka hve fljótur hann var að aðlaga sig hinu nýja lífi í borginni. Honum var farið að geðjast vel að Reykjavík. Það var gaman að anda að sér borgarloftinu, horfa í ljósadýrð borgarinnar á kvöldin – og götur troðfullar af fólki, jafnvel langt fram á nótt. En allt hefði verið öðru vísi, ef Móna hefði ekki verið við hlið hans. Hún var honum ómissandi. Lífið sjálft.

En þetta starf, ákvað Stefán, mundi aðeins verða til bráðabirgða. – Hann varð að koma undir sig fótunum, – síðar mundi hann aftur geta snúið sér að nýrri skáldsögu.

Í dag var sunnudagur. Magisterinn var búinn að hafa handrit hans nógu lengi til að lesa það yfir. Hann mundi geta leiðbeint honum, sagt honum hvers virði verkið var, gefið honum góð ráð. Til þess voru bókmenntafræðingar . . . Hann var orðinn óþolinmóður og fullur eftirvæntingar að heyra dómsorðin um bók sína. Hann varð að heimsækja magisterinn, – strax í dag. Hann sagði Mónu frá þessari ákvörðun sinni að fara og sækja handritið til magistersins og fá það síðan gefið út. Hún hafði litið á hann björtum augum fullum aðdáunar, en hann hafði líka orðið var við ótta í fari hennar, einhvern

óskiljanlegan ótta, sem hún reyndi að dylja. En höfðu ekki allir varað hann við, faðir hans, Alexander . . . Hvers vegna voru Íslendingar annars svona hræddir við braut listamannsins?

Stefán Jónsson stóð við dyrnar á húsi magistersins og hringdi. Hann beið þess óþolinmóður að einhver kæmi til dyra. Loks opnaðist hurðin og magisterinn birtist sjálfur í gættinni.

Ólafur Hreinn rétti gesti sínum granna en stælta hendi, og bauð hann velkominn. Það var gestur hjá magisternum. Sá rauðskeggjaði, sem Stefán hafði séð á Loftleiðahótelinu. Stefán furðaði sig á því að sjá þennan rithöfund og gagnrýnanda hér. Rauðskeggur var gagnrýnandi við blað hægrisinna og honum hafði skilizt að hann og magisterinn væru andstæðingar, meira að segja óvinir.

Þeir settust allir við stórt borð, sem magisterinn gat notað bæði sem vinnuborð og eins til að láta sitja við, þegar fundir voru haldnir. Magisterinn og sá rauðskeggjaði tóku aftur upp fyrri rökræður um hæfileikaleysi Shakespeares, og það var eins og þeir hefðu gleymt Stefáni.

Tímarit og blöð á ýmsum erlendum málum lágu á víð og dreif um herbergið og borðið sem þeir sátu við var fullt af prófförkum og blaðaúrklippum. Tveir veggir voru þaktir bókum og við þann þriðja logaði eldur á arni. Furðulegur borgaralegur lúxus á þessum stað, hugsaði Stefán.

Loks höfðu þeir lokið slátrun sinni á Shakespeare, og magisterinn stóð á fætur til að sækja blaðastranga inn í svefnherbergi sitt.

„Ég hef lesið yfir handritið", sagði hann þegar hann kom aftur, og lagði það á borðið fyrir framan Stefán.

Stefán fölnaði. Hann þóttist skilja að hann hefði verið dæmdur og léttvægur fundinn.

„Þetta er í sjálfu sér ekki illa gert af byrjanda að vera", bætti magisterinn við. „En það er alveg vonlaust að nota form, sem er dautt. – Skáldsagan, sem saga er dautt form".

„Hvernig er hægt að skrifa skáldsögu, án þess að segja sögu?" spurði Stefán. Einnig hann vildi reyna nýjar leiðir en sá ekki, hvernig saga gat hætt að vera saga.

„Menn mega ekki verða steinrunnir og hefðbundnir", sagði magisterinn föðurlega. „En það er í sjálfu sér auðvelt að breyta þessu gamaldags handriti þínu í tízkuverk".

„Hvernig þá?" spurði Stefán fullur eftirvæntingar, eins og hann byggist við, að magisterinn lumaði á einhverjum töfralykli, sem opnaði nýjar óþekktar víddir.

Magisterinn glotti.

„Í sjálfu sér væri nóg, að stokka handritið, eins og menn stokka spil. – Það eitt hefur oft verið nægjanlegt, til þess að höfundur hafi talizt byltingarsinnaður og nútímaskáld". Magisterinn virti fyrir sér furðusvipinn á andliti Stefáns, og glotti enn. „Þó væri kannski sú aðferð betri", hélt hann áfram, „að klippa hverja blaðsíðu sundur að endilöngu og líma síðan blaðsíðurnar saman aftur – af handahófi. Það yrði hinn sanni atómismi. – Það þyrfti aðeins að laga þær skrítnu setningar, sem út úr þessu fengjust, þannig að það liti út fyrir, að það gæti falizt í þeim eitthvert vit.

„En þetta yrði tóm vitleysa", mótmælti Stefán hlæjandi.

„Nútímaverk", leiðrétti magisterinn. „Enginn mundi skilja neitt, það er rétt, en einmitt þess vegna mundum við kalla þetta tízkulegt listaverk. Og menn mundu segja að hér væri nýjung á ferð, ný túlkun . . . innspeglun persónuleikans á ferskan og eggjandi hátt! – Heimsbókmenntir! – Einnig gagnrýnin verður að vera óskiljanleg. Gerðu þetta og þú verður tekinn í bræðralagið, – viðurkenndur, sem alvarlegur listamaður".

Stefán horfði á magisterinn vantrúaður.

„En þetta er hlægilegt".

Magisterinn hætti að glotta og varð alvarlegur á svip.

„Ekki í mínum augum. Þú mátt skilja þetta bókstaflega eða táknrænt, hvort heldur sem þú vilt. En þessi gamli og gjörspillti heimur þarf að endurskapast". Magisterinn þagnaði og bætti svo við orðtaki sínu. „Það þarf fyrst að brjóta niður áður en hægt er að byrja á því að byggja upp".

„En getur þetta verið rétta leiðin?" spurði Stefán.

Magisterinn lét sem hann heyrði ekki spurninguna en hélt áfram.

„Á okkar tíð er hið mikla hlutverk skáldsins að grafa undan máttarstólpum þessara rotnu þjóðfélaga, valda upplausn, – eyða. – Hinn gamli skáldskapur, sem byggði upp hugmyndakerfi og lífsskoðun fólksins á að deyja, – er raunar dauður. Gengi skálda, sem ortu um lauf og stjörnur, byrjaði að hnigna eftir að kappflugið um himingeiminn hófst. Hinn raunverulegi skáldskapur þessarar aldar er stærðfræðin og efnavísindin. – Ljóð, saga, leikrit, listir . . . allt verður að stuðla að upplausninni. Sú list, sem byggir upp, viðheldur aðeins hinu gamla, spillta og úrelta og tefur fyrir framþróuninni. En vilji menn hafa eitthvert vit í skáldskap, þá verður eingöngu að nota það til að ráðast á þjóðfélagið, – á borgaralega, hefðbundna lífsskoðun í hvaða mynd sem hún birtist, og það verður um fram allt að berjast gegn trúnni. Hún er okkar versti Þrándur í Götu".

„En þetta er að svíkja listina".

Magisterinn hló.

„Listin vegna listarinnar er ekki vort orð. Listin verður að þjóna lífinu, – þróuninni. Heil kynslóð hefur þegar barizt undir okkar merkjum – bókstaflega allir sem skipta máli, – unnið sleitulaust. – Önnur skáldakynslóð í viðbót stefnir þegar

að sama marki. Sigurinn er um það bil að vinnast. Við bjóðum þig velkominn. Það getur ekkert stöðvað okkur".

„Ég þakka", – sagði Stefán hæverkslega. „En einhver grundvöllur hlýtur þó að vera fyrir listmati, – annar en þessi?"

„Listmat!" Magisterinn gretti sig. „Við búum til orð, stikkorð, og blessað fólkið er látið taka undir".

„Látið?" endurtók Stefán. Hann tók eftir því að rauðskeggur glotti drýgindalega.

„Já ‚látið'", sagði magisterinn. „Menn . . . smáborgararnir . . . verða líkari sauðkindum með hverjum deginum sem líður".

„Kannski þeir . . . en listamennirnir sjálfir?"

Magisterinn geyspaði.

„Okkar menn fara ekki auðveldlega út af línunni . . . og snjall trúður sannfærir einnig sjálfan sig".

Skyldi hann trúa þessu sjálfur, hugsaði Stefán, en upphátt spurði hann.

„Hvers vegna skyldi fólkið hlusta á trúða?"

„Það skilur þá betur en hina", sagði magisterinn og var aftur farinn að glotta.

„Mjög athyglisverð sjúkdómsgreining", sagði rauðskeggur eins og við sjálfan sig.

„Ég trúi því ekki, að þetta sé hægt", sagði Stefán. „Það hljóta að koma fram ungir menn og krefjast endurmats".

Magisterinn bandaði hendi í átt til bókasafns síns.

„Ungir menn? Hvaða vit hafa þeir á bókum? Þeir þekkja ekki bækur, aðeins tilvitnanir í nokkra kafla, sem teknar hafa verið upp í lestrarkver handa skólum".

Stefán stóð á fætur og tók handritið af borðinu og gekk rólegum skrefum að arninum. Sú hugsun hans að hætta ritstörfum hafði gerzt áleitnari, meðan hann talaði við magisterinn. Og hún varð smám saman að fastri ákvörðun. Þeir

fylgdust með honum þögulir, en þegar hann kastaði handritinu á eldinn, rak magisterinn upp hlátursroku.

„Stórkostlegt. Stórkostlegt", kallaði hann upp. „Þessi piltur hefur skilið á hálfri klukkustund, það sem tekur aðra höfunda alla ævina að skilja, að sjálfsmorð er eina leiðin fyrir borgaralegan rithöfund".

Stefán heyrði orð hans eins og þau kæmu úr fjarska. Þau komu honum ekki við. Hann horfði á handritið brenna, horfði á þetta óskabarn sitt, sem hafði verið honum þýðingarmeira en allt annað, og honum þótti það furðulegt, að hann fann ekki til neins sársauka. Hann fann aðeins til léttis. Hann var frjáls.

Fyrir rithöfund eru aðeins til þrjár leiðir, hugsaði hann, og þær eru allar blindgötur. – Magisterinn hefur rétt fyrir sér. Þessi kynslóð er fjandsamleg listamönnum, öllum nema trúðum.

Og Alexander hefur líka rétt fyrir sér. Íslenzkur rithöfundur, sem stendur einn og á sér engan bakhjarl er dauðadæmdur. Hans bíður ekki annað en fátækt og síendurtekin vonbrigði, sem ræna hann smám saman trúnni á betri framtíð. Til að bjarga sér frá þessu verður hann annað hvort að ganga í flokk trúðanna . . . tómhyggjumannanna . . . sem vilja ekkert nema upplausn, eða koma sér í mjúkinn hjá þeim, sem með völdin fara og vilja aðeins kyrrstöðu . . . Þrjár blindgötur . . . og aðrar leiðir eru ekki til. Það var að vísu satt . . . Aðrir höfðu farið leið trúðsins með góðum árangri. Góðum? Komizt vel áfram, – óneitanlega. En hvers virði er rithöfundur, sem er öðrum háður? Það er eins og að glata frelsinu, gefa öðrum vald yfir lífi sínu, – sál sinni . . . verða eins og brúða, sem dansar eftir þráðum í hendi annars manns . . .

Og hin leiðin að koma sér í mjúkinn hjá valdhöfunum? Það gerðu margir... En var hún nokkru betri en leið trúðsins?

Stefán fór aftur að hugsa um orð magistersins. Hann fann að þau voru allt of sönn. Menningin var orðin skipulögð . . . enn einu sinni. Barátta einstaklingsins gegn skipulagðri menningu var orðin vonlaus. Aðstaða heiðarlegs, óháðs rithöfundar var orðin vonlaus. Heimur skáldsins, sem hafði verið honum sjálf paradís, var smám saman að breytast í ormagarð.

Sennilega stjórnuðust allir þessir menn af góðum tilgangi. En góður tilgangur var ekki nóg. – Gat meira að segja verið hættulegri en allt annað, þegar hann stjórnaði einsýnum mönnum, sem skorti allan raunverulegan skilning.

En hvaða máli skipti hann þetta nú. Hann hafði ákveðið að hætta. Héðan í frá mundi hann aðeins leitast við að lifa í sátt við sjálfan sig og lífið. Skipta sér ekki af öllum þessum heimskulegu deilum. Hann mundi aðeins lifa fyrir sig og Mónu. – Útiloka annað. Segja skilið við þetta allt.

Hann gekk þegjandi fram hjá magisternum og þeim rauðskeggjaða. Hann kvaddi þá ekki. Þeir stóðu ekki á fætur, en horfðu á hann fara, horfðu á dyrnar lokast á eftir honum.

Einum færri, hugsaði magisterinn.

„Þú hefur verið of harður við hann", sagði sá rauðskeggjaði.

„Ég sagði honum aðeins það, sem hann þurfti að heyra, – sannleikann".

„Það var óskynsamlegt. Þú hefur fælt hann frá okkur".

„Hann hefði aldrei getað orðið okkar maður. – Hann er ekki þannig. – Auk þess hefur hann ekki mikið korn að mala".

„Hann hlýtur að hafa tekið þetta nærri sér".

Magisterinn horfði í gegnum hann.

„Þvert á móti. Það er aðeins lífið, sem er fullt af sársauka. Dauðinn er þjáningarlaus".

ALFGEIR Erlendsson ók jagúarbifreiðinni inn Laugaveginn. Hann hafði ákveðið að fara í aðra heimsókn til Stefáns og Mónu. – Minnisverða heimsókn. Þau skyldu bæði fá að iðrast. Hann lét ekki berja sig og kasta sér á dyr bótalaust. Ekki Alfgeir Erlendsson. Þau skyldu bæði fá að kynnast því, úr hvaða málmi hann var gerður.

Þegar Alfgeir var kominn að Sundlaugaveginum kom hann allt í einu auga á Stefán, sem ók fram hjá honum í hvítum bronkó. Stefán virtist ekki hafa tekið eftir honum. Hann var einn í bílnum. Alfgeir beygði inn í Hátúnið. Hann ók óvenju hægt upp að húsinu við Laugaveginn og lagði bílnum fyrir neðan það. Hann sat kyrr um stund og leit í kring um sig. Það gladdi hann, að hann sá engan á ferli. Hann flýtti sér inn í húsið og hringdi á lyftuna. –

Svo Móna var þá ein heima. Alfgeir kveikti sér í sígarettu. Það var engan að sjá á ganginum þegar hann fór úr lyftunni uppi á 8. hæð. Hann stóð um stund við dyrnar að íbúðinni. Kannski var Móna ekki heldur heima. Þessi þögn gerði hann órólegan. Alfgeir tók út úr sér sígarettuna, hélt henni milli fingra sér og horfði í glóðina, – hlustaði. Hann heyrði að það var einhver í íbúðinni, sennilega Móna að vinna í eldhúsinu. Hann fann lykilinn, opnaði dyrnar hljóðlega og gekk inn fyrir. Síðan lokaði hann dyrunum aftur að baki sér og hallaðist upp að hurðinni. Nú heyrði hann greinilega til Mónu í eldhúsinu.

Móna varð undrandi þegar hún heyrði að einhver gekk inn ganginn og síðan inn í stofuna. Stefán var nýfarinn, en hann hlaut að hafa gleymt einhverju. Móna tók af sér svuntuna og gekk inn í stofuna.

Alfgeir stóð við endann á sófaborðinu og horfði á hana glottandi. Hún staðnæmdist við hinn borðsendann andspænis honum og starði á hann. Það færðist smátt og smátt skelfingarsvipur yfir andlit hennar. Munnur hennar opnaðist eins og hún vildi hrópa, en hún gat það ekki, aðeins lág stuna brauzt fram á varir hennar. Ótti hennar virtist aðeins æsa hann upp.

„Þú ert hrædd Móna", sagði hann hásri röddu. „Hógværari en þú varst í gærkvöldi. En það gæti verið að þú ættir eftir að verða enn hræddari".

Móna sá, að hann var enn ölvaður, – kannski hafði hann líka tekið eiturlyf.

Augu hans urðu aðeins mjóar rifur.

„Þú hélzt að þú gætir farið með mig eins og þér sýndist", hélt Alfgeir áfram. „Rekið mig á dyr . . . Ég sagði þér að þig mundi iðra þess". Orðum sínum til áherzlu tók Alfgeir annarri hendi undir borðröndina og velti því um með snöggri hreyfingu. Það voru á því ýmsir smáhlutir, sem þeyttust um gólfið. Móna flúði frá honum í átt að dyrunum.

En hann var of fljótur fyrir hana. Hann var kominn að dyrunum á undan henni og greip hendur hennar. Móna reyndi að losa sig, en án árangurs.

Það var á honum eitthvert æði, sem gaf honum aukinn kraft. Hann þrýsti höndum hennar að lendunum og sveigði hana aftur á bak, þar til hún missti jafnvægið, og þau féllu bæði á gólfið. Hún braust um af öllum kröftum, en hann hélt henni fastri á gólfinu.

Loks tókst henni að losa aðra hendina og bar hana snöggt

upp að vitum hans. Alfgeir fann skyndilega til logandi sársauka, þegar neglur hennar læstust í andlit hans.

Hann sleppti henni og veltist um á gólfinu með báðar hendurnar fyrir andlitinu. Móna sá að þetta var hennar tækifæri. Hún flýtti sér að símanum. Óttinn hafði lamað hana svo að hún átti erfitt með að hugsa skýrt. Hönd hennar skalf, þegar hún bar hana að skífunni og valdi númerið, það fyrsta sem henni datt í hug, – númerið hjá foreldrum hennar. Hún beið þess í ofvæni að einhver svaraði. Alfgeir var risinn á fætur og flýtti sér til hennar. En nú heyrði hún að einhver tók upp símtólið og það var karlmannsrödd sem svaraði, – Alexander.

Alfgeir var alveg að komast til hennar og hún hrópaði upp yfir sig.

„Hjálp ... Fljótt ... Ég" ... Sambandið rofnaði skyndilega. Alfgeir hafði með einu handtaki slitið símann úr sambandi. – Hann snerti hana ekki, en gekk aftur frá henni út á mitt stofugólfið og horfði á hana hatursfullu augnaráði. Móna lét heyrnartólið falla niður á borðið og hörfaði frá honum upp að veggnum.

Hún fann hvernig háls hennar herptist saman þegar hún sá Alfgeir fara með hendina niður í jakkavasa sinn. Hann gekk einu skrefi nær henni og hélt nú á byssu í hendinni.

„Hann skal aldrei fá þig". Alfgeir beit saman tönnunum. „Ég sagði ykkur það í gær . . . Gerði ég það ekki? En þið tókuð ekki mark á mér".

Móna kom ekki upp neinu orði.

„Það tekur enginn mark á landeyðu eins og Alfgeiri Erlendssyni. Hann lætur hvaða lubba sem er berja sig og reka sig á dyr". Augnaráð hans varð tryllingslegra. Hann miðaði byssunni á brjóst Mónu og hleypti af.

Það kom furðusvipur á andlit Mónu eitt augnablik. Svo

féll hún niður á gólfið. Hún hafði enn meðvitund, en skynjaði ekkert, nema sársauka, sársauka sem kom yfir hana í bylgjum.

Hún reyndi að lyfta h ægri handleggnum en gat það ekki. Það myndaðist rauður blettur á kjólnum nálægt hægri öxlinni, þar sem skotið hafði hæft hana.

Alfgeir horfði á, hvernig þessi blettur fór ört stækkandi og öll reiði hans gufaði upp. Óstjórnlegur ótti náði smám saman tökum á honum. Fingur hans glenntust sundur og skammbyssan datt í gólfið. Hann þoldi ekki þessa sjón, varð að forða sér sem fyrst. Auk þess gæti einhver komið á hverri stundu. Hann beygði sig í skyndi niður tók byssuna upp af gólfinu og stakk henni í vasa sinn.

Hann leit til Mónu, en sneri sér snöggt undan og hljóp út úr stofunni blindaður af skelfingu. Hann velti um stól og hrasaði, stóð upp aftur og fór út á ganginn.

Hann komst óséður í lyftuna, en um leið og lyftan lagði af stað niður heyrði hann einhvern hrópa. Þegar hann fór fram hjá 6. hæð sá hann mann hlaupa upp stigann. Það hindraði hann samt enginn og innan stundar var hann seztur undir stýri í jagúar bifreiðinni, sem þaut eins og örskot burtu frá húsinu.

Stefán var á heimleið frá magisternum. Honum leið illa og hann var haldinn kvíða, án þess að vita hvers vegna. Það var ekki vegna handritsins, sem hann hafði brennt hjá magisternum. Þessi tilfinning var öðru vísi. Hún var eins og hugboð um yfirvofandi hættu. Þegar hann ók niður Hátúnið jókst enn kvíði hans. Það var talsverður spölur heim að húsinu, en Stefán sá greinilega hvar hvítri sjúkrabifreið hafði verið lagt beint fyrir framan húsdyr þeirra. Hann sá að það hafði hópur manna safnazt saman á gangstéttinni hinum megin göt-

unnar og horfði yfir að húsinu. Og nú birtust þar hvítklæddir menn, sem báru eitthvað á milli sín að sjúkrabifreiðinni.

Stefán ók eins hratt og hann gat það sem eftir var leiðarinnar ... Móna ... Það skyldi þó ekki ... Nei ... Þetta var ástæðulaust. Hann reyndi að sannfæra sjálfan sig um að hann hegðaði sér heimskulega ... Hvers vegna skyldi það endilega vera Móna ... það var þegar betur var að gáð óhugsandi ... ... Hvað ætti að geta komið fyrir hana ... inni í húsinu. Þetta hlaut að vera einhver annar ... veik manneskja, sem koma þurfti í sjúkrahús ... Það gerðist á hverjum degi. En hann sannfærðist ekki og óttinn var enn hinn sami.

Stefán kom að húsinu í sömu mund og sjúkrabifreiðin var að renna af stað. Það stóðu tveir menn við útidyrnar og horfðu forvitnislega á eftir bifreiðinni.

„Hvað hefur gerzt?" spurði Stefán og sneri sér að mönnunum. Þeir horfðu á hann með sömu forvitninni í augnaráðinu.

„Slys", sagði annar mannanna.

„Hver?"

„Vitum það ekki". Mennirnir hristu höfuðið.

„Það var kvenmaður", bætti annar þeirra við.

Stefán beið ekki lengur en hraðaði sér upp stigana. Hann heyrði raddir manna berast á móti sér. Það var eins og margir töluðu samtímis. Raddirnar virtust koma úr þeirra íbúð. Innan stundar var hann kominn upp á hæðina og sá, að dyrnar að íbúðinni stóðu opnar. Ótti hans var nú orðinn að vissu.

Stofan var full af fólki og þar var allt í óreiðu. Standlampinn hafði brotnað og stól hafði verið velt um. Það lágu lausir hlutir eins og hráviði um allt gólfið. Sumir voru brotnir.

Augu Stefáns staðnæmdust við slitna símasnúru og blóðblett sem myndast hafði á gólfinu við símaborðið.

Hann kom ekki upp neinu orði, stóð aðeins kyrr í dyrunum og horfði eins og í leiðslu á Alexander sem var að reyna að

hreinsa til og tína hluti upp af gólfinu. Hann var fölur eins og liðið lík og andlit hans tekið. Það voru lögregluþjónar í herberginu að yfirheyra fólkið. Stefán þekkti sumt af því í sjón. Það var fólk sem bjó í húsinu og hafði ef til vill orðið vitni að . . . slysinu.

Hann sá að Hrefna sat á stól grátandi og hélt klút upp að vitum sér. Grátur hennar varð ákafari, þegar hún kom auga á Stefán. Hún stóð á fætur og flýtti sér til hans.

„Ó, Stefán, Stefán", stundi hún milli ekkastunanna. Hún gat ekki haldið áfram, en hallaði sér grátandi upp að honum.

„Hrefna í guðanna bænum. Hvað hefur komið fyrir?" spurði Stefán.

En Hrefna gat engu svarað, hélt aðeins áfram að gráta og fól andlitið við öxl hans.

„Hvar er Móna? Hvað hefur komið fyrir?" endurtók Stefán óttasleginn og leit í kringum sig. Það varð þögn í stofunni og þau litu öll á hann.

Alexander gekk til þeirra og horfði á Stefán alvarlegur.

„Í hamingju bænum Alexander, segðu mér hvað komið hefur fyrir. Hefur Móna orðið fyrir slysi?"

Lögregluþjónarnir litu hvor á annan. Þeir höfðu þegar yfirheyrt fólkið í húsinu, sem hafði komið á staðinn . . . þau höfðu sum heyrt skotið. Tvö vitnanna báru að þau hefðu séð dökkhærðan, hávaxinn mann fara upp í bíl, sem stóð fyrir neðan húsið, og hraða sér í burtu. Annars virtist enginn vita neitt með vissu hvað gerzt hafði. Enginn nema Alexander.

„Komdu með mér", sagði hann við Stefán hljómlausri röddu, „inn í svefnherbergið".

„Hver eruð þér?" sagði annar lögregluþjónninn og beindi orðum sínum til Stefáns. Stefán sagði til nafns síns og lögregluþjónninn skrifaði það hjá sér.

„Hann er unnusti Mónu", útskýrði Alexander þreytulega.

„Einmitt það". Lögregluþjónninn virti Stefán fyrir sér fullur áhuga. „Og má ég spyrja, hvar þér hafið verið síðustu tvo klukkutímana?"

„Ég var ... ég", Stefán þagnaði. Hann hafði enga löngun til að fara að skýra frá heimsókn sinni til magistersins.

„Hummm", sagði lögregluþjónninn. „Þér eigið í erfiðleikum með að muna það?" spurði hann háðslega.

„Þér eruð, lögregluþjónn, að gelta upp í skakkt tré", sagði Alexander þurrlega.

Lögregluþjónninn roðnaði.

„Þetta er mjög alvarlegt mál", sagði hann.

„Þér þurfið ekki að segja mér það".

Lögregluþjónninn setti upp valdsmannssvip eins og hann vildi lesa Alexander pistilinn, en hugsaði sig betur um og hætti við það. Svipur hans mildaðist og hann sagði aðeins.

„Við verðum að vita allt um þetta mál, – en það getur beðið ef þér viljið".

„Komdu elskan mín", sagði Alexander við Hrefnu, og hún lét hann leiða sig aftur að stólnum. „Við verðum að vona það bezta".

Alexander fór með Stefáni inn í svefnherbergið. Hann lokaði dyrunum.

„Hún ... hún hefur orðið fyrir slysi?" spurði Stefán.

„Nei". Alexander varð þungbúinn á svip og settist á rúmið. „Þetta var ekki slys, Stefán. Það var ráðist á hana. Hún var særð ... varð fyrir skoti".

Hönd Stefáns skalf, þegar hann bar hana fyrir augu sér eins og hann væri að reyna að loka þeim fyrir þeirri óhugnanlegu sýn sem orð Alexanders vöktu.

„Móna særð", stundi hann. „Varð fyrir skoti ... Það getur ekki verið satt ... Hver?"

„Jú", hélt Alexander áfram. „Ég kom of seint ... Móna

hringdi til að kalla á hjálp. Það var eina orðið sem ég heyrði. Sambandið var rofið . . . Hann hefur slitið símann úr sambandi, þegar hann . . . Ég flýtti mér eins og ég gat og Hrefna kom á eftir fljótlega . . . En það var of seint Stefán . . . of seint. Ég kom að henni hérna við símaborðið . . . liggjandi á gólfinu. Hún var enn með meðvitund en það hafði blætt mikið úr sárinu á brjósti hennar . . . Ég beygði mig niður að henni og hún opnaði augun og hvíslað aðeins einu orði, áður en hún missti meðvitundina . . . einu orði. – Það skal verða þeim dýrt". Svipur Alexanders var grimmdarlegur og hann þagði um stund eins og hann hefði gleymt Stefáni. „Skal verða þeim dýrt", sagði hann við sjálfan sig.

„En hvað getum við gert?" spurði Stefán í örvæntingu.

„Ekkert. Ekki strax. Það var fólk hér í íbúðinni þegar ég kom . . . búið að hringja á slysavarðstofuna og lögregluna".

„En hvað sögðu þeir? Sárið það var ekki?" . . .

„Þeir vita það ekki enn", greip Alexander framm í. „Þeir lofuðu að hringja frá spítalanum strax og þeir vita eitthvað".

„En getum við ekki farið þangað strax?"

„Við förum þangað bráðum".

„Þú sagðir Alexander, að Móna hafi hvíslað að þér einu orði. Hverju? Var það Alfgeir?"

Alexander leit beint í augu hans.

„Já. Alfgeir".

„En hvers vegna . . . Hvers vegna gerði hann það?"

„Hann er óþokki", tautaði Alexander. Hvers vegna? Hann er ómenni. Hatar allt og alla. Heldur sennilega að hann geti leyft sér að gera hvað sem er . . . en frá þesu skal hann ekki sleppa. Þetta skulu þeir fá að borga".

Stefán fann til ógleði og hann svimaði. Þetta er mér að kenna, hugsaði hann. Hvers vegna skyldi ég hana hér eina eftir? . . . Ég hefði átta að vera hér og gæta hennar í stað

þess að vera að hugsa um hluti, sem aldrei gerur orðið neitt úr . . . Einkennilegt hvernig allt hafði brotnað niður í kringum hann á þessum eina degi . . . Öryggi? Hvar var það að finna fyrir nokkurn mann? Stefán gat ekki lengur setið á sér að spyrja.

„Segðu mér satt Alexander. Er Móna í lífshættu?"

„Þeir vita það ekki enn. Við verðum að vona það bezta. Þeir hringja bráðum. Sögðust þurfa að taka af henni röntgenmynd, áður en þeir skera hana upp".

Þegar þeir komu fram í stofuna aftur var fólkið að fara. Lögreglan hafði skrifað niður nafn og heimilisfang allra viðstaddra. Annar lögreglumaðurinn sneri sér að Alexander.

„Það er ekkert meira hér að gera", sagði hann. „Við munum skrifa skýrslu og hafa samband við yður".

„Það virðist hér vera um líkamsárás að ræða", sagði hinn. „Kannski eitthvað enn alvarlegra". Hann leit á klukkuna. „Ekkert meira hér að gera".

Hrefna sat enn hreyfingarlaus í stólnum. Það hafði einhver borið henni kaffi, en bollinn stóð enn óhreyfður á borðinu fyrir framan hana.

MÓNA var borin úr sjúkrabifreiðinni inn á spítalann. Það birtist aðstoðarlæknir á ganginum og í kjölfar hans komu hjúkrunarkona og tveir menn, sem ýttu á undan sér borði á hjólum. Móna hafði misst meðvitundina, en fékk hana aftur um stund. Augu hennar voru opin en samt var eins og hún sæi ekki neitt lengur. Sárindin fyrir brjóstinu höfðu aukizt og verkinn lagði aftur í hnakkann og út í handleggina. Hún reyndi að hugsa en gat ekki tengt hugsanir sínar saman.

„Stefán", hvíslaði hún. „Mér líður eitthvað svo undarlega .... Ég held ... að eitthvað ... að ég sé að deyja". – Blár fölvi færðist yfir andlit hennar og andardrátturinn næstum hætti. Hún missti aftur meðvitund.

Læknirinn gaf mönnunum bendingu og þeir lyftu Mónu í flýti upp á borðið. Hjúkrunarkona lagfærði sængina og breiddi hana betur yfir Mónu. Skurðstofan var á efstu hæð. Mennirnir hröðuðu sér eftir ganginum og þau hurfu öll inn í lyftuna.

Skurðlæknirinn var þegar tilbúinn að byrja aðgerðina, þegar komið var með Mónu inn á stofuna, og innan stundar hafði honum tekizt að ná kúlunni. Aðstoðarlæknirinn hafði strax gefið henni blóð.

Læknirinn lagði kúluna frá sér á borðið og horfði alvarlegur á sjúklinginn. Hjartslátturinn var mjög veikur og það var eins og hún væri hætt að anda. Hann fór með æfðum

höndum að nudda brjóst sjúklingsins og bað um að henni yrði gefið súrefni.

En það var eins og allt líf væri horfið úr svip hennar. Það var byrjað að dæla í hana súrefni. Læknirinn þrýsti hendinni af öllum kröftum að hjarta sjúklingsins og gaf síðan eftir. Hann hélt þessu áfram reglulega og aðstoðarlæknirinn hélt áfram að gefa henni súrefnið.

Stefán fékk lánaðan síma í næstu íbúð og hringdi í borgarsjúkrahúsið. Það var þægileg kvenmannsrödd í símanum, sem sagði honum að uppskurðinum væri lokið. Hún sagði að sjúklingurinn svæfi og það væri ekki hægt að koma í heimsókn til að sjá hana fyrr en á morgun. Meira gat hún ekki sagt.

Þegar Stefán kom aftur inn til þeirra Alexanders og Hrefnu ákváðu þau að aka niður á spítalann og reyna að ná tali af lækninum. Þessi óvissa var orðin óþolandi. Þeim var vísað til hjúkrunarkonu, sem hafði aðstoðað við uppskurðinn.

„Þið ættuð að fara", sagði hún. „Við hringjum strax í fyrramálið og látum ykkur vita. Uppskurðurinn gekk vel. Það er ekki hægt að segja neitt með vissu strax".

„Ég vil heldur bíða hér", sagði Stefán, „þar til ég get fengið að sjá hana".

Hjúkrunarkonan horfði á hann ávítandi, en svipur hennar mildaðist, þegar hún sá óttasvipinn á andliti hans.

„Væri nokkur leið að ná tali af skurðlækninum?" spurði Alexander. Hjúkrunarkonan hugsaði sig um stundarkorn en brosti svo.

„Ég skal fara og reyna að finna hann".

Stundu síðar birtist læknirinn á ganginum. Hann var enn klæddur vinnufötum sínum.

„Ég held að þetta hafi gengið vel", sagði hann og brosti til þeirra róandi. Stefán horfði á hann þakklátum augum.

„Þér eruð vissir um, að hún sé úr allri hættu?" spurði Hrefna.

„Við vonum það".

Hann afsakaði sig, kvaðst eiga annríkt og þurfa að sinna öðrum sjúklingum. Hann var lagður af stað frá þeim, en Stefán greip í handlegg hans.

„En hún lifir læknir. – Hún er ekki í hættu . . . Þetta er ekki hættulegt?"

„Svona skurðir eru alltaf hættulegir". Læknirinn brosti aftur. „En hún er í góðum höndum".

„Þið lofið okkur að fylgjast með henni, ef eitthvað skyldi breytast", bað Hrefna.

„Já auðvitað . . . auðvitað . . . Við munum gera allt sem við getum".

Þeim leið öllum betur þegar þau fóru. Það var eins og sefjandi öryggi streymdi frá lækninum til þeirra. Stefán ók Alexander og Hrefnu heim til þeirra og fór síðan sjálfur í íbúð sína. Hann vildi vera einn. En þegar hann var orðinn einn, sótti efinn að honum aftur. Hann háttaði og slökkti ljósið. En hann gat ekki sofið. Hann sagði við sjálfan sig að þeir hlytu að geta bjargað henni, en hann vissi að hún var í lífshættu. Hvers vegna hafði hann endilega þurft að fara frá Mónu og skilja hana eina eftir, varnarlausa. Alfgeir hafði þó meira en gefið í skyn . . . Og ef hann nú missti hana? Skelfingin greip hann og hann varð bugaður af getuleysi sínu. Hann reyndi að biðja en fann engin orð, – aðeins . . .

„Láttu hana ekki fara frá mér . . . Láttu hana ekki fara frá mér", hvíslaði hann aftur og aftur út í nóttina. „Móna þú mátt ekki yfirgefa mig". En það kom ekkert svar – aðeins myrkur og þögn.

Næsta morgun ók Stefán aftur á sjúkrahúsið. Hann hraðaði sér niður stíginn fram með borgarspítalanum og upp tröppurnar. Hann hikaði við dyrnar og dró andann djúpt, svo opnaði hann og gekk inn. Þetta var stórt sjúkrahús, nýbyggt. Hann gekk eftir breiðum gangi, sem var í senn biðstofa og hvíldarstofa sjúklinga, sem höfðu fótavist. Fólkið sat þarna þögult við lítil borð eða talaði í hvíslingum. Andrúmsloftið var þyngslalegt og jók á óróleika hans og kvíða.

Nokkru innar rakst hann á hjúkrunarkonu, sem hann hafði ekki séð áður og spurði um Mónu.

„Móna Alexandersdóttir", endurtók hjúkrunarkonan hugsandi.

„Hún varð fyrir slysi í gær", útskýrði Stefán.

„Já, það er hún . . . Er hún ættingi yðar? spurði hjúkrunarkonan og virti hann fyrir sér forvitnislega.

„Hún er unnusta mín".

„Já, hún er á þessari hæð".

„Get ég fengið að sjá hana núna?"

„Já, – auðvitað". Hún gaf honum merki um að fylgja sér. Þau héldu af stað inn eftir löngum gangi.

„Er hún . . . Er hún" . . . byrjaði Stefán en lauk ekki við setninguna. Hjúkrunarkonan virti hann fyrir sér og augu hennar urðu mildari.

„Já", sagði hún. „Hún er vonandi komin úr allri hættu þótt það sé erfitt að segja til um það strax. Aðgerðin tókst vel".

„Og hún er vankandi?"

„Já hún er vakandi og þú getur farið inn til hennar núna. En hún er ennþá mjög þróttlítil. Hún var víst mjög illa særð", bætti hún við og leit aftur á hann þessu rannsakandi augnaráði eins og hún vildi lesa hugsanir hans.

Þau staðnæmdust við dyr, sem hjúkrunarkonan opnaði hljóðlega. Stefán gekk fram hjá henni inn í herbergið. Þetta

var lítil vistarvera. Þar var ekki annað húsgagna en stóll og lítið borð með lampa á og svo rúmið. Stefán gekk hljóðlega yfir gólfið til hennar.

Móna lá á bakinu í rúminu með tvo kodda undir höfðinu, – hendurnar undir sænginni. Hún reyndi að brosa þegar hún sá hann koma inn um dyrnar og flýta sér til hennar.

Hann lagði rósavönd sem hann hafði meðferðis ofan á sængina og beygði sig yfir hana. Honum vöknaði um augu við að sjá hana aftur. Hjúkrunarkonan nam staðar í dyrunum. Hún stóð með munninn hálf opinn og virti þau fyrir sér forvitnislega, en sagði ekki neitt. Svo hvarf hún hljóðlaust fram á ganginn og lokaði hurðinni á eftir sér.

„Móna, elskan mín. Hvernig líður þér?" Það voru tár í augum hans. Hann horfði niður á andlit hennar, sá hvernig bros hennar lýsti upp svip hennar og gerði hana unglegri, næstum barnslega þrátt fyrir sársaukann. Hún fann til þrauta fyrir brjóstinu og hjartað sló óreglulega.

„Mér líður miklu betur núna".

Hann beygði sig niður, kyssti hana á ennið og strauk yfir hár hennar.

„Kysstu mig Stefán, kysstu mig þá gengur allt betur".

ÞAÐ var sunnudagsmorgunn og komið fram í september. Það var liðinn hálfur mánuður síðan Móna kom heim af sjúkrahúsinu. Sár hennar hafði verið fljótt að gróa og hinn ungi líkami hennar var ótrúlega fljótur að ná sér aftur. Þennan sunnudagsmorgun, þegar Móna vaknaði og leit út um gluggann til Esjunnar yfir sundin og eyjarnar, fannst henni hún fyllast nýjum lífsþrótti.

Allt landið var baðað septembersól og hana langaði til að aka út úr bænum, — helzt upp í Borgarfjörð.

Lífið brosti við henni á ný. Hún elskaði Stefán og ást hennar var orðin enn dýpri. Það var eitthvað sem hafði gerzt hið innra með henni eftir að hún varð fyrir árásinni og lagðist á spítalann, sem veitti henni nýtt öryggi og fullvissu. Hún fann að þessi nýja fullvissa hennar um ást Stefáns mundi breyta útliti hennar, og hún ímyndaði sér að það mundu allir hljóta að taka eftir þessu og spyrja hana hvers vegna hún væri orðin öðruvísi en hún hefði verið. En hvað æti hún sagt? Hún mundi bara brosa. Þetta var hennar leyndarmál.

Það var þegjandi samkomulag þeirra að minnast aldrei á Alfgeir framar. Hann hafði verið settur í gæzluvarðhald, en neitaði öllum ákærum þrátt fyrir augljósa sekt. Faðir hans hafði reynt að bjarga honum, en að þessu sinni hafði það ekki tekizt. Öfl, sem reyndust honum sterkari, snerust gegn honum og sá orðrómur var kominn á kreik, að Foringinn

hefði skipað ráðherranum föður hans að segja af sér. Sagt var að hann hefði ákveðið að losa sig við hann með því að gera hann að sendiherra. Og Alfgeir mundi fá sinn dóm.

Þau héldu af stað upp úr hádeginu. Stefán hafði í fyrstu orðið undrandi, þegar Móna stakk upp á að aka upp í Borgarfjörð, en hann smitaðist af léttlyndi hennar og féllst á þessa hugmynd.

Landið var byrjað að klæðast haustlitum og Stefán varð drukkinn af ást og fögnuði þegar hann ók í sólskininu fyrir Hvalfjörð og upp í Borgarfjörðinn. Móna fékk hann meira að segja til að viðurkenna að þetta sérkennilega og hálfvillta land, væri alveg eins fagurt eins og fjallið og jökullinn fyrir vestan.

Þau óku bílnum yfir Hvítárbrúna og lögðu honum nokkru neðar. Þau ákváðu að ganga upp með fljótinu. Mild hitamóða lá í loftinu og sólskinið sindraði allt í kringum þau eins langt og augað eygði. Þau höfðu gengið gamlan götuslóða yfir hæðardrag og leiddust nú niður að fljótinu. Þau námu staðar við fljótsbakkann og horfðu á hvernig það bugðaðist gegnum þetta brosmilda fagra land. Úti í miðri ánni og við bakkann hinu megin virtist það slétt og lyngt, en þegar þau horfðu á það við fætur sér var það straumþungt og fullt af leyndum hringiðum. Móna horfði heilluð á landið og fljótið og kyrrð þess og fegurð snart hana undarlega.

Hún minntist þess nú, að hún hafði fyrst fundið þessa sömu tilfinningu, þegar hún horfði út á sjóinn meðan hún og Stefán sátu í dranganum fyrir vestan. Þessi tilfinning hafði þá gert hana órólega. Það var erfitt að lýsa henni, en hún var líkust sorg yfir einhverju sem var glatað . . . Sakleysi sem henni fannst hún hafa týnt einhvers staðar. Og henni fannst hún vera óhrein. Þessi dularfulla fegurð náttúrunnar, þessi tæri hreinleiki hafði fengið hana til að fara hjá sér, finnast

hún sjálf vera óhrein. Og það hafði vaknað hjá henni þrá til að lauga sig upp úr þessari fegurð svo að hún yrði aftur hrein. Það var eins og hún þyrfti að endurheimta fegurð, sem hafði einhvern tíma horfið úr lífi hennar. En nú fannst Mónu hún vera hrein. Hrein eins og ást hennar á Stefáni. Og henni fannst hún sjálf verða eitt með fegurð og tærleika landsins. Og hún fór aftur að hugsa um hvernig þessar tilfinningar höfðu breytt útliti hennar og veitt lífi hennar fyllingu.

Stefán horfði á Mónu. Sólin skein á hár hennar og andlit. Hann stóð þétt upp við hana og fann hvernig angan vallhumalsins blandaðist ilminum úr hári hennar. Þannig mundi hún alltaf verða í minningu hans. Bláklædd dís með brúna sólbrennda arma og ilman úr ljósu hári.

Hann tók utan um hana og hún brosti til hans og hallaði höfðinu upp að öxl hans.

„Þú getuar ekki ímyndað þér", sagði Móna, „hvað mér þykir vænt um að við skyldum hafa farið hingað. – Þetta er allt svo fallegt".

Hann horfði á hana spyrjandi. Hún leit upp til hans alvarleg á svip.

„Ég hef verið að hugsa um það, Stefán, hvers vegna allt, sem snertir kynlíf er óhreint í augum fólks . . . mér finnst þetta sem er á milli okkar það fegursta, sem ég hef lifað". Sólin skein framan í hann og hann hleypti í brýrnar, – kipraði saman augun, þegar hann svaraði.

„Ætli það sé ekki gamall arfur frá kynslóðum, sem kenndu okkur að börn kæmu af himnum ofan".

Móna hló.

„Við erum svei mér heppin", sagði hún.

„Heppin?"

„Já, að vera frjáls".

Frjáls, það gat verið . . . hugsaði hann . . . laus við allar

þessar gömlu hégiljur ... þessi hindurvitni ... og tabú sem fylltu líf fyrri kynslóða af sektarvitund ... óhamingju.

„Þetta er allt svo heimskulegur misskilningur", bætti Móna við. „Lífið getur verið svo fagurt, ef við eyðileggjum það ekki sjálf".

Hann horfði á andlit hennar fullt af barnslegu trúnaðartrausti og síðan á stinn brjóst hennar sem fylltu út í kjólbarminn. Þessi sýn fyllti hann löngun og fögnuði. Hún fann augnaráð hans hvíla á sér og faðmaði hann allt í einu að sér. Hægri hönd hennar gældi við hnakka hans og byrjaði svo að hreyfast eftir hálsinum og bakinu.

„Ef ég missi þig", hvíslaði hún við eyra hans, „þá verð ég lömuð, ég visna upp og dey. Við megum aldrei skilja framar".

„Móna!"

Hann þagnaði, snortinn af einlægni hennar, sigraður af hlýju hennar, þessum iðandi vörum og stæltum líkamanum. Hún dró hann með sér niður og þau lögðust á árbakkann. Hendur hennar voru undir líkama hans og hún gróf fingur sína inn í hold hans. Hún velti sér frá honum og lagðist á bakið endilöng í grasið og byrjaði að hneppa frá sér kjólnum svo brjóst hennar komu í ljós. Hann færði sig til hennar. Hún naut þess að finna hreyfingu handa hans sem struku um brjóst hennar – naut þess að finna tungu hans hreyfast í munni sér. Koss hennar var svo ástríðufullur að hann minntist þess allt í einu, þegar hann sá hana nakta í fyrsta skipti.

Hún tók hönd hans og stýrði henni niður að skauti sér og tunga hennar hreyfðist ofsalega í munni hans. Hann hafði aldrei kynnzt slíkri ástríðu. Hann undraðist hvað líkami hennar gat í senn verið stæltur og veikur og hann varð ölvaður af mjúku hörundi hennar, lifandi og angandi hörundi hennar. Hann fylltist þakklæti. Hann mundi gera allt fyrir hana, – allt sem hún vildi.

Hún hélt áfram að afklæða sig þar til hún var nakin í sólskininu. Það var ekki skynsamlegt, en það komu þær stundir þegar hjartað varð eitt að ráða. Hún vafði hann örmum á ný. Hönd hans gældi við læri hennar og hreyfðist upp á milli þeirra. Ástríða hennar var svo sterk að hún óttaðist hana. Hún elskaði hann innilega, algerlega. – Hana langaði til að ala honum börn. Þau gáfu sig hvort öðru á vald eins og nóttina sælu í sumarhúsinu fyrir vestan.

Þau lágu þreytt og hamingjusöm hlið við hlið í grasinu og horfðu á fljótið streyma hjá. Þetta hafði veitt henni enn meiri gleði en áður – fyllt hana af friði. Hún var ekki lengur hún sjálf. Þau tvö voru eitt. Hún lagði höfuð sitt á brjóst hans og féll í svefn. Stefán horfði á höfuð hennar. Hann þorði ekki að hreyfa sig af ótta við að vekja hana, – og vildi það heldur ekki. Hann lét hugann reika og horfði upp í heiðríkjuna. Hann fór að hugsa um orð hennar. „Við erum frjáls" hafði hún sagt. – Frelsið var undarlegur hlutur, – mótsögn. Var maðurinn ekki frjálsastur þegar hann var bundnastur . . . hamingju sinni. Hann vissi, að hann var í fangelsi . . . fangi hennar í tveggja manna fangelsi. Og hann vildi ekki losna. Aldrei. Hún geymdi lykilinn og hann vonaði að hún mundi aldrei nota hann, aldrei opna fyrr en dauðinn skildi þau að.

OG dagarnir liðu. Öryggi. Friður. Fullkomið öryggi.

Stefán Jónsson vaknaði fremur seint þennan sunnudagsmorgunn og fór út á svalirnar. Það var aðeins vika liðin síðan hann og Móna fóru upp í Borgarfjörðinn. Þetta var óvenju fagur haustmorgunn seint í september. Stefán horfði hugfanginn austur yfir borgina, þar sem stór rauð morgunsólin lyfti sér upp himinbogann.

Hann fann kaffiilminn berast til sín út á svalirnar og heyrði Mónu raula lagstúf inni í eldhúsinu. Hann andaði djúpt að sér. Á svona morgni, hugsaði hann, hlýtur Reykjavík að vera fegurst allra borga . . . Borg í velferðarríki . . . Alls staðar friður . . . Hvað getur hent fólk sem býr við tækni nútímans undir þessari bláu himinfestingu? . . . Hvað getur hent fólk í velferðarríki? Hann sjálfur heyrði þessu fólki til . . . Fólki, sem háði hina venjulegu lífsbaráttu nútíma borgara . . . Elskaði og dó. – Var hann ekki fullkomlega ánægður með líf sitt? – Jú . . . Oftast . . . En þær stundir komu, þegar hann fann til undarlegs óróleika . . . Þegar það þyrptust að honum hugsanir . . . ruglingslegar hugsanir, sem snerust í hring í huga hans og komust aldrei að marki . . . Komust aldrei að endanlegri niðurstöðu.

„Stefán!"

Móna lét bakka með morgunverði á lítið borð við sófann, og settist sjálf niður og hellti kaffi í bollana handa þeim

báðum. Stefán leit ósjálfrátt á úr sitt. Klukkuna vantaði fimmtán mínútur í tíu. Hann var að snúa sér við til að fara inn, þegar hann tók eftir gosmekkinum. Stefán snarstanzaði.

„Móna, komdu hingað".

Honum var auðheyrilega brugðið.

„Hvað er að Stefán?" kallaði Móna. Hún spratt upp og var þegar komin út á svalirnar til hans. Þau sáu gosmökkinn sem stækkaði óðfluga og hlustuðu á drunurnar, sem færðust smám saman í aukana og urðu að látlausu öskri. Móna gaf frá sér hátt undrunaróp, og þau horfðu á þetta vantrúuð. Sígarettan sem Móna hafði kveikt sér í til að reykja með morgunkaffinu brenndi hana allt í einu í fingurgómana. Hún kastaði stubbnum frá sér.

„Það er Fellið", sagði Stefán skjálfraddaður.

Móna greip handlegg hans og hélt í hann dauðahaldi.

„Fellið farið að gjósa! En það getur ekki verið. Það er rétt fyrir ofan Nesið".

Þau horfðust í augu og hugsuðu bæði það sama.

Fyrir neðan þau heyrðu þau köll og fótatak manna, sem hlupu eftir mölinni á bílastæðinu. Það var eins og borgin hefði glaðvaknað á svipstundu, og allur friður þessa fagra morguns var skyndilega horfinn.

Móna sleppti handlegg Stefáns, sem stóð hreyfingarlaus og virti fyrir sér þessa óskiljanlegu sýn. Hún varð að fá einhverja staðfestingu á því, að það sem hún sá, væri ekki eintómar sjónhverfingar. Hún opnaði í flaustri bæði sjónvarpið og útvarpið. Hugur hennar var í uppnámi, og hún flýtti sér að kveikja sér í nýrri sígarettu. Stefán var kominn að hlið hennar.

Það var ákafi og hiti í rödd þulsins í sjónvarpinu. Hann var að lesa fyrstu fréttirnar um gosið, sem hafði byrjað aðeins fyrir þremur mínútum. Þegar hann hafði lesið fréttina bætti

hann við. Sjónvarpið hefur þegar haft samband við forsætisráðherra og beðið hann að láta í ljós álit sitt á þessu nýja og óvænta ástandi í borginni.

Þulurinn hvarf og það var byrjað að sýna myndir frá gosinu teknar frá Reykjavík. Stefán undraðist þessi hröðu viðbrögð og tækni fréttamanna, sem gerði öðrum fært að fylgjast með því sem gerðist svo að segja samtímis.

Allt í einu birtist mynd forsætisráðherrans á skildinum. Hann var alvarlegur á svip . . . rödd hans var róleg . . . „Það sem nú skiptir mestu máli, er að bregðast við hættunni á réttan og skynsamlegan hátt", sagði hann. „Menn mega ekki missa kjarkinn og fara að ímynda sér, að heimsendir sé í nánd. Ef við þekkjum eðli eldfjalls, þurfum við ekkert að óttast. Við vitum í hverju hættan er fólgin, og það er þess vegna hægt að varast hana, – og sigra hana . . . Öskulagið, sem fylgir slíkum gosum verður hreinsað burt. Fallin hús má alltaf endurreisa. Með nútíma tækni verður hraunrennslið fljótlega stöðvað. – Undir öllum kringumstæðum er hægt að veita því til hliðar framhjá borginni . . . Þess vegna er ekki ástæða til annars en að menn taki því sem að höndum ber með æðruleysi og sýni stillingu . . .

Lengra komst hann ekki. Skjöldurinn með mynd forsætisráðherrans myrkvaðist skyndilega og allt húsið lék á reiðiskjálfi eins og skip í stórsjó.

„Guð almáttugur!" hrópaði Móna. „Húsið er að hrynja!"

„Nei", kallaði Stefán gegnum hávaðann. „Svona hún standast hvaða jarðskjálfta sem er".

Hann greip hönd hennar og þau reyndu að hlaupa út úr íbúðinni og niður stigann, en hrösuðu og urðu að stanza.

„Við verðum að komast út sem fyrst og vitja um þau á Nesinu", hrópaði Móna. „Það hlýtur að vera ægilegt umhorfs þar".

Jarðskjálftinn hætti skyndilega og þau gátu haldið áfram. Þegar þau komu út sáu þau aftur gosmökkinn. Stefán ályktaði að hann væri að minnsta kosti orðinn tíu kílómetra hár. Hann var kolsvartur og teygðist langt til hafs.

„Móna, það getur verið hættulegt að fara suður á Nesið. Bíddu mín heldur hérna".

„Nei, Stefán. Skildu mig ekki eftir. Ég verð að fara líka".

Hann horfði á hana á báðum áttum en kinkaði svo kolli og þau hlupu í átt að bílnum.

Það höfðu liðið tíu mínútur frá því að gosið byrjaði, og þar til jarðskjálftinn hófst. Þau yrðu að hraða sér. Það gat margt hafa gerzt þessar síðustu mínútur.

Þegar þau beygðu inn á Laugaveginn sáu þau að það hafði komið upp eldur í gamla borgarhverfinu. Brunalið, lögregla og allar hjálparsveitir í borginni mundu verða að berjast á mörgum vígstöðvum. Aska var tekin að falla til jarðar og grátt öskulagið lagðist smám saman yfir allt. Einnig á andlit fólksins. Og öðru hvoru rigndi grjóti yfir borgina. Þau sáu hvar nokkrir menn komu hlaupandi gegnum reyk frá brennandi húsi. Þeir hlupu áfram álútir og reyndu að halda vasaklút fyrir vitum sér. Þessi dagur gat orðið þeirra síðasti. Hinu glaða lífi þessa fólks var lokið í bili að minnsta kosti. Öryggið, sem hafði tekið kynslóðir að byggja upp var skyndilega ekki til lengur. Sums staðar kváðu við há örvæntingaróp.

Maðurinn getur sennilega aldrei sigrað náttúruna, þrátt fyrir allt, hugsaði Stefán þungbúinn. Og síðasta orustan er töpuð fyrir fram.

Menn stritúðu til að verða ríkir. Óháðir þeirri náttúru sem forfeðurnir glímdu við og féllu fyrir . . . Drepsóttum, jarðskjálftum, styrjöldum eldi og ís . . . Mundi þetta nokkurn tímann verða liðin saga . . . Þrátt fyrir allt? . . .

Stefán steig á benzínið í botn og beygði sig yfir stýrið.

Hann ók eins hratt og hann komst í átt að gosinu. Nokkru seinna þegar hann ók upp götuna sem lá á Nesinu meðfram sjónum heyrðu þau að hvell rödd Þorvaldar klauf hávaðann eins og öxi.

„Það segir mér enginn, hvað ég get, og hvað ég get ekki!"

ALDÍS var komin á fætur. Hún hafði vakið börnin og látið þau klæðast. Það var sunnudagur og veðrið var fallegt. Hún vonaði, að Þorvaldur mundi aka þeim í smá skemmtiferð, eitthvað út úr bænum eins og hann gerði oft um helgar. – En Þorvaldur svaf enn. Hann lá á bakinu í rúminu. Annar handleggurinn hékk máttlaus út af rúmbríkinni. Hann hraut. –

Eftir að Aldís hafði látið börnin klæða sig fór hún að elda morgunverð. Lyktin úr eldhúsnu og hávaðinn í börnunum fékk Þorvald smám saman til að rumska. Það tók hann nokkrar mínútur að vakna. Hann opnaði loks augun til hálfs og horfði upp í loftið. Hann verkjaði í augun af birtunni, lokaði þeim aftur og velti sér á hliðina. – Ég hefði ekki átt að drekka svona mikið í gærkvöldi, hugsaði hann, en það er alltaf sama sagan. – Hann varð að manna sig upp og fara í kalda sturtu. Það mundi hressa hann, það og bolli af sterku kaffi. Hann opnaði augun aftur og settist upp í rúminu. Hann sá að klukkuna vantaði fimmtán mínútur í níu. Hann réri um stund með höfuðið milli handa sér, en snaraðist síðan fram úr rúminu og fór fram á baðherbergið.

Stundarfjórðungi síðar var hann seztur við morgunverðarborðið með fjölskyldu sinni.

Eftir morgunverðinn ákvað Þorvaldur að fara í gönguferð upp fyrir Nesið. Það mundi lækna hann af höfuðverknum. Mesta tómstundagaman hans hafði árum saman verið að taka myndir, helzt litmyndir af landslagi. Í þessari tæru birtu

mundi honum áreiðanlega takast að ná góðum myndum af fegurð haustsins eins og hún er mest. – þegar landið í allri litauðgi sinni er baðað nýrisinni morgunsól. Þorvaldur tók myndavélina og lagði af stað. Hann leit á úrið. Klukkan var orðin hálf tíu.

Þorvaldur var kominn upp fyrir efstu húsin á Nesinu, þegar gosið byrjaði. Um stund fannst honum hávaðinn frá Fellinu ætla að sprengja í sér hljóðhimnurnar, og svo sá hann gosmökkinn og eldinn rísa til himins. Hann gleymdi öllu öðru, en þessari stórfenglegu sýn. Eina hugsunin, sem komst að hjá honum, var að ná myndum af gosinu. Hann hafði séð það byrja. – Hans myndir mundu verða þær fyrstu, sem teknar yrðu. Hér átti hann ekki aðeins kost á að taka stórkostlega mynd, heldur mynd ársins . . .

Þorvaldur tók hverja myndina á fætur annarri, en hafði um leið auga á grjótinu, sem þeyttist um allan himininn og var byrjað að falla til jarðar. Hættan fyllti hann nýjum þrótti. Hann hafði ævinlega langað til að takast á við náttúruna. Lífslöngun hans magnaðist við hugboðið um að hann stæði hér andspænis eyðileggingunni, að hann yrði ef til vill að berjast fyrir lífi sínu. Loks var hann búinn með filmuna, en hann gat samt ekki slitið sig frá þessari sjón.

Hraunið var byrjað að renna niður hlíðar Fellsins, og hann fór að hugsa um, hve langt það myndi renna. Það var ekki fyrr en jarðskjálftinn byrjaði að óttinn greip hann. Ótti um Aldísi og börnin. Þorvaldur byrjaði að hlaupa.

Aldís varð hrædd. Hún hafði lesið um að slíkir hlutir gerðust, en aldrei trúað, að hún mundi verða vitni að þeim. Af hverju kom Þorvaldur ekki? Það voru næstum liðnar tíu mínútur frá því gosið hófst og það sást enn ekkert til hans. Hafði eitthvað komið fyrir hann? Hún gat ekki beðið leng-

ur og ákvað að fara út og svipast um eftir honum. Hún skipaði börnunum að bíða inni, – sagði þeim að hún mundi verða fljót.

Hún var varla komin út úr húsinu þegar jarðskjálftinn byrjaði. Um stund átti hún nóg með að standa á fótunum, gat ekki hugsað sér neitt. Kippurinn var mjög harður og stóð lengi. Þegar honum loks var lokið, sá hún að hluti hússins hafði hrunið. Og börnin voru inni . . . Hún flýtti sér að útidyrahurðinni og ætlaði inn. En hurðin hreyfðist ekki. Hafði skekkst til og varð ekki haggað, hvernig sem hún reyndi. Hún hrópaði á börnin . . . og hlustaði, heyrði þau kalla á móti og biðja hana um hjálp. Aldís hljóp að stofuglugganum. Það höfðu allar rúður brotnað. Hún náði í stiga sem var geymdur í bílskúrnum og tókst að komast inn. Hún tók andköf þegar hún sá, að loftið hafði að miklu leyti fallið niður og gjörsamlega lokað ganginum innan frá. Hún varð að finna Þorvald strax. Hún sneri við og fór aftur út um gluggann, hrópandi nafn Þorvaldar.

Þorvaldur hljóp niður götuna. Hann sá að sumar byggingarnar höfðu hrunið. Fólkið þusti út úr húsum sínum, ráðvillt og gat ekki áttað sig á því, sem það sá og heyrði. Og smám saman greip örvæntingin um sig, eftir því sem það skildi betur, hvað raunverulega var að gerast. Hann heyrði suma hrópa, að það yrðu allir að yfirgefa Nesið strax, – að hraunelfan stefndi þangað og mundi innan tíðar flæða yfir það. Svitinn bogaði af andliti Þorvaldar. Hann var nú kominn svo nærri húsi sínu, að hann sá, að það hafði hrunið að einhverju leyti að minnsta kosti.

Aldís stóð fyrir utan grátandi.

„Börnin", stundi hún upp milli ekkasoganna. „Börnin eru inni. Ég heyri til þeirra . . . Þau eru lokuð inni á ganginum".

Þorvaldur henti frá sér myndavélinni og hljóp að útidyrahurðina. Hún hreyfðist ekki. Það höfðu nokkrir menn staðnæmst við húsið, þegar þeir skynjuðu, hvað um var að vera. Þeir stóðu í þéttum hnapp og horfðu á slysið af forvitni og samúð.

Þeir komu nær þegar þeir sáu tilraun Þorvaldar til að opna hurðina.

„Þetta er ekki hægt, nema með verkfærum", sagði einn þeirra.

„Það segir mér enginn, hvað ég get, og hvað ég get ekki", sagði Þorvaldur og henti sér aftur á hurðina.

Þegar Stefán og Móna nálguðust hópinn, sem safnazt hafði saman fyrir framan hús Þorvaldar, sáu þau Aldísi standa eina sér með hendur fyrir andlitinu. Það var eins og hún ætti erfitt með að standa á fótunum.

Innan stundar voru þau komin að hlið hennar, og Móna talaði til hennar. Varir Aldísar skulfu, þegar hún reyndi að svara, en hún gat það ekki fyrst í stað. Svo stundi hún upp.

„Börnin eru inni í rústunum".

Aldís sá í huga sér börn sín undir grjótinu, limlest — kannski látin. Hún kreisti aftur augun og hafði hendurnar fyrir andlitinu til að reyna að útiloka þessa mynd úr huga sér. En hún hvarf ekki, varð þvert á móti skýrari. Hún heyrði að talað var til hennar eins og úr mikilli fjarlægð. Hún reyndi að svara, en svo sortnaði henni fyrir augum.

Stefán greip hana um leið og hún féll.

„Hún hefur fallið í yfirlið", sagði Móna. „Henni hefur orðið of mikið um þetta".

Það eru takmörk fyrir því, hvað taugakerfið getur þolað, hugsaði Stefán um leið og hann bar Aldísi upp á stéttina neðan við húsið. Hann fór úr jakkanum og lagði hann undir

höfuð Aldísar. Móna fór að stumra yfir henni, en Stefán flýtti sér til Þorvaldar. Þeir skiptust ekki á kveðjuorðum, en settu báðir herðarnar að dyrunum og ýttu á. Hurðin hreyfðist ekki.

„Fastar", sagði Þorvaldur. „Samtaka".

Þeir gengu tvö skref frá hurðinni og köstuðu sér síðan á hana, beittu öllu afli. Svitinn braust fram á enni Stefáns og síðan út um allan líkamann.

„Aftur", sagði Þorvaldur. Í þriðju tilraun fundu þeir fyrst örlítið lát á hurðinni.

„Þær eru að opnast".

Stefán tók eftir því að það vætlaði blóð gegnum skyrtu Þorvaldar, en það virtist ekki hræða hann, Stefán efaðist um, að Þorvaldur hefði einu sinni tekið eftir því.

Hurðin lét smám saman eftir, og loks tókst þeim að opna dyrnar í hálfa gátt. Þeir smeygðu sér inn á ganginn. Í fyrstu sáu þeir ekki neitt nema grjóthrúguna og Þorvaldur kallaði nöfn barna sinna. Honum var svarað veikum rómi og hann heyrði að Björk litla byrjaði að gráta.

Guði sér lof. Þau eru þó lifandi, hugsaði Þorvaldur og vöknaði um augun. Þeir vissu nú hvar þau voru og sáu, að það hafði hrunið úr loftinu og einum veggnum, og börnin höfðu orðið undir grjótinu. Þau lágu klemmd upp að útveggnum og gátu ekki hreyft sig. Þorvaldur talaði til þeirra róandi um leið og hann og Stefán byrjuðu að ryðja grjótinu frá þeim. Björk litla var hætt að gráta. Þau virtust ekki mikið meidd. Stór steinblokk hafði lagzt upp að veggnum, og þau orðið á milli, þegar þau reyndu að forða sér út. Blokkin þrýsti að þeim nægilega mikið, til að þau gátu ekki losað sig undan henni, hún lagðist á ská upp að veggnum, sem bar uppi þunga hennar.

Nú komu fleiri inn til þeirra til að hjálpa þeim við að ryðja grjótinu frá.

Þorvaldur var orðinn örmagna. Hann hafði ekki reynt svona mikið á sig síðan hann var unglingur. Aðeins með því að beita ítrasta viljakrafti gat hann haldið áfram.

Alexander var snemma á fótum. Hann var löngu hættur að geta sofið frameftir á morgnana, en klæddi sig venjulega um sjöleytið. Þau hjónin höfðu aldrei þessu vant farið í bíó kvöldið áður. Og Alexander hafði sofið vel á eftir. Það er ekki til betra svefnmeðal, en þessar amerísku kvikmyndir, hugsaði hann spotzkur.

Hrefna hafði þegar fært honum morgunverð inn á skrifstofuna. Alexander hafði í mörg horn að líta, þótt það væri sunnudagur. Á borðinu fyrir framan hann lá bunki af bréfum, sem þurfti að svara .Skýrslum, sem hann átti eftir að lesa, nýir viðskiptasamningar, sem þurfti að ganga frá. – Fyrirtækin blómstruðu.

Alexander horfði íhugandi á bréfabunkann á borðinu og flysjaði epli. Hann hreyfði hnífinn hring eftir hring, þar til allt flysið féll í heilu lagi eins og slanga niður á diskinn. Það verður nauðsynlegt, hugsaði hann, að auka veltuna . . . færa út kvíarnar . . . ráða nýja starfsmenn.

Alexander beit í eplið. Það gat enginn einn maður stjórnað þessu lengur. En hann var ekki lengur einn. Stefán virtist kunna ágætlega við sig í starfinu. Það var gott. Hann mundi verða að treysta meira og meira á Stefán, eftir því sem fyrirtækin stækkuðu. Alexander beit aftur í eplið og tuggði það hægt, meðan hann hugsaði um þetta. Já. Hann varð að horfast í augu við það óhjákvæmilega . . . Hann varð að auka veltuna . . . Færa út kvíarnar . . .

Hann gat í fyrstu ekki áttað sig á því, sem var að gerast. Diskurinn með eplaflysinu byrjaði að titra á borðinu fyrir framan hann og það heyrðust daufar drunur og sprengingar, sem gerðu hann undrandi. Það var engu líkara en að ný heimsstyrjöld væri skollin á. – Hafði borgin orðið fyrir loftárás? . . . Atómsprengju? . . .

Hann skildi fyrst hvað komið hafði fyrir, þegar hann sá Hrefnu koma hlaupandi inn á skrifstofuna til hans, náföla og óttaslegna.

„Guð hjálpi okkur, Alexander. Við verðum að forða okkur strax. Fellið er byrjað að gjósa".

„Óhugsandi!"

Alexander spratt á fætur og þau hlupu bæði inn í stofuna og út að glugganum. Þau horfðu í orðlausri undrun á gosmökkinn rísa hærra og hærra, horfðu á björgin þeytast í loft upp og sáu hvar rauðglóandi hraunelfan rann niður hlíðina og stefndi í átt til þeirra. Menn eru alltaf jafn óviðbúnir hinu óvænta. Það er eins og það detti yfir þá af himnum ofan fyrirvaralaust, – sama hvað oft það hefur gerzt áður. Nesið hafði að vísu verið byggt í næsta nábýli við gamalt eldfjall, – Fellið. – En það hafði enginn óttast það. Það var engin ástæða til þess. Fellið hafði ekki gosið síðan á landnámsöld. – Og nú stóðu þau allt í einu augliti til auglitis við viðurstyggð eyðileggingarinnar.

Alexander fór frá glugganum og opnaði sjónvarpið.

„Í guðanna bænum, Alexander", endurtók Hrefna. „Við verðum að fara héðan".

„Nei, Hrefna. Það er betra að bíða hér um stund og sjá hvað setur".

„En hraunrennslið stefnir beint á okkur", sagði Hrefna óþolinmóð og starði út um gluggann.

Alexander hlustaði á forsætisráðherrann í sjónvarpinu og var orðinn öruggari. Hann gekk til konu sinnar og lagði höndina um herðar hennar.

„Þeir munu stöðva það", sagði hann. „Með nútímatækni er hægt að stöðva svona hraunflóð. Þeir eru þegar á leiðinni hingað með vatnsslöngur, og það koma fleiri á eftir, hundruðir manna. Það er ástæðulaust að örvænta".

Þung brjóst Hrefnu hófust upp og hún andvarpaði, en hún sagði ekki neitt meira. – Og auk þess, hugsaði Alexander. Ef Nesið eyðileggst, hvert á ég þá að flýja? ... Hann mundi aldrei geta farið héðan . . . þessi friðsæli staður var hans eina örugga vígi gegn umheiminum ... Staður sem var búinn öllum þægindum nútímans . . . Staður sem var næstum því alvag hljóðeinangraður, og verndaði hann næstum fyrir öllum hávaða sem barst að utan ... Staður sem var búinn fullkomnasta hitakerfi, sem tryggði honum alltaf hið bezta hita og rakastig, hvernig sem veðurguðunum þóknaðist að leika veröldina fyrir utan. – Nei. Þetta var hans vígi, og hann og það var eitt. Hann mundi aldrei geta farið héðan. Og hann mundi ekki þurfa þess. Tæknin hafði gert manninn óháðan náttúrunni. Flóðið yrði stöðvað!

Mínútu seinna hófst jarðskjálftinn. Hrefna og Alexander sáu rúðurnar brotna í gluggunum og forðuðu sér undan. Hávaðinn var allt í einu orðinn ægilegur. Um stund hélt Alexander að húsið væri að hrynja. Sprungurnar í loftinu og á veggjunum urðu svo þéttar, að þær mynduðu net um alla stofuna. Jarðskjálftinn hætti jafn skyndilega og hann hafði byrjað.

Það kom sér vel að þetta hús er óvenjulega traustbyggt hús, – hugsaði Alexander með nokkru stolti. En hvern hefði getað grunað þetta? Allt lauslegt í stofunni hafði þeyzt út á gólf. Nema hlutirnir við austurvegginn. Alexander flýtti

sér þangað að vínskápnum, og tókst að finna viskíflösku og glas. Það lá þétt upp að veggnum en hafði ekki brotnað.

„Komdu héðan strax". Hrefna horfði náföl á mann sinn leggja flöskuna og glasið frá sér á borðið.

„Seinna!"

Alexander sökk niður í djúpan, mjúkan stól og seildist síðan í flöskuna. Hann hellti glasið fullt og drakk það út óblandað. Hellti síðan í það aftur. Hönd hans skalf, þegar hann lagði flöskuna frá sér. Hann tók báðum höndum utan um glasið til að stöðva skjálftann. Hrefna horfði á hann og vissi ekki, hvað hún átti að gera. Loks ákvað hún að hringja í Stefán og Mónu. Hún tók upp heyrnartólið. Þögn. Hún lagði á aftur og fór til Alexanders. – Hún varð að koma honum burtu. Það gat verið hættulegt að bíða lengur. Hún heyrði útidyrnar opnast og einhvern koma inn ganginn. Hún flýtti sér fram og mætti Mónu á ganginum. Móna hafði skilið Aldísi eftir í umsjá eins nágrannans og flýtti sér síðan upp eftir götunni til að vitja um foreldra sína.

„Mamma".

„Elsku barnið mitt".

Mæðgurnar féllust í faðma.

„Þetta eru meiri ósköpin. Það er eins og heimurinn sé að farast", sagði Móna.

„Við verðum að vera sterkar, barnið mitt". Hrefna faðmaði dóttur sína aftur að sér.

„Við flýttum okkur hingað eins og við gátum. Við vorum svo hrædd um ykkur".

„Það er gott að þið komuð. Hvar er Stefán?"

„Hann er með mér. Varð eftir hjá Þorvaldi. Mamma . . . Þetta er allt svo hræðilegt. Ég held að það hafi eitthvað komið fyrir".

„Hjá Þorvaldi?"

„Já, húsið er hálf hrunið og börnin hafa lokazt inni".

„Börnin lokazt inni!"

„En þau eru lifandi. Það heyrðist til þeirra", flýtti Móna sér að bæta við. „Þeir verða að ryðja burtu grjóti til að ná þeim út. Í guðanna bænum við skulum flýta okkur burtu héðan. Hvar er pabbi?"

„Hann situr inni í stofu. Þú verður að hjálpa mér til að koma honum af stað. Hann vill ekki fara. Ég held að allt þetta hafi orðið honum ofraun".

Alexander sat við skrifborðið áhyggjufullur á svip, en það glaðnaði yfir honum þegar hann sá Mónu. Hann stóð upp til að fagna henni.

„Pabbi. Elsku pabbi minn. Þú virðist vera mjög þreyttur".

„Ég er það".

„Stefán er niður frá hjá Þorvaldi. Við erum komin til að sækja ykkur".

„Ég get ekki farið héðan".

Móna leit rannsakandi á föður sinn.

„Er nokkuð að?" spurði hún áhyggjufull.

„Nokkuð að!"

Móna sá að varir hans skulfu.

„Nokkuð að!" endurtók hann. „Móna skilur þú ekki, hvað er að gerast, barnið mitt? Ef hraunið flæðir yfir Nesið verða verðbréfin og allar eigur okkar hér einskis virði". Og þegar peningarnir eru farnir hvað er þá eftir, hugsaði hann.

„En það er ekkert við því að gera, við verðum að forða okkur".

„Móna, skilur þú hvað ég á við?"

„Já".

„Næstum hundrað milljónir einskis virði! Við verðum öreigar. Missum allt".

„Ekki allt", sagði Hrefna.

„En við eigum þó fyrirtækin?“ spurði Móna.

Alexander hristi höfuðið.

„Þetta er meira en ég þoli“.

Móna horfði á hálf lukt augu föður síns og skjálfandi hendur hans.

Alexander hélt áfram.

„Fyrirtækin! Nei. Það er svo mikið lánsfé úr bönkunum í fyrirtækjunum, að öll eign okkar liggur í þessum bréfum. – og nokkrum húsum hér á Nesinu“.

„Við verðum að flýta okkur héðan“, sagði Móna.

„Ég kem á eftir“, sagði Alexander dauflega. „Farið þið núna. Ég þarf að ganga frá ýmsum hlutum“.

„Nei, Alexander. Nei“, hrópaði Hrefna og það var angist í rödd hennar. „Þetta er hættulegt. Þú verður að hlusta á mig. Það er of seint að bjarga nokkru. Við verðum að forða okkur“.

Alexander horfði út um brotinn gluggann. Gosið hafði færzt í aukana. En hann sá annað, sem gladdi hann. Fjöldi brunaliðsmanna með hjálma á höfði var kominn á vettvang. Þeir birtust öðru hvoru hálf huldir í reyk, þar sem þeir héldu uppi kraftmiklum vatnsslöngum, sem þeir beindu gegn óvininum og dældu vatni á glóandi hraunrennslið í von um að breyta stefnu þess og láta það falla fram hjá Nesinu og út í víkina.

„Pabbi“. Móna reyndi að toga föður sinn burtu frá glugganum.

„Hús Þorvaldar er hrunið og börnin eru enn lokuð inni. Við verðum að koma og hjálpa þeim“.

Alexander heyrði varla orð hennar, en hann lagði samt af stað með þeim og fór eins og í leiðslu út úr húsinu. Móna og Hrefna leiddu hann á milli sín. – Það var öllu óhætt . . . Þeir mundu stöðva hraunrennslið . . . Það var óhætt að fara

um stund frá húsinu . . . Fjármunir hans voru öruggir . . . í eldtraustum skápum . . . Svo hús Þorvaldar hafði hrunið . . . Þorvald hafði alltaf skort forsjálni . . . Hann hefði átt að hafa húsið minna og traustara . . . Hans eigið hús hafði staðizt . . .

Loks hafði þeim tekizt að fjarlæga allt grjót, – nema steinblokkina, sem börnin voru undir. – Þeir gengu margir á hana og reyndu að lyfta henni upp, en varð að lokum ljóst, að þannig mundu þeir aldrei geta hreyft hana.

Þorvaldur settist niður á gólfið flötum beinum og blés mæðinni.

„Farðu Stefán", hvíslaði hann lágt, „og náðu einhvers staðar í taug og bíl, sem er nógu kraftmikill. Fljótt. Ég verð hérna kyrr".

Stefán flýtti sér orðalaust í burtu. Þegar hann kom út, sá hann að Alexander og Hrefna voru komin niður að húsinu. Aldís var enn ekki komin til meðvitundar eftir yfirliðið. Móna flýtti sér til Stefáns og leit á hann spyrjandi.

„Við náum þeim bráðum", sagði hann. „Og vonandi eru þau ekki mikið meidd. Ég verð að flýta mér að sækja hjálp".

Orð hans drukknuðu í drununum frá Fellinu, sem mögnuðust skyndilega. Allra augu beindust nú þangað. Gosið hafði færzt í aukana, en þau sáu að það var fyrst og fremst hraunrennslið, sem hafði aukizt um allan helming. Það steyptist nú niður hlíðina í flóðöldu, sem féll fram af brúninni, sem myndazt hafði við hraunjaðarinn. Það æddi áfram að Nesinu. Mennirnir með vatnsslöngurnar lögðu á flótta og reyndu að forða sér undan þessum ósköpum.

Grjótið, sem gýgurinn þeytti hátt í loft upp, féll niður allt í kringum þá. Héðan í frá yrði ekki við neitt ráðið. Það reyndi hver sem betur gat að forða sér. Hrefna og Móna fóru inn í húsið til Þorvaldar.

Alexander hraðaði sér aftur upp götuna. Fram að þessu höfðu menn reynt að vera rólegir, en nú hafði æðið gripið um sig. Það var sýnt, að hraunið mundi leggja Nesið undir sig, og að engu yrði bjargað. Það kom stanzlaus straumur af bílum og hlaupandi fólki á móti honum, enAlexander tók varla eftir því. Þegar hann náði húsinu stóð hann á öndinni af mæði og studdi hendinni á vinstri síðuna, eins og maður sem þjáist af hjartveiki.

Hann var feginn því að enginn af hans fólki hafði tekið eftir honum, þegar hann fór. Hann vildi vera einn. Það sem hann nú þurfti að gera vildi hann gera einn.

Þegar hann kom inn í stofuna, sá hann út um gluggann að hraunelfan stefndi beint á hús hans og nálgaðist óðum. Hann varð að hafa hraðann á. Hann náði sér í svarta leðurtösku og gekk með hana að eina málverkinu, sem hékk uppi í stofunni. Hin höfðu öll fallið í gólfið eins og bækurnar úr hillunum. En það hafði verið vel gengið frá þessu málverki. Hann tók það niður. Þetta var stór mynd eftir Kjarval: Hraun og mosi. Honum hafði alltaf fundizt þetta falleg mynd, en aðalhlutverk hennar hafði þó verið að hylja leynihólf, sem komið hafði verið fyrir í veggnum.

Alexander opnaði leynihólfið. Hann teygði út hendurnar og fór að tína fram innihald þess út úr veggnum. Stuttir sverir fingur hans lukust um seðlana, og hann byrjaði að troða þeim niður í svörtu leðurtöskuna. Þetta var allt erlend mynt, aðallega pund og dollarar. Hann lokaði töskunni og flýtti sér inn á skrifstofuna. Hann sá að hraunelfan var nú aðeins skammt undan. Hann mátti engan tíma missa.

Hann opnaði lásinn í flýti og sótti járnkassann með verðbréfunum. Hann var þungur í höndum hans og hann varð að setja hann niður á skrifborðið. Hann lagði svörtu skjalatöskuna frá sér á gólfið. Hann starði niður á borðið og

varir hans skulfu. Það sótti á hann magnleysi, og hann hálf hneig niður á stól við borðið. Honum sortnaði fyrir augum um stund, en hann reyndi að verjast myrkrinu og vísa því á bug. Hann varð að halda áfram. Hann tók báðum höndum utan um kassann og lyfti honum upp að brjósti sér. Hann reyndi að standa á fætur en gat það ekki og seig aftur niður í stólinn. Hann fann hitabylgjuna frá hrauninu, hafði það á tilfinningunni, að það mundi þá og þegar flæða inn um opinn gluggann og færa allt í kaf.

Undarlegustu hugsanir sóttu á hann. Það var eins og hann hefði allt í einu heyrt lesinn yfir sér dóm . . . Eins og hann hefði verið dæmdur af ósýnilegum dómstóli . . . En hvers vegna? Hvaða lög hafði hann brotið? . . .

Hann vissi ekki betur en hann væri saklaus . . . Lífið er óréttlátt, hugsaði hann . . . Að vera dæmdur fyrir eitthvað, sem maður veit ekki einu sinni hvað er . . . af óskiljanlegum dómara, sem kannski er ekki til! Hvernig er hægt að verja sig gegn því, sem maður veit ekki hvað er?

Í fyrsta skipti síðan hann var unglingur á harðbalakotinu fyrir norðan, langaði hann til að gera uppreisn gegn lífinu . . . Hrópa upp mótmæli gegn ranglætinu, sem stjórnaði örlögum mannsins . . . En óttinn náði tökum á honum og varð reiðinni yfirsterkari . . . Aðeins með undirgefni gat hann vænzt sýknunar. – En svo náði reiðin aftur yfirhöndinni. Hann reyndi af alefli að bægja frá sér myrkrinu, sem var að síga yfir hann. Hann varð að komast burt. Hann gerði aðra örvæntingarfulla tilraun til að rísa á fætur með byrði sína. En árangurslaust. Hann seig aftur niður í sætið. –

Hann var farinn að heyra raddir, sem hrópuðu meiningarlaus orð í eyra hans. Þær komu og fóru í öldum. Um stund var eins og þær væru um það bil að vekja hann upp af þessum dvala, en svo kom myrkrið aftur yfir hann og þær þögnuðu.

Hann féll fram á borðið. Höfuð hans lagðist máttvana ofan á kassann sem geymdi hinn einskis verða fjársjóð hans. En hendur hans slepptu samt ekki taki sínu. Alexander Ormsson var látinn.

Skömmu seinna flæddi hraunið yfir hús hans og stefndi óðfluga niður að ströndinni, þar sem enn hafði ekki tekizt að ná börnum Þorvaldar og Aldísar út úr rústunum.

Stefáni hafði tekizt að finna sterkan vörubíl og var kominn aftur að húsi Þorvaldar. Bílstjórinn var órólegur, en þegar hann hafði heyrt hvernig ástatt var, hafði hann komið orðalaust. Það var eins og allir yrðu sameinaðir í hættunni.

Mennirnir höfðu á svipstundu bundið vírtaug aftan í bílinn. Það mátti engan tíma missa. Innan stundar mundi allt verða um seinan. Bílstjórinn ók bílnum alveg að dyrunum, og Þorvaldur og Stefán drógu vírinn að steinblokkinni. Það heyrðist ekkert meira til barnanna. Þorvaldur var órólegur. Mundi þeim takast að ná þeim og komast burtu í tíma. Hraunelfan var þegar búin að leggja undir sig efstu húsin á Nesinu og byrjuð að renna niður götuna. Hún yrði innan stundar komin t il þeirra. Hann svifti til vírnum og tókst að bregða traustri lykkju um steinblokkina.

„Áfram, varlega", hrópaði hann til bílstjórans og hélt um hnútinn. Það stríkkaði á vírnum. Um stund gerðist ekkert annað, en svo fór steinblokkin að lyftast. Börnin voru laus. Stefán og Þorvaldur þrifu þau undan henni og flýttu sér með þau út.
ekki hafa meiðzt alvarlega. Aldís var komin til meðvitundar.

„Guði sé lof", sagði Þorvaldur upphátt.

Börnin voru stirð og dösuð. Þau höfðu marizt en virtust Augu hennar voru blinduð af tárum, og hún reyndi að þurrka þau burtu með handarbakinu til að sjá betur. Hún kraup niður á hnén og faðmaði börnin að sér.

„Við verðum að flýta okkur", kallaði Þorvaldur. „Megum engan tíma missa".

Þau flýttu sér inn í bílana. Þorvaldur og Aldís komu börnunum í skyndi inn í bíl þeirra. Þorvaldur settist undir stýri, og bíllinn fór strax í gang.

Það var fyrst þegar Hrefna var að fara inn í bíl Stefáns, að hún tók eftir því, að Alexander var ekki með þeim. Það hafði gerzt svo mikið síðustu mínúturnar, að enginn hafði tekið eftir því, að hann var horfinn.

„Hvar er Alexander?" hrópaði hún upp.

Stefán og Móna stirðnuðu af ótta. Hraunelfan kom nú æðandi niður götuna í átt til þeirra og þau urðu að komast af stað strax. Móna settist í aftursætið hjá móður sinni og lagði höndina sefandi um herðar hennar.

„Hann hlýtur að hafa farið á undan okkur".

„Nei". Hrefna byrjaði að gráta hljóðlega.

Stefán ók bílnum á eftir Þorvaldi eins hratt og hann komst. Þeir voru síðustu bílarnir, sem yfirgáfu Nesið. Sá hluti þess, sem hraunið hafði ekki þegar lagt undir sig var auður og tómur. – Móna fann á sér, hvað Hrefna hugsaði. Hún grúfði sig upp að móður sinni og fór að gráta líka.

Þau voru komin burt af Nesinu úr mestu hættunni frá steinkastinu. Stefán sveigði inn á aðalbrautina til Reykjavíkur.

Þegar þau voru komin upp á hæðina fyrir handan veginn, kom nýr jarðskjálftakippur talsvert veikari en sá fyrsti. Þorvaldur stöðvaði bílinn til að virða fyrir sér það sem var að gerast.

Hraunelfan, sem fallið hafði yfir Nesið var nú að falla fram í sjóinn. Annað hraunrennsli frá Fellinu rann í stefnu á Reykjavík. Þorvaldur sá hvar hundruðir brunaliðsmanna og annarra, sem komið höfðu þeim til hjálpar höfðu sett upp

nýjar vígstöðvar til að mæta þessum ógnvaldi. Þorvaldur undraðist, að allar þessar hamfarir hvorki hræddu hann né fengu hann til að æðrast yfir því, sem hann og aðrir höfðu misst eða mundu missa. Þvert á móti kallaði þetta ástand fram hjá honum meiri orku en hann vissi, að hann ætti yfir að ráða. Undir niðri hafði hann alltaf haft löngun til að takast á við náttúruöflin – berjast jafnvel gegn ofureflinu. Hann hafði beinlínis saknað þessara átaka allan þann tíma, sem hann hafði stundað fésýslu sína í höfuðborginni.

Að baki hans voru að vísu aðeins rústir og rjúkandi hraunið . . . Hvað um það! Börnin og Aldís voru lifandi . . . Sumir mundu flýja á náðir vínsins . . . reyna að loka augum og eyrum fyrir því sem var að gerast, líkt og það væri illur draumur, sem þeir mundu von bráðar vakna upp af . . .

Sumir mundu gefast upp . . . Sætta sig við örlögin. Hann mundi berjast . . . Hann hlakkaði beinlínis til að fá útrás fyrir hina nýju orku sína og lífslöngun . . . Hvað hafði hann eiginlega misst? Dansstaði og vínhús . . . leikhús og sönghallir? . . . Sjónvarp og útvarp í bráð. – Jafnvel blöðin . . .

Hann átti enn landið . . . jörðina fyrir norðan. Það mundi nægja honum og hans fólki í bráð. Hann hafði alltaf vitað, að fyrr eða síðar yrði maðurinn að takast á við náttúruna . . . hjálparlaust . . . Kannski hafði hann alltaf verið bóndi . . .

Þorvaldur horfði eins og bergnuminn á risaátök höfuðskepnanna á hraunið riðjast fram í hafið, á flóðölduna sem skall á ströndina og flæddi inn yfir Nesið . . . En allt í einu þyngdist brún hans. Hann sá ekki betur en ný flóðalda væri að myndast og tæki stefnu inn voginn.

Þorvaldur tók snöggt viðbragð og ók af stað í ofboði. Stefán hafði þegar keyrt fram úr honum og inn í bæinn.

ÓLAFUR Hreinn Andrésson, magister í kínversku og kínverskum fræðum stóð úti á svölum á húsi sínu við ströndina.

Hann var í sjöunda himni, – mundi ekki eftir að sér hefði nokkurn tímann liðið jafn vel. Hann hafði að vísu orðið fyrir tjóni eins og allir aðrir. Húsið hafði sprungið illa í jarðskjálftanum, en það var traust hús og hafði staðizt hamfarirnar. – Önnur hús, sem byggð voru af minni fyrirhyggju höfðu hrunið og sum brunnið. Það ríkti algert stjórnleysi í borginni.

Magisterinn horfði yfir sjóinn. Hann gat greinilega fylgzt með því, sem var að gerast. Hann hafði horft á það með velþóknun, hvernig hraunið lagði Nesið smám saman undir sig. Þar sem hús Alexanders Ormssonar hafði staðið, var nú ekkert að sjá annað en rjúkandi hraunið. Það byltist áfram óstöðvandi og var nú næstum alveg komið niður að sjónum.

Magisterinn beið, gat ekki slitið sig frá þessari sjón. Hann sá hús Þorvaldar hverfa og hraunið steypast út í sjóinn. Hann komst allur í uppnám við að sjá, hvernig sjórinn sauð og kraumaði, þar sem rauðglóandi hraunið rann viðstöðulaust út í hann og sendi háa gufustróka til himins.

Allt í einu sá hann, hvar há alda reis fyrir framan Nesið og veltist síðan aftur að landi. Hann horfði í ofvæni á ölduna nálgast Nesið. Það var eins og hann væri sjálfur þessi alda. Hún skall með ægilegum þunga að ströndinni og langt upp á land. Svo huldist allt í reyk og gufu. Nesið sást ekki lengur. Það var endanlega sigrað. Magisterinn rak upp fagn-

aðaróp, sem líktist helzt stríðsöskri, – eða hrópum heittrúarmanns, sem sér himnana opnast. Það var eins og allt eðli hans fengi útrás í þessu hrópi, – eins og þessi sýn hefði veitt honum endanlega lausn. Þjáningar og missir alls þessa fólks voru í hans augum aðeins óhjákvæmileg nauðsyn, sem ekki varð hjá komizt. Magisterinn þoldi vel sársauka, – annarra.

Hans tími var kominn. Ástandið átti að vísu eftir að verða enn verra, áður en það gat orðið betra. Magisterinn glotti, þegar honum varð hugsað til ræðu forsætisráðherrans fyrr um daginn. – Nei, borgaralegir stjórnmálamenn voru engu betri en ræður þeirra. Forsætisráðherrann hafði talað eins og ekkert hefði gerzt, – skildi ekki þetta tákn tímanna. – Magisterinn strauk öskuna framan úr sér og hélt áfram að horfa í átt að Nesinu.

Hann hafði alltaf vitað, að þeir voru dæmdir til eyðingar. Þeir báru allir dauðann í brjóstinu, – voru fyrir löngu farnir að eyða sér sjálfir, innanfrá. En þetta gos var óvæntur bandamaður, – eins konar tákn.

Magisterinn fór að hugsa um þetta tákn, – byggð hins borgaralega þjóðfélags eyðilagt . . . Og þeir sjálfir hraktir burt . . . Út í hafið eins og hópur læmingja . . . Eins og hópur læmingja á sjálfsmorðsgöngu. Hvaða hvöt var það, sem kom læmingjunum til að leita dauðans? . . . Svarið lá í augum uppi. Á einhvern dularfullan hátt skynjuðu þeir, að jafnvægið hafði raskazt. Að líf þeirra var orðið í ósamræmi við lögmálið . . . Hið innra lögmál kynstofnsins . . . Og hver einstaklingur finnur, að brot gegn því dæmir hann úr leik . . . Menn hlæja að læmingjunum . . . En eru menn hins borgaralega þjóðfélags ekki alveg eins? . . . Hungrið raskar lífi læmingjanna, auðsældin lífi borgaranna . . . Niðurstaðan verður hin sama . . .

Hefur ekki mannfélag, sem leitar aðeins efnahagslegs öryggis, gert tortímingu þess óumflýjanlega? ... Dauði Anítu? ... Var hann honum að kenna? ... Nei. Hann var þjóðfélaginu að kenna ... Hvers vegna öll þessi taugaveiklun, sjálfsmorð, eiturlyf, rótleysi? ... Voru þetta ekki allt einkenni, sem sönnuðu að borgararnir leituðu dauðans ... eins og læmingjarnir. Það, sem hann hafði aftur á móti gert, hafði hann gert fyrir fjöldann ... Hina stríðandi alþýðu ... Sem mest gæði fyrir sem flesta ... Þessi hugtök veittu honum alltaf fróun og öryggi.

Magisterinn glotti og lyfti ósjálfrátt höndum til himins. Þetta gos var honum stórkostlegt tákn. – Hann hafði sjálfur þýðingarmiklu hlutverki að gegna ... Hlutverki eyðingarinnar. Hann hafði í raun og veru fært stóra fórn með því að gegna þessu vanþakkláta en þýðingarmikla hlutverki upplausnarinnar, sem undirbýr nýja uppbyggingu ... Niðurrif og uppbygging ... Hin óhjákvæmilega leið ... Allt, sem ég hef gert, hugsaði hann aftur, hef ég gert fyrir alþýðufólk ...

Það var einhver lágróma innri rödd, sem hvíslaði allt í einu: „Þykir þér vænt um það? Hefurðu gert það, sem þú hefur gert, vegna þess að þér þykir vænt um fólk? Og Socialismi þinn, – hefur hann ekki glatað hinu mannúðlega eðli sínu?

Magisterinn reyndi að þagga þessa rödd niður, en hún hélt áfram feimnislega ... „Hvað verður um þig, eftir að þið sigrið? Hver verða laun þín? ... Geta það verið sömu mennirnir, sem gegna báðum hlutverkunum, að brjóta niður og byggja upp ... Þarf ekki tvær ólíkar manngerðir til þess? ... Þú veizt vel að þér þykir ekki vænt um fólk ... Þú hatar það ... Nýtur þess að sjá það falla ... Þeir, sem byggja upp verða að hafa samúð með mannfólkinu ... Hvað

verður um þig? . . . Ert þú ekki dæmdur sjálfur; læmingi?

„Hvers vegna ætti ég að vera það?" svaraði magisterinn sjálfum sér.

„Lífið er óréttlátt", hélt röddin áfram. „Laun þín verða engin . . . Þú veizt vel, að þú hefur aðeins hæfileika til að rífa niður . . . Þegar félagar þínir fara að byggja upp, þarf enginn á þér að halda lengur. Þá er hlutverki þínu lokið . . . Lífið er óréttlátt . . . Þú veizt vel, hvað það er miskunnarlaust gagnvart þeim, sem eiga sér ekkert hlutverk. Það dæmir þig úr leik . . . Eins og borgarana".

Magisterinn var hættur að brosa. Upp á síðkastið hafði hann fundið til vaxandi einmanaleika. Það var eins og gamlir kunningjar væru farnir að forðast hann. Og hann eignaðist enga nýja vini. Var hann að einangrast? Gat það verið, að endalok borgaranna þýddu endalok hans? . . . Hann og þeir eins og tvær skeljar utan um sama fiskinn? Eða var hann eins og ormur, sem veslaðist upp, þegar það var ekkert tré lengur – til að naga?

Röddin tók aftur til máls.

„Sannleikurinn er sá, að þú ert ófrjór og neikvæður. Ófær um að skapa og byggja upp. Þegar hlutverki þínu er lokið, – þegar hugsjón þín sigrar . . . þá verður þú sjálfur að deyja".

Magisterinn tók viðbragð. Nú þóttist hann þekkja þessa rödd. Hún var ekkert annað en borgaralegur áróður í hans eigin brjósti! . . . Illgresi, sem þurfti að uppræta . . . Hann tók aftur að brynja sig hugmyndafræðilegum rökum, sem gátu réttlætt líf hans, og innan stundar var hann aftur öruggur með sjálfan sig. Sigurvegarar eru aldrei það sama og hinir sigruðu.

Hann beindi allri athygli sinni aftur yfir að Nesinu, og náttúruhamfarirnar fylltu hann á ný gleði og stolti. Hann var

sigurvegari. Þeir hinir sigruðu. Þeir voru nátttröllin, sem lífið ruddi úr vegi... Hann aftur á móti hafði ákveðinn tilgang ... gegndi sögulegu hlutverki ...

En þessi gleðivíma magistersins varð skammvinn. Hann sá allt í einu aðra öldu rísa, sá hana sækja í sig veðrið og fara ört stækkandi, verða æ hærri og ógurlegri. Magisterinn stirnaði upp af skelfingu. Þessi alda stefndi ekki upp á Nesið eins og sú fyrri hafði gert. Hún nálgaðist óðfluga Voginn. Hún mundi falla skáhallt upp að ströndinni, – falla beint á hann. Hann stóð kyrr, eins og hann hefði allt í einu breytzt sjálfur í steingerving, eins og hann væri gróinn fastur þar sem hann stóð á svölunum. Hann horfði eins og í leiðslu á fólkið ryðjast út úr húsunum og safnast saman í hópa á götunum. Hann heyrði hróp þeirra og köll eins og úr fjarska. Magisterinn hreyfði sig ekki. Sá aðeins ölduna nálgast. Héðan var ekkert að flýja, öll undankoma vonlaus. Hann sá skyndilega ölduna beint fyrir ofan sig.

„Nei! ... Nei! ... Nei! öskraði hann upp í öldukambinn. Um stund kom ólýsanlegur furðusvipur á andlit hans, en svo hvarf honum allt og mótmæli hans drukknuðu í hamförunum, sem voru enn voldugri og miskunnarlausari en sú bylting, sem hann hafði alla ævi trúað á að mundi koma og skapa nýjan heim.

STEFÁN og Móna sáu gegnum hríðina aðeins móta fyrir bíl Þorvaldar fyrir framan þau á veginum. Það var vika liðin frá því gosið hófst, október byrjaður og vetur genginn í garð.

Hraunrennslið, sem stefndi á Reykjavík, hafði verið stöðvað og lífið í borginni færðist smám saman í sitt vanalega horf.

Þrengingar síðustu daga höfðu breytt fólkinu. Menn urðu vingjarnlegir í framkomu og hjálpsamir. Það var eins og þeir vildu allt í einu fara að bera hvers annars byrðar í sameiningu. Fólkið leitaði hvers annars líkt og hjörð, sem skyndilega er gripin óvæntum ótta. Þetta ástand kallaði fram hjá því nýja orku, sem fékk útrás í hörðum átökum við náttúruöflin. Og Stefán var byrjaður á nýrri skáldsögu.

Báðar bifreiðarnar voru á leið norður. Það höfðu myndazt skaflar á veginum og þeim sóttist ferðin seint.

Það verður hver að bjarga sér, hugsaði Þorvaldur og rýndi út í hríðina. Aldís sat við hlið hans og hallaði sér upp að honum. Henni hafði aldrei áður þótt jafnvænt um hann og eftir að hann bjargaði börnunum. Aldís leit til þeirra, þakklátum augum, þar sem þau sátu í aftursæti bifreiðarinnar og biðu þess með eftirvæntingu að komast út í hríðina og snjóinn fyrir norðan.

Þorvaldur leit líka snöggu augnaráði á konu sína og börnin. Það verður hver að bjarga sér, – og sínum, hugsaði

hann aftur og tók fastar um stýrið. – Hann hafði ákveðið að sitja á búi sínu nyrðra yfir veturinn. Hann hafði orðið fyrir miklu tjóni, en hann harmaði ekki skaða sinn. Efnahagslegt öryggi . . . öðru nafni leiðindi, hugsaði hann. Í stríðinu við náttúruna getur maðurinn aldrei sigrað endanlega. Hann verður að sigra hana á ný á hverjum degi. Og Þorvaldur var í bezta skapi. Hann hlakkaði til að takast á við lífið, – á tvennum vígstöðvum. Þegar voraði mundi hann fara aftur til borgarinnar og byrja að nýju . . .

Stefán ók áfram. Það rofaði til öðru hvoru. Þau sáu um stund til borgarinnar, en svo hvarf hún aftur og hríðin byrgði alla útsýn að nýju. Þau héldu áfram norður. – Hann og Móna mundu verða samferða hinum upp að vegamótunum og skilja þar. Það var ákveðið að Stefán kenndi við skóla föður síns þennan vetur, háskólinn óstarfhæfur og lokaður fyrst um sinn.

Hrefna hafði ein orðið eftir í borginni og annaðist hótelreksturinn. – Nú mundi snjór hylja að mestu hraunið á Nesinu og engin verksummerki sýna að þar hefði verið mannabyggð.

Stefán reyndi að halda athyglinni vakandi við aksturinn, en margvíslegar hugsanir þrengdu sér inn í hugskot hans. Hann spurði sjálfan sig sömu spurningarinnar og þegar hann kom til borgarinnar. Hver var tilgangurinn með för hans? Líf hans var á ýmsan hátt jafnóráðið nú eins og þá . . . Hann hafði byrjað að skrifa nýja skáldsögu . . . Og að þessu sinni mundi hann ekki láta neinn stöðva sig. Það var eitthvað hið innra með honum, sem krafðist útrásar . . . Og það getur ekkert stöðvað mann, sem vill halda áfram, hugsaði hann vongóður . . . Að sigra, er að vera ekki sigraður . . . Skáld eru auðsærð, en ósigrandi . . .

Móna kveikti þegjandi í sígarettu og rétti honum. Stefán

hallaði sér aftur á bak í sætinu og blés frá sér reyknum . . . Maðurinn er ósigrandi, nema hann bregðist sér sjalfur . . . Hafði hann brugðizt sjálfum sér? Hann vissi nú, að svarið var já. Hann hafði reynt að loka augum sínum fyrir því, en hann vissi það samt . . . Maðurinn getur vanizt hverju sem er . . . En ef það er gagnstætt eðli hans verður hann að gjalda fyrir það með hluta af lífi sínu . . . Það er hægt að venjast hlutverki leppsins . . . undirlægjunnar . . . En hvernig? . . . Með því að breyta sér . . . Afneita vísvitandi vitsmunum og siðgæði . . . Maðurinn getur aðlagazt auðhyggju . . . vanizt heimi, þar sem menn sitja á svikráðum hverjir við aðra . . . En hann getur það ekki, án þess að gjalda fyrir það með hrörnandi manndómi.

Stefán fann til blygðunar. Hugsaði hann svona vegna þess að hann hafði misst hin nýfundnu auðævi? Misst efnahagslegt öryggi? . . . misst ríkidæmi í nýrri veröld? En hvernig var sú veröld?

Stefán fór enn einu sinni að hugsa um gamla ævintýrið um Aladdínlampann . . . Þessi nýja veröld hafði líka fengið nýjan lampa fyrir gamlan. Hún hafði fengið það, sem menn kölluðu efnahagslegt öryggi í skiptum fyrir hugsjónina, ástina og guð. Og hvað var maðurinn án hugsjónar . . . án ástar . . . án guðs? Er maðurinn í raun og veru nokkurn tímann fátækari en þegar hann er ríkur?

Stefán sogaði að sér reykinn. Hann hafði í vor farið til Reykjavíkur í leit að nútímanum. En hvað hafði hann fundið? Það, sem maðurinn finnur ævinlega. Sjálfan sig . . . Og hann hafði fundið Mónu. En hvað er ég, spurði hann sjálfan sig. Hvernig á maðurinn að fara að því að meta sjálfan sig? . . . Hvaða mælikvarða á hann að nota? . . .

Ég er það, sem ég á, hafði Alexander sagt, – eða jafnvel. Ég er eins og þú vilt að ég sé.

Ég er það, sem ég geri, mundi faðir hans segja . . . eða jafnvel: Ég er það, sem ég hugsa.

Kannski skipti ekki mestu máli hvað hann var. Það, sem skipti mestu máli var, hvað hann gat orðið . . . Hvað hann gat skapað úr sjálfum sér . . . Fyrsta skylda mannsins er að lifa . . . og að lifa er að verða. Stefán hlakkaði allt í einu til að byrja nýtt líf fyrir vestan.

Hvað bíður okkar nú, hugsaði Móna. Hún lokaði augunum og reyndi að finna svar við þessari spurningu. Hún vissi nú að hún gekk með barni hans og ætlaði að segja honum það, þegar þau kæmu heim, strax í kvöld. Þau mundu gifta sig í litlu sveitakirkjunni fyrir vestan og móðir hennar mundi koma til þeirra.

Þegar hún opnaði augun aftur, sá hún að Stefán brosti til hennar. – Hana langaði til að halla sér í fang hans. Hún var gripin ástríðu til að láta hann kyssa sig og fara höndum um nakinn líkama sinn. Þegar hann gerði það yrði allt gott aftur. Móna fann að hún var hans, – fullkomlega. Hún lagði höndina á hné hans og brosti til hans á móti. Það var djúpur skilningur í augum hennar.

GUNNAR DAL:

Vera, ljóð 1949.
Sfinxinn og hamingjan, ljóð 1953.
Rödd Indlands 1953.
Þeir spáðu í stjörnurnar 1954.
Sfinxinn og hamingjan 2. útg. 1954.
Sókrates 1957.
Spámaðurinn (þýdd ljóð) 1958.
Októberljóð 1959.
Leitin að Aditi 1961.
Tveir heimar 1961.
Líf og dauði 1961.
Hinn hvíti lótus 1962.
Yogasútra Patanjalis 1962.
Sex indversk heimspekikerfi 1962.
Grískir heimspekingar 1962.
Öld Sókratesar 1963.
Varnarræða Sókratesar 1963.
Raddir morgunsins (ljóð) 1964.
Móðir og barn (þýdd ljóð) 1964.
Plató 1966.
Aristóteles 1966.
Orðstír og auður 1968.